hafrar, baunir, jarðepli, romm, neftóbak, vindlar, salt, borð, korkur, litunartrè, álún, látún, hestajárn, skóflur, sagarblöð, lásar, bandprjónar, hnappar, speiglar, lèrept, herðaklútar, lèreptsklútar, axlabönd, hörtvinni og ullargarn eða áles. Aptur á hinn bóginn hefir aðflutníngur árið 1865 verið meiri en næst undanfarið ár á hinum öðrum 70 vörutegundum, sem í skýrslunum eru taldar, og á mörgum þeirra svo töluverðu nemur; en meðal hinna helztu vörutegunda, sem þetta á sèr stað um, má hèr einkum taka fram: alla kornvöru, að frátöldu byggi, höfrum og baunum, hveitimjöl, bjór, allskonar sykur, kaffebaunir og kafferót, steinkol o. s. frv., og mætti þó telja miklu fleiri.

---

Þá er að skoða skýrslurnar C og D yfir vörur fluttar frá Íslandi á árunum 1864 og 1865, og skal þá einnig hèr, eins og gjört var um innfluttar vörur, taka skýrsluna fyrir árið 1865 til samanburðar og yfirvegunar.

Af fiski (saltfiski og hörðum fiski) var á því hèr umrædda ári flutt frá Íslandi alls 8326 skippund. Eins og að undanförnu var lángmest af þessu flutt frá Suður-umdæminu, nefnilega 4615 skippund (einkum frá Reykjavíkur kaupstað og Gullbríngu sýslu; frá þeim nefnilega 4124 skippund, eða nær því helmíngur alls þess sem fluttist frá öllu landinu), og svo frá Vestur-umdæminu 3694 skippund (þaðan einkum frá Ísafjarðar sýslu, eða 2683 skippund); en það er varla teljanda, sem af þessari vöru var flutt frá Norður- og Austur-umdæminu (ekki nema ein 17 skippund, og það einúngis frá Suður-Múla sýslu). Söltuð hrogn hafa eins og að undanförnu eingaungu verið flutt frá Suður-umdæminu, einkum frá Reykjavíkur kaupstað (nefnilega 256 tunnur af 452 tunnum, sem á þessu ári alls fluttust af þessari vörutegund). Söltuð síld hefir ekki verið flutt út á þessu ári, enda hefir á seinni árum útflutníngur á þeirri vöru verið svo lítill, árið 1862 t. a. m. einar 3 tunnur frá öllu landinu, að það er varla teljanda. Af söltuðum laxi er á þessu ári sagt að flutt hafi verið út alls 208 lísipund, og er þetta lítilræði að kalla má einúngis flutt frá Norður- og Austurumdæminu (frá Stranda sýslu ein 48 lísipund).

Af lýsi (og er þar talið allskonar lýsi, bæði þorskalýsi, hvallýsi, hákarlslýsi og selslýsi) hefir á þessu ári fluzt alls 9520 tunnur. Lángmestur hefir útflutníngurinn verið frá Norður- og Austur-umdæminu, nefnilega 5009 tunnur, eða rúmlega eins mikið og frá báðum hinum umdæmunum; þá frá Vestur-umdæminu 3278 tunnur, en frá Suður-umdæminu ekki nema 1233 tunnur. Hlutfallið milli umdæmanna er því æði ólíkt því sem verið hefir að undanförnu (smbr. I., bls. 576 og III, bls. 593).

Saltað kjöt hefir eins og undanfarin ár að kalla má eingaungu verið flutt frá Norður- og Austur-umdæminu, nefnilega 685 tunnur af 716 tunnum, sem alls fluttust frá landinu (frá Suður-umdæminu 31 tunna, en ekkert frá Vestur-umdæminu).

Hvað útflutníng af tólg snertir á þessu ári, þá skarar Norður- og Austur-umdæmið lángt framúr hinum umdæmunum að þessu. Þetta ár fluttust nefnilega alls frá öllu landinu 419,267 pund, en af því var flutt frá Norður- og Austur-umdæminu einu 313,038 pund, eða hèrumbil þrefalt meira en frá hinum báðum umdæmunum að samtöldu; því frá Suður-umdæminu fluttust 85,287 pund, en frá Vestur-umdæminu einúngis 20,942 pund. Það er að öðru leyti merkilegt, að frá Ísafjarðar sýslu er alls ekki neitt talið að flutt hafi verið út af þessari vöru, og frá Barðastrandar sýslu einúngis 510 pund, sem varla er teljanda.

Þá kemur ullin. Af þessari vörutegund (og er hèr bæði talin hvít ull, svört ull og mislit) fluttust á þessu ári samtals frá öllu landinu 1,392,055 pund. Hèr kemur einnig að hinu sama, nefnilega að Norður- og Austur-umdæmið skarar lángt fram úr hinum umdæmunum að því, hvað út hefir verið flutt á þessu ári af þessari vörutegund. Þannig fluttust frá Norður- og Austur-umdæminu 733,740 pund, eða rúmur helmíngur þess, sem út hefir verið flutt frá öllu landinu; frá Suður-umdæminu voru flutt 424,957 pund, en frá Vestur-umdæminu ekki nema 233,358 pund, eða rúmur helmíngur þess sem fluttist frá Suðurlandi.

Tóvara hefir eins og áður mest og að kalla má eingaungu verið flutt frá Norður- og Austur-umdæminu, einkum frá Eyjafjarðar sýslu, og svo nokkuð frá Vestur-umdæminu; þó er þaðan

ekki flutt nema eingirnis prjónles og nokkuð af sjóvetlíngum. Aptur á móti er ekkert af þessari vöru flutt frá Suður-umdæminu, að undanskildu því, að lítið eitt er talið flutt af sjóvetlíngum frá Reykjavíkur kaupstað (ekki nema 177 pör). Þannig hefir verið flutt á þessu ári frá Norður- og Austur-umdæminu: af peisum: 143 pör (en ekkert frá hvorugu hinna umdæmanna), af sokkum 34,496 pör af 34.645 pörum, og af sjóvetlíngum 9,499 pör af 14,736 pörum. Háleistar voru einúngis fluttir frá Norður- og Austur-umdæminu, nefnilega 37,101 pör, en af 1325 pörum fíngravetlínga, sem á þessu ári voru fluttir frá Íslandi, voru einúngis 12 pör flutt frá Vestur-umdæminu, en hitt frá Norður- og Austur-umdæminu. Líkt er að segja um vaðmál, að það lítið sem á þessu ári var flutt frá Íslandi, var að kalla má einúngis frá Norður- og Austur-umdæminu, því það voru einar 8 álnir sem fluttust frá Vestur-umdæminu.

Af æðardún fluttist á þessu ári, eins og að undanförnu, lángmest frá Vestur-umdæminu, eða nær því eins mikið og frá báðum hinum umdæmunum samtöldum, það er að skilja 3485 pund af 7017 pundum; frá Suður-umdæminu fluttust 1554 pund, en frá Norður- og Austur-umdæminu 1978 pund, og verður þá hlutfallið milli umdæmanna líkt og áður hefir verið (smbr. I., bls. 576, og III., bls. 593). Af fiðri hefir einnig á þessu ári eins og að undanförnu verið flutt lángmest úr Vestmannaeyjum (11,898 pund af 25,796 pundum sem fluttust frá öllu landinu), en þó er hlutfallið býsna ólíkt því sem það var árið 1862 (smbr. III., bls. 593). Af álptafjöðrum fluttist mest frá Vestur-umdæminu, nefnilega 16,100 tals af 26,450 tals frá öllu landinu.

Af skinnavöru er líkt um útflutníng á þessu ári frá hinum ymsu hèruðum landsins, nema hvað söltuð sauðskinn að kalla má eingaungu, og hafurstökur eingaungu hafa verið flutt frá Norður- og Austur-umdæminu. Þar á móti hefir útflutníngur af lambskinnum, þótt mikill hafi verið, ekki verið eins ólíkur frá umdæmum landsins og árið 1862 (smbr. III., bls. 594).

Lifandi hestar hafa á þessu ári eins og að undanförnu lángflestir verið fluttir frá Reykjavíkur kaupstað, nefnilega tals 307

af 365 sem fluttust frá öllu landinu; frá Vestur-umdæminu fluttust 17, en frá Norður- og Austur-umdæminu 39. Lifandi sauðfè þar á móti, sem þó varla er teljanda, hefir að kalla má verið flutt eingaungu frá Suðurlandi, nefnilega 27 af 29 sem alls fluttist út.

Aðrar vörutegundir, sem á þessu ári hafa verið fluttar út úr landinu, þykir ekki þörf að tilgreina hèr eða jafna saman, en þó þykir rètt, á sama hátt og gjört hefir verið hèr að framan um aðfluttar vörur, einnig að bera saman útfluttar vörur á árunum 1864 og 1865, og verður þá útflutníngurinn frá öllu landinu á þessum tveim árum á þá leið, að út var flutt:

| | árið 1865. | árið 1864. |
|---|---|---|
| Saltfiskur, skippund . . . . . . . | 8287 | 17887 |
| Harður fiskur, — . . . . . . . . | 39 | 395 |
| Söltuð hrogn, tunnur. . . . . . . | 452 | 2390 |
| Söltuð síld, — . . . . . . . . | » | » |
| Saltaður lax, lísipund. . . . . . . | 208 | 236 |
| Lýsi, tunnur . . . . . . . . . . | 9520 | 6572 |
| Saltað kjöt, tunnur . . . . . . . | 716 | 1902 |
| Tólg, pund . . . . . . . . . . . | 419267 | 412072 |
| Söltuð sauðskinn, tals . . . . . . | 2870 | 8438 |
| Lambskinn, — . . . . . . . | 31649 | 8411 |
| Tóubelgir, — . . . . . . . | 338 | 223 |
| Álptarhamir, — . . . . . . . | 44 | 35 |
| Álptarfjaðrir, — . . . . . . . | 26450 | 19420 |
| Æðardún, pund — . . . . . . . | 7017 | 6266 |
| Fiður, — . . . . . . . . . . | 25796 | 32006 |
| Rjúpur, tals . . . . . . . . . . | 8776 | 6280 |
| Hvít ull, pund . . . . . . . . . . | 1266510 | 1104693 |
| Svört ull, — . . . . . . . . . . | 19871 | 14449 |
| Mislit ull, — . . . . . . . . . . | 105674 | 99580 |
| Peisur, tvíbands, tals . . . . . . . | 143 | 85 |
| Peisur, eingirnis . . . . . . . . . | » | 22 |
| Háleistar, pör . . . . . . . . . . | 37101 | 13254 |
| Sokkar, tvíbands, pör . . . . . . . | 34347 | 41561 |

| | árið 1865. | árið 1864. |
|---|---|---|
| Sokkar, eingirnis, pör . . . . . . | 298 | 1008 |
| Sjóvetlíngar, pör . . . . . . . . . | 14736 | 14672 |
| Fíngravetlíngar, pör . . . . . . . | 1325 | 1623 |
| Vaðmál, álnir . . . . . . . . . . | 824 | 264 |
| Bein, lísipund . . . . . . . . . . | 249 | 300 |
| Háfsroð, tals . . . . . . . . . . | » | » |
| Hross, lifandi, tals . . . . . . . . . | 365 | 431 |
| Sauðfè, lifandi, — . . . . . . . . . | 29 | 2 |
| Hafurstökur, pund . . . . . . . . . | 80 | 1508. |

þar sem það sýndi sig um aðflutníng til landsins á þessum árum, að hann hafði verið meiri árið 1865 en árið 1864 á flestum innfluttum vörutegundum, þá á það gagnstæða sèr stað að kalla má um vörur fluttar frá landinu. Beri maður nefnilega þessi ár saman, þá kemur það fram, að af þeim 32 vörutegundum, sem í skýrslunum eru taldar, eru það ekki nema 15 tegundir, sem talið er að meir hafi verið flutt út árið 1865 en árið 1864, og eru það þessar: lýsi, tólg, lambskinn, tóubelgir, álptarhamir, álptarfjaðrir, æðardún, rjúpur, hvít ull, svört ull, mislit ull, tvíbands peisur, sjóvetlíngar, vaðmál og lifandi sauðfè. þar á móti hefir útflutníngur árið 1864 verið meiri en árið 1865 af 17 vörutegundum.

---

Vèr höfum nú skýrt frá fluttum vörum til Íslands og frá Íslandi á þeim tveim árum 1864 og 1865, en ekki mun þykja ófróðlegt að sjá, að hve miklu leyti vöruflutníngar bæði til landsins og frá landinu hafi aukizt eða mínkað á ymsum tímabilum. Í þessu skyni viljum vèr hèr taka þau þrjú ár 1849, 1855 og 1865, og sýna hversu mikið á hverju þessara þriggja ára hafi bæði verið innflutt og útflutt af hinum helztu vörutegundum. Af útlendum vörum var þannig flutt til Íslands:

| | | árið 1849. | árið 1855. | árið 1865. |
|---|---|---|---|---|
| Rúgur | tunnur | 23128 | 20000 | 35206 |
| Bygg | — | 274 | 453 | 397 |
| Baunir | — | 2028 | 3536 | 4177 |
| Bánkabygg | — | 7635 | 11725 | 19563 |
| Rúgmjöl | — | 3849 | 4922 | 6390 |
| Brauð[1] | pund | 186800 | 169440 | 333074 |
| Brennivín | pottar | 257212 | 389453 | 608864 |
| Önnur ölfaung[2] | — | 39790 | 58246 | 123253 |
| Kaffebaunir[3] | pund | 293833 | 426980 | 529937 |
| Sykur[4] | — | 272702 | 457231 | 572117 |
| Sirop | — | 16587 | 21180 | 17507 |
| Tóbak[5] | — | 79967 | 108880 | 123231 |
| Salt | tunnur | 17069 | 20342 | 10291 |
| Tjara | — | 533 | 520 | 687 |
| Steinkol | — | 3479 | 6539 | 20015 |
| Járn | pund | 108137 | 148035 | 122240 |
| Hampur | — | 38100 | 37700 | 32654 |
| Færi | tals | 10587 | 15179 | 16437 |
| Viður, stærri og minni | — | 4101 | 5172 | 8576 |
| Borð og plánkar | — | 84581 | 60540 | 93322 |

Af þessu yfirliti má sjá mismuninn á sèrhverri vörutegund á þessum þrem árum að tölunni til, en til þess að gjöra þetta atriði skiljanlegra og ljósara, þá skal nú sýna hversu aðflutníngurinn á hverri einstakri af þeim hèr töldu vörutegundum hefir aukizt eða mínkað á þeim tímabilum, sem hèr ræðir um, að tiltölu af hverju hundraði; en til aðgreiníngar er sett merkið (+) fyrir framan töluna, þegar aðflutníngurinn hefir aukizt, en hafi hann þar á móti mínkað, þá er merkið (÷) sett fyrir framan töluna.

[1]) Hèr er talið hveitibrauð og svartabrauð.

[2]) Hèr er talið: vín, romm, púnsextrakt, kryddvín, mjöður og bjór.

[3]) Árið 1865 er hèr einnig talin kafferót.

[4]) Hèr er talið allskonar sykur: hvítasykur, kandíssykur og púðursykur.

[5]) Hèr er einnig talið allskonar tóbak, nefnilega: blaðatóbak, neftóbak, munntóbak og kardustóbak.

Vöruflutníngar til landsins á þessum tímabilum hafa þá aukizt eða mínkað á þenna hátt:

| | frá 1849 til 1855. | frá 1855 til 1865. | frá 1849 til 1865. |
|---|---|---|---|
| Rúgur | ÷ 13.5 | + 76.0 | + 52.2 |
| Bygg | + 65.3 | ÷ 12.4 | + 44.9 |
| Baunir | + 74.4 | + 18.1 | + 106.0 |
| Bánkabygg | + 53.6 | + 66.8 | + 156.2 |
| Rúgmjöl | + 27.9 | + 29.8 | + 66.0 |
| Brauð | ÷ 9.3 | + 96.6 | + 78.3 |
| Brennivín | + 51.4 | + 56.3 | + 136.7 |
| Önnur ölfaung | + 46.4 | + 128.8 | + 209.8 |
| Kaffebaunir | + 45.3 | + 24.1 | + 80.4 |
| Sykur | + 67.7 | + 26.0 | + 109.8 |
| Sírop | + 27.7 | ÷ 17.3 | + 5.5 |
| Tóbak | + 36.1 | + 13.2 | + 54.1 |
| Salt | + 19.2 | ÷ 49.4 | ÷ 39.7 |
| Tjara | ÷ 2.4 | + 32.1 | + 28.9 |
| Steinkol | + 87.4 | + 206.1 | + 475.3 |
| Járn | + 36.9 | ÷ 17.4 | + 13.0 |
| Hampur | ÷ 1.0 | ÷ 13.4 | ÷ 14.3 |
| Færi | + 43.4 | + 8.3 | + 55.2 |
| Viður, stærri og minni | + 13.1 | + 65.8 | + 109.1 |
| Borð og Plánkar | ÷ 28.4 | + 54.1 | + 10.3 |

Af þessu lætur það sig glögglega í ljósi, að aðflutníngurinn hefir farið vaxandi á nær því öllum útlendum vörum á þessum tímabilum, sem hèr ræðir um. Í yfirliti þessu eru nefnilega taldar 20 hinar helztu vörutegundir, og sýnir það sig þá, að á tímabilinu frá 1849 til 1855 hefir aðflutníngurinn einúngis mínkað á 5 þeirra, það er að skilja á rúgi, brauði, tjöru, hampi og borðum og plönkum; á tímabilinu frá 1855 til 1865 hefir aðflutníngurinn einnig mínkað enn á 5 vörutegundum, nefnilega á byggi, síropi, salti, járni og hampi, og loks hefir á 16 ára tímabilinu frá 1849 til 1865

aðflutníngurinn einúngis mínkað á tveim vörutegundum, nefnilega á salti og hampi.

Á öllum hinum vörutegundunum, sem taldar eru í yfirliti þessu, hefir aðflutníngurinn á þessum tímabilum farið vaxandi, og á sumum þeirra mjög svo mikið, t. a. m. einkum á steinkolum og svo á ölfaungum. Þó hefir ekki aðflutníngurinn á þessum tímabilum aukizt eins mikið á nokkurri vöru eins og á óþarfavörum, sem vèr svo nefnum, og teljum vèr með þeim brennivín og önnur ölfaung, kaffebaunir, sykur og tóbak, en þar á móti hefir aðflutníngurinn á hinni helztu þarfavöru, sem eru kornvörur (það er að skilja: rúgur, bánkabygg, baunir, bygg og rúgmjöl), að sínu leyti farið miklu minna vaxandi. Þetta, sem nú var sagt, lætur sig einnig glöggast í ljósi, þegar menn bera aðflutnínginn á þessum umræddu árum saman við fólksfjöldann í landinu á þeim hinum sömu árum, því þá verður það ofaná, að á hvert mannsbarn í landinu koma:

| | | árið 1849. | árið 1855. | árið 1865. |
|---|---|---|---|---|
| af brennivíni . . . | pottar | 4.35 | 6.03 | 8.94 |
| - öðrum ölfaungum | — | 0.67 | 0.90 | 1.81 |
| - kaffebaunum . . | pund | 4.96 | 6.61 | 7.78 |
| - sykri . . . . . | — | 4.61 | 7.08 | 8.40 |
| - tóbaki . . . . . | — | 1.35 | 1.69 | 1.81 |
| - kornvöru . . . . | tunnur | 0.63 | 0.63 | 0.97. |

Sýnir þetta meðal annars, að þar sem aðflutníngur á flestum óþarfavörum, að tóbaki undan töldu, í samanburði við fólkstöluna hefir hèrumbil tvöfaldazt á tímabilinu frá 1849 til 1865, þá hefir aðflutníngurinn á kornvöru á sama tímabili ekki vaxið nema um þriðjúng.

Þá er að taka fyrir útfluttar vörur, og hafa þá á þeim árum, sem vèr hèr höfum tekið fyrir oss að íhuga, þessar vörur verið fluttar frá Íslandi, nefnilega:

| | árið 1849. | árið 1855. | árið 1865. |
|---|---|---|---|
| Saltfiskur . . . . . . . . . . . skippund | 16400 | 20989 | 8287 |
| Harður fiskur . . . . . . . . — | 3244 | 3090 | 39 |
| Söltuð hrogn . . . . . . . . . . tunnur | 308 | 1131 | 452 |
| Saltaður lax . . . . . . . . . lísipund | 330 | 387 | 208 |
| Söltuð síld . . . . . . . . . . . tunnur | 23 | 5 | » |
| Lýsi . . . . . . . . . . . . . . — | 3259 | 6891 | 9520 |
| Saltað kjöt . . . . . . . . . . — | 1235 | 3362 | 716 |
| Tólg . . . . . . . . . . . . . . pund | 646874 | 932906 | 419267 |
| Ull[1] . . . . . . . . . . . . . — | 1397148 | 1596323 | 1392055 |
| Peisur[2] . . . . . . . . . . . . . tals | 8405 | 2530 | 143 |
| Sokkar[2] . . . . . . . . . . . . . pör | 91145 | 69305 | 71746 |
| Sjóvetlingar . . . . . . . . . . — | 78962 | 27109 | 14736 |
| Vaðmál . . . . . . . . . . . . . álnir | 5802 | 2602 | 824 |
| Sauðskinn söltuð. . . . . . . . tals | 3745 | 12712 | 2870 |
| Lambskinn . . . . . . . . . . . — | 13405 | 29385 | 31649 |
| Tóubelgir . . . . . . . . . . . — | 396 | 367 | 338 |
| Háfsroð . . . . . . . . . . . . — | 93 | 55 | » |
| Hafurstökur . . . . . . . . . . . pund | 804 | 385 | 80 |
| Álptarhamir . . . . . . . . . . . tals | 94 | 87 | 44 |
| Álptarfjaðrir . . . . . . . . . . — | 21875 | 8950 | 26450 |
| Æðardún . . . . . . . . . . . . pund | 3991 | 4116 | 7017 |
| Fiður . . . . . . . . . . . . . — | 19628 | 25097 | 25796 |
| Sundmagar . . . . . . . . . . skippund | » | 44 | » |
| Hestar lifandi . . . . . . . . . tals | » | 244 | 365 |
| Rjúpur . . . . . . . . . . . . . — | » | 10000 | 8776 |

þetta sýnir nú mismuninn á sèrhverri vörutegund á þessum þrem árum að tölunni til, og kemur það þá fram, að útflutníngurinn hefir farið mínkandi á næstum öllum innlendum varníngi, og það ekki svo lítið á sumum tegundum. Vèr viljum samt einnig hèr, eins og gjört var við aðfluttar vörur, sýna hversu mikið útflutníngurinn hefir aukizt eða mínkað á hinum sömu tímabilum að

[1]) Hèr er talin hvít, svört og mislit ull.

[2]) Af þessu prjónlesi er bæði talið eingirnis- og tvinnabands-les, og eru með sokkum einnig taldir háleistar.

tiltölu af hverju hundraði, og brúkum vèr þá hèr hin sömu merki, til að tákna með vöxt og mínkun, og brúkuð voru við aðfluttar vörur. Á þessum tímabilum hafa þá vöruflutníngar frá landinu aukizt eða mínkað á þann hátt, sem nú skal segja:

| | frá 1849 til 1855. | frá 1855 til 1865. | frá 1849 til 1865. |
|---|---|---|---|
| Saltfiskur | + 28.0 | ÷ 60.5 | ÷ 50.1 |
| Harður fiskur | ÷ 4.7 | ÷ 98.7 | ÷ 98.8 |
| Söltuð hrogn | + 267.2 | ÷ 60.0 | + 46.8 |
| Saltaður lax | + 17.6 | ÷ 46.0 | ÷ 36.4 |
| Söltuð síld | ÷ 78.3 | » | » |
| Lýsi | + 111.4 | + 38.2 | + 192.1 |
| Saltað kjöt | + 172.2 | ÷ 78.7 | ÷ 42.0 |
| Tólg | + 44.2 | ÷ 55.1 | ÷ 35.2 |
| Ull | + 14.3 | ÷ 12.8 | ÷ 0.4 |
| Peisur | ÷ 69.9 | ÷ 94.3 | ÷ 98.3 |
| Sokkar | ÷ 22.9 | + 3.5 | ÷ 21.3 |
| Sjóvetlíngar | ÷ 65.7 | ÷ 45.6 | ÷ 81.3 |
| Vaðmál | ÷ 55.1 | ÷ 68.3 | ÷ 85.8 |
| Sauðskinn, söltuð | + 239.3 | ÷ 77.4 | ÷ 23.4 |
| Lambskinn | + 119.2 | + 7.7 | + 136.1 |
| Tóubelgir | ÷ 7.3 | ÷ 7.9 | ÷ 14.6 |
| Háfsroð | ÷ 40.9 | » | » |
| Hafurstökur | ÷ 52.1 | ÷ 79.2 | ÷ 90.0 |
| Álptarhamir | ÷ 7.4 | ÷ 49.4 | ÷ 53.2 |
| Álptarfjaðrir | ÷ 59.1 | + 195.5 | + 20.9 |
| Æðardún | + 3.1 | + 70.5 | + 75.8 |
| Fiður | + 27.9 | + 2.8 | + 31.7 |
| Hestar lifandi | » | + 49.6 | » |
| Rjúpur | » | ÷ 12.2 | » |

Sýnir þetta hið sama og að framan var sagt, að útflutníngur á innlendri vöru úr landinu hefir síðan árið 1849 farið mínkandi á flestum vörutegundum. Í samjöfnuði þessum eru á tímabilinu frá 1849 til 1855 taldar 22 vörutegundir, og hefir útflutníngurinn

aukizt á 11 þeirra, en mínkað á 11; aptur á tímabilinu frá 1855 til 1865, á hverju einnig eru taldar 22 vörutegundir, hefir útflutníngurinn einúngis aukizt á 7 þeirra, en þar á móti mínkað á 15 tegundum; og loks hefir útflutníngurinn á 16 ára tímabilinu frá 1849 til 1865, á hverju hèr eru taldar 20 vörutegundir, einúngis fjölgað á 6 vörutegundum, en þar á móti mínkað á 14 þeirra. Á þessu síðast nefnda tímabili hefir útflutníngurinn aukizt á þessum 6 vörutegundum: söltuðum hrognum, lýsi, lambskinnum, álptarfjöðrum, æðardún og fiðri; en mest hefir útflutníngur aukizt á lýsi, nefnilega að tiltölu um 192.1 af hundraði, eða með öðrum orðum, að árið 1865 hefir af þessari vöru verið flutt út nær því þrefalt við það, sem út var flutt árið 1849; þessu næst hefir útflutníngur á lambskinnum einnig aukizt mikið á þessu tímabili, nefnilega að tiltölu 136.1 af hundraði, eða af þeirri vöru hefir verið flutt út ríflega tvöfalt meira árið 1865 en árið 1849; æðardúns útflutníngur hefir einnig aukizt ekki svo lítið á þessu tímabili, nefnilega að tiltölu um 75.8 af hundraði, eða um þrjá fjórðu hluta. Aptur á hinn bóginn hefir útflutníngurinn á sama tímabili mínkað mest á peisum, nefnilega 98.3 af hundraði, eða með öðrum orðum, að árið 1865 hefir nær því ekkert verið flutt af þessari vöru í samanburði við það sem fluttist af henni árið 1849, og sama er að segja um harðan fisk; einnig hefir útflutníngur á saltfiski mínkað mjög, það er að skilja að tiltölu um 50.1 af hundraði, eða að hèrumbil helmíngi minna fluttist út af honum árið 1865 en árið 1849.

---

Verzlunarskýrslur þær, sem prentaðar eru hèr að framan, skýra að sönnu frá, hversu mikið hafi verið flutt til Íslands eða frá Íslandi af sèrhverri vörutegund á árunum 1864 og 1865, en þær bera þó ekki með sèr hvaðan aðflutníngurinn hafi verið, eða til hverra landa útflutníngurinn hafi átt sèr stað. Að vísu mun nú mega fullyrða, að þángað til fyrir skemmstu, það er að segja meðan verzlanin á Íslandi var bundin við Danmörku eina, hafi

lítið kveðið að því, eða það riðið á litlu, hvað til Íslands var flutt frá öðrum löndum en Danmörku eða frá Íslandi til annara landa en Danmerkur; en allt öðru máli er að gegna síðan verzlunaránauðinni lètti af og fleiri þjóðir en Danir einir geta tekið þátt í verzlun landsins, því nú er þetta atriði engan veginn ómerkilegt í verzlunarsögu landsins. Því var það og, að vèr í verzlunarskýrslunum fyrir árið 1855 (smbr. I., bls. 580—582) tókum þetta atriði upp, en í skýrslunum um verzlunina fyrir árin 1856—1863 varð það ekki tekið til greina af orsökum þeim, sem þá voru taldar (smb. III., bls. 600 og 601). Á þessu getum vèr samt nú ráðið bót, því eptir hinu nýja skýrsluformi um verzlunina á Íslandi, sem sýslumönnum er nú fengið í hendur, má skýra þetta atriði svo nægilega sem þörf er á. Það skal því hèr gjört á þann hátt, að skýra frá, hversu mikið af vörutegundum þeim, sem í skýrslunum að framan eru taldar að fluttar hafi verið til Íslands og frá Íslandi á þeim tveim árum 1864 og 1865, hafi verið flutt frá öðrum löndum en Danmörku eða til annara landa en Danmerkur, og þá frá hverjum löndum þetta hafi átt sèr stað.

Vèr tökum þá fyrst aðflutnínginn, og telst þá svo til, að af vörum þeim, sem fluttar hafa verið til Íslands, fluttist:

| árið 1864. | | frá Norvegi. | frá Englandi | frá Hamborg | frá Spáni. |
|---|---|---|---|---|---|
| Rúgur | tunnur | » | » | 100 | » |
| Baunir | — | 30 | » | » | » |
| Rúgmjöl | — | 28 | » | » | » |
| Hveitibrauð | pund | 717 | 13400 | 3800 | » |
| Jarðepli | tunnur | » | 684 | » | » |
| Romm | pottar | » | 2996 | 800 | » |
| Vín | — | » | » | 1200 | » |
| Kryddvín | — | » | » | 200 | » |
| Bjór | — | » | 980 | » | » |
| Edik | — | » | » | 500 | » |
| Kaffebaunir | pund | » | 15647 | 15000 | » |
| Kafferót | — | » | 10300 | 8000 | » |
| Sjokolade | — | » | » | 100 | » |
| Tegras | — | » | 167 | 100 | » |

| | | frá Norvegi. | frá Englandi. | frá Hamborg. | frá Spáni. |
|---|---|---|---|---|---|
| Kandís-sykur | pund | » | 19983 | 15000 | » |
| Hvítt-sykur | — | » | 6270 | 5000 | » |
| Púðursykur | — | » | 4350 | 400 | » |
| Sírop | — | » | » | 2000 | » |
| Gráfíkjur | — | » | 1773 | » | » |
| Steinfíkjur | — | » | 600 | » | » |
| Rúsínur | — | » | 2199 | 500 | » |
| Hrísgrjón | — | » | 20600 | 1500 | » |
| Kardústóbak | — | » | 200 | » | » |
| Salt | tunnur | 360 | 11294 | 2 | 1170 |
| Steinkol | — | 288 | 8684 | » | » |
| Járn | pund | » | 7903 | 3100 | » |
| Stál | — | » | 65 | » | » |
| Stórviður | tals | 5017 | » | » | » |
| Plánkar | — | 5175 | » | 6 | » |
| Borð | — | 68353 | » | » | » |
| Spírur | — | 1200 | » | » | » |
| Hampur | pund | » | 4085 | » | » |
| Færi | tals | » | 756 | 1000 | » |
| Seglgarn | pund | » | 175 | 100 | » |
| Kaðall | — | » | 579 | » | » |
| Skinn sútuð | — | » | 673 | » | » |
| Indigó | — | » | 100 | » | » |
| Litunartrè | — | » | 819 | 1000 | » |
| Sápa | — | » | 206 | 1400 | » |
| Pappír | bækur | » | 2003 | 200 | » |
| Púður | pund | » | 100 | » | » |
| Blý og Högl | — | » | 3505 | 600 | » |
| Pottar | tals | » | 72 | » | » |
| Naglar | hundruð | » | 6120 | 500 | » |
| Hnífar | tals | » | 2369 | » | » |
| Skæri | — | » | 204 | » | » |
| Þjalir | — | » | 312 | » | » |
| Leirker | — | » | 11179 | » | » |
| Klæði | álnir | » | 638 | 200 | » |
| Lèrept | — | » | 32073 | 2000 | » |

| | | frá Norvegi. | frá Englandi | frá Hamborg | frá Spáni. |
|---|---|---|---|---|---|
| Dúkur | álnir | » | 10573 | 1000 | » |
| Boldáng | — | » | 1645 | 500 | » |
| Léreptsklútar | tals | » | 3231 | 240 | » |
| Silkiklútar | — | » | 498 | » | » |
| Aunglar | — | » | 160000 | » | » |
| Silkitvinni | pund | » | 4 | 10 | » |
| Hattar | tals | » | 1069 | » | » |
| Húfur | — | » | 415 | » | » |
| Brenni | faðmar | 32 | » | » | » |
| Hellusteinar | tals | » | 40000 | » | » |
| **árið 1865.** | | | | | |
| Rúgur | tunnur | » | » | 680 | » |
| Bánkabygg | — | » | » | 205 | » |
| Baunir | — | » | » | 34 | » |
| Bygggrjón | — | » | » | 1 | » |
| Rúgmjöl | — | » | » | 92 | » |
| Hveitimjöl | pund | » | 2900 | 2250 | » |
| Hveitibrauð | — | » | 5766 | 5250 | » |
| Svartabrauð | — | » | » | 500 | » |
| Jarðepli | tunnur | » | 36 | 6 | » |
| Brennivín | pottar | » | » | 6600 | » |
| Romm | — | » | 5040 | 1510 | » |
| Punsextrakt | — | » | » | 170 | » |
| Vín | — | » | 2617 | 2760 | » |
| Kryddvín | — | » | 28 | 420 | » |
| Bjór | — | » | 1360 | 200 | » |
| Edik | — | » | 905 | 980 | » |
| Kaffebaunir | pund | » | 47010 | 32200 | » |
| Kafferót | — | » | 20108 | 26050 | » |
| Sjokolade | — | » | 100 | 625 | » |
| Tegras | — | » | 175 | 188 | » |
| Kandís-sykur | — | » | 33208 | 35736 | » |
| Hvítt-sykur | — | » | 11993 | 12161 | » |
| Púður-sykur | — | » | 10714 | 5780 | » |
| Sírop | — | » | » | 4350 | » |

| 1864—65. | | frá Norvegi. | frá Englandi. | frá Hamborg. | frá Spáni. |
|---|---|---|---|---|---|
| Gráfíkjur | pund | . | 480 | 980 | . |
| Steinfíkjur | — | . | 460 | 1680 | . |
| Rúsínur | — | . | 2576 | 2162 | . |
| Hrísgrjón | — | . | 16200 | 2446 | . |
| Blaðatóbak | — | . | . | 310 | . |
| Neftóbak | — | . | 300 | 1600 | . |
| Munntóbak | — | . | . | 110 | . |
| Kardustóbak | — | . | 145 | 631 | . |
| Vindlar | tals | . | . | 10800 | . |
| Salt | tunnur | . | 7441 | 70 | . |
| Tjara | — | . | 6 | 17 | . |
| Steinkol | — | 490 | 16277 | 55 | . |
| Járn | pund | . | 11912 | 2330 | . |
| Stál | — | . | 240 | 100 | . |
| Stórviður | tals | 6272 | . | . | . |
| Plánkar | — | 4661 | . | . | . |
| Borð | — | 56188 | . | . | . |
| Spírur | — | 140 | . | . | . |
| Hampur | pund | . | 15500 | 50 | . |
| Hör | — | . | . | 32 | . |
| Færi | tals | . | 2706 | 1366 | . |
| Seglgarn | pund | . | 890 | 1526 | . |
| Kaðall | — | . | 400 | 1046 | . |
| Korkur | — | . | 1300 | . | . |
| Skinn sútuð | — | . | 708 | 1038 | . |
| Skinn ósútuð | — | . | . | 647 | . |
| Indigó | — | . | 83 | 59 | . |
| Litunartrè | — | . | . | 270 | . |
| Álún | — | . | . | 240 | . |
| Sápa | — | . | 390 | 6780 | . |
| Pappír | bækur | . | 3460 | 1000 | . |
| Púður | pund | . | . | 241 | . |
| Blý og högl | — | . | 3250 | 425 | . |
| Hverfusteinar | tals | . | 12 | 4 | . |
| Brýni | — | . | . | 1460 | . |
| Pottar | — | . | 144 | 38 | . |

| | | frá Norvegi. | frá Englandi. | frá Hamborg. | frá Spáni. |
|---|---|---|---|---|---|
| Katlar . . . . . . . . . . . | tals | » | » | 14 | » |
| Naglar . . . . . . . . . . | hundruð | » | 4125 | 2540 | » |
| Hnífar . . . . . . . . . . . | tals | » | 16356 | 1012 | » |
| Skæri . . . . . . . . . . . | — | » | 948 | 744 | » |
| Þjalir . . . . . . . . . . . | — | » | 912 | 788 | » |
| Hestajárn . . . . . . . . . . | gángur | » | » | 2115 | » |
| Leirker . . . . . . . . . . . | tals | » | 20084 | 160 | » |
| Klæði . . . . . . . . . . . | álnir | » | 794 | 635 | » |
| Lérept . . . . . . . . . . . | — | » | 57392 | 9450 | » |
| Dúkur . . . . . . . . . . . | — | » | 17566 | 9200 | » |
| Boldáng . . . . . . . . . . | — | » | 1270 | 2020 | » |
| Léreptsklútar . . . . . . . . | tals | » | 3324 | 724 | » |
| Silkiklútar . . . . . . . . . | — | » | 432 | 100 | » |
| Ullarkambar . . . . . . . . . | pör | 144 | » | 300 | » |
| Aunglar . . . . . . . . . . | tals | » | 184952 | 17000 | » |
| Silkitvinni . . . . . . . . . | pund | » | 10 | 40 | » |
| Hattar . . . . . . . . . . . | tals | » | 1308 | 172 | » |
| Húfur . . . . . . . . . . . | — | » | 304 | 200 | » |
| Akkeri . . . . . . . . . . . | — | » | 25 | » | » |
| Gjarðajárn . . . . . . . . . . | pund | » | 1100 | 500 | » |
| Kalk . . . . . . . . . . . . | tunnur | » | 30 | » | » |
| Múrlím . . . . . . . . . . . | — | » | 6 | » | » |
| Byssur . . . . . . . . . . . | tals | » | » | 30 | » |
| Olía . . . . . . . . . . . . | pottar | » | » | 610 | » |
| Hellusteinar . . . . . . . . . | tals | » | 18500 | » | » |
| Brenni . . . . . . . . . . . | faðmar | 23 | » | » | » |

Eptir þessu eru það að vísu ekki svo fáar vörutegundir, sem á þessum árum, einkum árið 1865, er talið að fluttar hafi verið til Íslands beinlínis frá öðrum löndum, það er að skilja frá Norvegi, Englandi, Þýzkalandi[1] og Spáni, en upphæðin á þeim er varla teljandi í samanburði við allan aðflutnínginn, nema á einstökum þeirra. Þannig er það frá Norvegi helzt trjáviður, frá Englandi

[1]) Það er að skilja Hamborg og svo verzlunarstaðirnir í hertogadæmunum, t. a. m. Altona.

salt og steinkol, og frá Spáni einúngis dálítið af salti (ekkert þó árið 1865). Danmörk á því ennþá mestan beinlínis part í verzluninni á Íslandi, en til þess samt að skýra þetta betur, skulum vèr sýna hlutfall það, sem árið 1865 var milli vöruflutníngs til landsins frá Danmörku og öðrum löndum, og kemur það þá fram, að af sèrhverri þeirri vörutegund, sem hèr að framan er talin, fluttist að tiltölu af hundraði:

| | frá Danmörku. | frá öðrum löndum. |
|---|---|---|
| Rúgur | 98.1 | 1.9 |
| Bánkabygg | 98.9 | 1.1 |
| Baunir | 99.2 | 0.8 |
| Rúgmjöl | 98.6 | 1.4 |
| Hveitimjöl | 90.6 | 9.4 |
| Hveitibrauð | 96.4 | 3.6 |
| Svartabrauð | 98.0 | 2.0 |
| Jarðepli | 85.1 | 14.9 |
| Brennivín | 98.9 | 1.1 |
| Romm | 74.1 | 25.9 |
| Púnsextrakt | 99.0 | 1.0 |
| Vín | 80.2 | 19.8 |
| Kryddvín | 95.1 | 4.9 |
| Bjór | 96.5 | 3.5 |
| Edik | 81.9 | 18.1 |
| Kaffebaunir | 81.2 | 18.8 |
| Kafferót | 57.9 | 42.1 |
| Sjokólaðe | 91.9 | 8.1 |
| Tegras | 74.3 | 25.7 |
| Kandís-sykur | 82.3 | 17.7 |
| Hvítt sykur | 82.6 | 17.4 |
| Púður-sykur | 61.4 | 38.6 |
| Sírop | 75.2 | 24.8 |
| Gráfíkjur | 91.4 | 8.6 |
| Steinfíkjur | 69.6 | 30.4 |

| | frá Danmörku. | frá öðrum löndum. |
|---|---|---|
| Rúsínur | 78.9 | 21.1 |
| Hrísgrjón | 83.9 | 16.1 |
| Blaðatóbak | 97.1 | 2.9 |
| Neftóbak | 97.0 | 3.0 |
| Munntóbak | 99.7 | 0.3 |
| Kardústóbak | 94.1 | 5.9 |
| Vindlar | 95.4 | 4.6 |
| Salt | 27.0 | 73.0 |
| Tjara | 96.7 | 3.3 |
| Steinkol | 16.0 | 84.0 |
| Járn | 88.3 | 11.7 |
| Stál | 94.7 | 5.3 |
| Stórviður | 26.9 | 73.1 |
| Plánkar | 37.3 | 62.7 |
| Borð | 34.6 | 65.4 |
| Spírur | 96.4 | 3.6 |
| Hampur | 52.4 | 47.6 |
| Hör | 96.8 | 3.2 |
| Færi | 75.2 | 24.8 |
| Seglgarn | 60.5 | 39.5 |
| Kaðall | 96.0 | 4.0 |
| Skinn sútuð | 84.8 | 15.2 |
| Skinn ósútuð | 86.8 | 13.2 |
| Indigó | 73.8 | 26.2 |
| Litunartrè | 98.2 | 1.8 |
| Sápa | 77.2 | 22.8 |
| Pappír | 88.2 | 11.8 |
| Púður | 91.5 | 8.5 |
| Blý og Högl | 73.6 | 26.4 |
| Hverfusteinar | 96.4 | 3.6 |
| Brýni | 81.6 | 18.4 |
| Pottar | 86.1 | 13.9 |

| | frá Danmörku. | frá öðrum löndum. |
|---|---|---|
| Katlar . . . . . . . . . . . | 95.6 | 4.4 |
| Naglar . . . . , . . . . . . | 85.4 | 14.6 |
| Hnífar . . . . . . . . . . . | 6.7 | 93.3 |
| Skæri. . . . . . . . . . . . | 62.7 | 37.3 |
| Þjalir. . . . . . . . . . . . | 76.4 | 23.6 |
| Hestajárn . . . . . . . . . | 60.7 | 39.3 |
| Leirker . . . . . . . . . . . | 65.0 | 35.0 |
| Klæði . . . . . . . . . . . | 79.1 | 20.9 |
| Lèrept . . . . . . . . . . . | 71.6 | 28.4 |
| Dúkur . . . . . . . . . . . | 79.2 | 20.8 |
| Boldáng . . . . . . . . . . . | 81.6 | 18.4 |
| Lèreptsklútar . . . . . . . . . | 86.0 | 14.0 |
| Silkiklútar . . . . . . . . . . | 80.0 | 20.0 |
| Ullarkambar . . . . . . . . . | 88.9 | 11.1 |
| Aunglar. . . . . . . . . . . | 65.9 | 34.1 |
| Silkitvinni . . . . . . . . . . | 87.3 | 12.7 |
| Hattar . . . . . . . . . . . | 74.5 | 25.5 |
| Húfur. . . . . . . . . . . . | 91.4 | 8.6 |

Þetta sýnir hið sama og áður hefir verið sagt, nefnilega að vöruflutníngar til Íslands beinlínis frá öðrum löndum en Danmörku ennþá er lítill, því af þeim 75 vörutegundum, sem í þessum samjöfnuði eru taldar, eru það einar 6 tegundir, að meir hefir verið flutt af að tiltölu frá öðrum löndum en Danmörku.

Þá er að skoða, hversu mikið á þessum tveim árum hafi verið flutt frá Íslandi beinlínis til annara landa en Danmerkur, og telst þá svo til, að af vörum þeim, sem fluttar voru frá Íslandi, fluttist:

| árið 1864. | til Norvegs | til Englands | til Hamborgar. | til Spánar. |
|---|---|---|---|---|
| Saltfiskur. . . . . . . . skippund | » | 652 | » | 13959 |
| Harður fiskur . . . . . . — | » | 53 | » | 24 |
| Söltuð hrogn . . . . . . . tunnur | » | » | » | 2323 |
| Saltað kjöt . . . . . . . . — | » | 292 | » | » |

| | | til Norvegs. | til Englands. | til Hamborgar. | til Spánar. |
|---|---|---|---|---|---|
| Lýsi | tunnur | 1 | 514 | » | » |
| Tólg | pund | 240 | 30608 | » | » |
| Söltuð sauðskinn | tals | » | 1988 | » | » |
| Lambskinn | — | » | 1095 | » | » |
| Tóubelgir | — | » | 47 | » | » |
| Æðardún | pund | » | 854 | » | » |
| Fiður | — | » | 300 | » | » |
| Hvít ull | — | 257 | 627045 | » | » |
| Svört ull | — | » | 3550 | » | » |
| Mislit ull | — | » | 39768 | » | » |
| Háleistar | pör | » | 28 | » | » |
| Sokkar, tvíbands | — | » | 1385 | » | » |
| Sjóvetlingar | — | » | 80 | » | » |
| Hross lifandi | tals | » | 398 | » | » |
| Hrosshár | pund | » | 172 | » | » |
| Sundmagar | — | » | » | » | 14095 |

árið 1865.

| | | til Norvegs. | til Englands. | til Hamborgar. | til Spánar. |
|---|---|---|---|---|---|
| Saltfiskur | skippund | » | 561 | 30 | 4629 |
| Harður fiskur | — | » | 4 | 4 | » |
| Saltað hrogn | tunnur | » | 4 | » | 413 |
| Lýsi | — | 3 | 2007 | 22 | » |
| Saltað kjöt | — | » | 14 | » | » |
| Tólg | pund | 2400 | 50006 | 1600 | » |
| Söltuð sauðskinn | tals | » | 132 | » | » |
| Lambskinn | — | » | 3855 | 900 | » |
| Tóubelgir | — | » | 28 | 1 | » |
| Álptarfjaðrir | — | » | 15000 | » | » |
| Æðardún | pund | » | 1937 | 70 | » |
| Fiður | — | » | 1800 | 120 | » |
| Hvít ull | — | 80 | 625861 | 3000 | » |
| Svört ull | — | » | 14067 | 100 | » |
| Mislit ull | — | » | 41849 | 300 | » |
| Sokkar tvíbands | pör | » | 9850 | » | » |
| Sjóvetlingar | — | » | 173 | 100 | » |
| Bein | lísipund | » | » | 20 | » |

| | til Norvegs. | til Englands. | til Hamborgar. | til Spánar. |
|---|---|---|---|---|
| Hross lifandi . . . . . . . . tals | » | 222 | » | 3 |
| Sauðfè lifandi . . . . . . . — | » | 25 | » | » |
| Sundmagar . . . . . . . . . pund | » | » | » | 9360 |
| Hrosshár . . . . . . . . . . — | » | 357 | » | » |

það sýnir sig hèr að kalla má hið sama og áður var sagt um aðflutníng til Íslands, nefnilega að Danmörk enn sem stendur á mestan þátt í hinni íslenzku verzlan, því þó það komi fram, að ekki svo fáar vörutegundir hafi á þessum tveim árum, einkum árið 1865, verið fluttar út frá Íslandi beinlínis til annara landa en Danmerkur, þá lætur það sig þó í ljósi, að svo lítið sem ekkert kveður að þessu nema á einstöku vörutegundum, og má þá helzt tilfæra útflutníng á söltuðum fiski og söltuðum hrognum til Spánar, og á ullu og lifandi hrossum og sauðfènaði til Englands, en þarámóti er útflutníngur til Norvegs ekki teljandi, nema lítið eitt af tólg. Til þess samt að skýra þetta betur, skal einnig hèr, eins og áður var gjört um aðfluttar vörur, sýna hlutfall það, sem árið 1865 var milli útflutníngs á innlendum vörum frá Íslandi til Danmerkur og til annara landa, og kemur það þá fram, að af sèrhverri þeirri vörutegund, sem að framan er talin, fluttist að tiltölu af hundraði:

| | til Danmerkur. | til annara landa. |
|---|---|---|
| Saltfiskur . . . . . . . . . | 37.0 | 63.0 |
| Harður fiskur . . . . . . . . | 79.5 | 20.5 |
| Söltuð hrogn . . . . . . . . | 7.7 | 92.3 |
| Lýsi . . . . . . . . . . . | 78.7 | 21.3 |
| Saltað kjöt . . . . . . . . | 98.0 | 2.0 |
| Tólg . . . . . . . . . . . | 87.1 | 12.9 |
| Söltuð sauðskinn . . . . . | 95.4 | 4.6 |
| Lambskinn . . . . . . . . | 85.0 | 15.0 |
| Tóubelgir . . . . . . . . . | 91.4 | 8.6 |
| Álptarfjaðrir . . . . . . . . | 43.3 | 56.7 |
| Æðardún . . . . . . . . . | 71.4 | 28.6 |

| | til Danmerkur. | til annara landa. |
|---|---|---|
| Fiður . . . . . . . . . . | 92.6 | 7.4 |
| Hvít ull . . . . . . . . . | 50.3 | 49.7 |
| Svört ull . . . . . . . . . | 28.7 | 71.3 |
| Mislit ull . . . . . . . . . | 60.1 | 39.9 |
| Sokkar, tvíbands . . . . . | 71.3 | 28.7 |
| Sjóvetlíngar . . . . . . . . | 98.1 | 1.9 |
| Bein . . . . . . . . . . . . | 92.0 | 8.0 |
| Hross lifandi . . . . . . . . | 38.4 | 61.6 |
| Sauðfè lifandi . . . . . . . | 13.8 | 86.2 |

Af þeim 20 vörutegundum, sem taldar eru í þessum samjöfnuði, eru þannig einúngis 6 tegundir, að meir hefir verið flutt af á þessu ári til annara landa en Danmerkur, en af öllum hinum minna, og það af flestum þeirra töluvert.

Áður en vèr sleppum þessu atriði, verðum vèr þó að leiða athygli manna að því, að það er varlega gjörandi að draga nokkrar ályktanir af þessu, sem hèr hefir verið sagt um vöruflutnínga, því það er alkunnugt, að íslenzkir kaupmenn, sem þó flestir eru Danir eða þá að minnsta kosti verja ágóða þeim, er þeir hafa af hinni íslenzku verzlan, í Danmörku, á seinni árum miklu meir en áður eru farnir bæði að sækja vöru þá, sem þeir flytja til Íslands, beinlínis frá öðrum löndum en Danmörku, og svo að flytja íslenzkan varníng til þeirra markaða, þar sem hann gengur bezt, þó hvorttveggja þetta sè hvergi nærri ennþá komið í það horf, sem vera bæri og sem það gæti komizt í.

---

Þá er ennþá eitt merkilegt atriði, þegar skýra skal verzlunarsögu einhvers lands, en það er um verðlag í kaupstað bæði á innfluttum og útfluttum vörum, því af þessu geta menn fyrst gjört sèr nokkra greinilega hugmynd um, hvort verzlunin sè landsmönnum í hag eður ekki. Það vill nú reyndar ekki svo vel til, að vèr

um þessi tvö ár, sem hèr ræðir um, getum skýrt þetta atriði eins og vèr vildum, því sýslumenn á Íslandi hafa að kalla má allir lagzt undir höfuð þessi árin að senda verðlagsskýrslur þær, bæði á innfluttum og útfluttum vörum, sem þeim annars er skipað á hverju ári að senda stjórninni, þar sem þvílíkar skýrslur einúngis hafa komið frá Snæfellsness sýslu einni fyrir árið 1864, og frá Ísafjarðar sýslu einni fyrir árið 1865, og vèr höfum þessvegna hèr orðið að sleppa því, að taka upp svo ítarlegar og fullkomnar skýrslur um þetta efni, eins og áður hefir verið gjört. En til þess þó ekki með öllu að gánga framhjá þessu mikilvæga atriði, og þar sem þó mun mega álíta það sem óyggjandi, að verðlagið hafi ekki verið svo fjarska ólíkt í hinum öðrum hèruðum landsins, sem vèr ekki höfum fengið skýrslur frá, þá skal þó nú tjalda því sem til er, og vèr verðum því að láta oss hèr nægja með að skýra frá, hvernig verðlagið hafi verið í þeim tveim áður umgetnu sýslum á þessum árum; og setjum vèr þarhjá til samanburðar meðalverðið um allt land á sömu vörutegundum árið 1849.

Á útlendum vörum þeim hinum helztu, sem fluttust til Íslands, var verðlagið þannig:

| | | árið 1849. | | árið 1864. | | árið 1865. | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | | rd. | sk. | rd. | sk. | rd. | sk. |
| Rúgur | tunnan á | 7. | » | 8. | » | 7. | 48 |
| Rúgmjöl | — - | 7. | » | 8. | » | 7. | 48 |
| Bánkabygg | — - | 9. | 48 | 10. | » | 9. | 48 |
| Baunir | — - | 7. | 10 | 8. | 84 | 9. | » |
| Salt | — - | 3. | 80 | 2. | 48 | 2. | » |
| Steinkol | — - | 2. | 64 | 2. | 36 | 2. | 48 |
| Tjara | — - | 11. | 16 | 14. | » | 13. | » |
| Hveitibrauð | pundið á | » | 10 | » | 11 | » | 10 |
| Svartabrauð | — - | » | 7 | » | 8 | » | » |
| Járn | — - | » | 9 | » | 10 | » | 10 |
| Hampur | — - | » | 24 | » | » | » | 36 |
| Munntóbak | — - | » | 48 | » | 80 | » | 80 |
| Kaffebaunir | — - | » | 23 | » | 36 | » | 36 |
| Kandissykur | — - | » | 23 | » | 25 | » | 24 |
| Púðursykur | — - | » | 19 | » | 22 | » | 20 |
| Brennivín | potturinn á | » | 18 | » | 17 | » | 16 |

En á innlendum vörum, þeim sem fluttar voru frá Íslandi, var verðlagið á þessa leið:

| | | árið 1849. | | árið 1864. | | árið 1865. | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | | rd. | sk. | rd. | sk. | rd. | sk. |
| Saltfiskur | skippundið á | 14. | 42 | 21. | » | 30. | » |
| Harður fiskur | — - | 12. | 48 | 22. | » | » | » |
| Lýsi | tunnan á | 17. | 48 | 29. | » | 27. | » |
| Saltað kjöt | lísipundið á | » | 70 | 1. | » | » | » |
| Tólg | pundið á | » | 16 | » | 18 | » | » |
| Söltuð sauðskinn | hvert á | » | 52 | » | 32 | » | » |
| Lambskinn | — - | » | 7 | » | 8 | » | 7 |
| Tóubelgir | hver á | 1. | 68 | 2. | 90 | » | » |
| Álptarhamir | — - | » | 36 | » | 56 | » | » |
| Æðardún | pundið á | 2. | 86 | 7. | » | 7. | » |
| Fiður | — - | » | 24 | » | 23 | » | 32 |
| Hvít ull | — - | » | 17 | » | 52 | » | 54 |
| Mislit ull | — - | » | 14 | » | 39 | » | 40 |
| Peisur eingirnis | hver á | » | 60 | » | 80 | » | » |
| — tvíbands | — - | » | 80 | 2. | » | » | » |
| Sokkar eingirnis | parrið á | » | 18 | » | 20 | » | 28 |
| — tvíbands | — - | » | 23 | » | 56 | » | » |
| Sjóvetlingar | — - | » | 7 | » | 6 | » | 10 |
| Vaðmál | alinin á | » | 31 | » | 56 | » | » |
| Söltuð hrogn | tunnan á | 5. | » | » | » | 9. | » |

Yfirlit þessi sýna nú að vísu, að þó verðlagið á tveim hinum síðustu árunum hafi verið nokkuð hærra en árið 1849 á velflestum útlenzkum varníngi, þeim sem hèr er talinn (hið gagnstæða á sèr einúngis stað um salt og steinkol), þá hefir samt aptur á hinn bóginn verðlagið á innlendri vöru hækkað miklu meir að tiltölu á þeim hinum sömu árum. En með því að verðlagið á árunum 1864 og 1865, eptir því sem áður er frá skýrt, ekki er með öllu óyggjandi, það er að skilja, að ekki er víst að verðlagið hafi verið hið sama að meðaltali um allt landið, þá verða menn að fara hægt í að draga nokkrar ályktanir af þessu, og vèr sleppum því hèr að gjöra nokkurn samanburð í þessu efni. Til þess samt að skýra þetta nokkuð betur, og einkum til þess að sýna að svo lítur út,

sem verzlanin á Íslandi verði með hverju ári heldur ábatameiri fyrir landsmenn, einkum þegar menn bera þessa tíma saman við fyrri tíma, og þó ekki sè farið lengra en til ársins 1849, þá skal hèr skýrt frá, hve mikið af hinum helztu útlendu vörutegundum hafi fengizt fyrir hinar helztu innlendu vörur, nefnilega saltfisk, lýsi, tólg og hvíta ull, á árunum 1849, 1864 og 1865; og telst þá svo til, að fengizt hafi móti:

| | | Saltfiski, lísipundum. | | | Lýsi, kútum. | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | | 1849 | 1864 | 1865 | 1849 | 1864 | 1865 |
| Rúgur | 1 tunna | 9.7 | 7.0 | 5.0 | 6.0 | 4.1 | 4.2 |
| Rúgmjöl | 1 — | 9.7 | 7.0 | 5.0 | 6.0 | 4.1 | 4.2 |
| Bánkabygg | 1 — | 13.2 | 9.5 | 6.8 | 8.1 | 5.2 | 5.8 |
| Baunir | 1 — | 9.9 | 8.4 | 6.0 | 6.0 | 4.6 | 5.0 |
| Salt | 1 — | 5.8 | 2.4 | 1.3 | 3.8 | 1.8 | 1.1 |
| Steinkol | 1 — | 3.7 | 2.8 | 1.7 | 2.3 | 1.2 | 1.4 |
| Tjara | 1 — | 15.5 | 13.3 | 8.7 | 9.6 | 7.2 | 7.2 |
| Hveitibrauð | 10 pund | 1.5 | 1.1 | 0.7 | 0.9 | 0.6 | 0.6 |
| Svartabrauð | 10 — | 1.0 | 0.8 | » | 0.6 | 0.4 | » |
| Járn | 10 — | 1.3 | 1.0 | 0.7 | 0.8 | 0.5 | 0.6 |
| Hampur | 10 — | 3.6 | » | 2.5 | 2.1 | » | 2.1 |
| Munntóbak | 10 — | 7.0 | 7.9 | 5.6 | 4.3 | 4.3 | 4.6 |
| Kaffebaunir | 10 — | 3.8 | 3.6 | 2.5 | 2.1 | 1.9 | 2.1 |
| Kandissykur | 10 — | 3.3 | 2.5 | 1.7 | 2.1 | 1.4 | 1.4 |
| Brennivín | 10 pottar | 2.6 | 1.7 | 1.1 | 1.6 | 0.9 | 0.9 |

| | | Tólg, pundum. | | | Hvítri ull, pundum. | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | | 1849 | 1864 | 1865 | 1849 | 1864 | 1865 |
| Rúgur | 1 tunna | 42.0 | 42.7 | » | 39.5 | 14.8 | 13.3 |
| Rúgmjöl | 1 — | 42.0 | 42.7 | » | 39.5 | 14.8 | 13.3 |
| Bánkabygg | 1 — | 57.0 | 53.3 | » | 53.6 | 18.5 | 16.9 |
| Baunir | 1 — | 42.6 | 47.3 | » | 40.1 | 16.4 | 16.0 |
| Salt | 1 — | 23.0 | 13.3 | » | 21.6 | 4.6 | 3.6 |
| Steinkol | 1 — | 16.0 | 12.7 | » | 15.1 | 4.4 | 4.4 |
| Tjara | 1 — | 67.0 | 74.7 | » | 63.1 | 25.8 | 23.1 |
| Hveitibrauð | 10 pund | 6.2 | 6.1 | » | 5.0 | 2.1 | 1.9 |
| Svartabrauð | 10 — | 4.4 | 4.4 | » | 4.1 | 1.5 | » |
| Járn | 10 — | 5.6 | 5.6 | » | 5.3 | 1.0 | 1.9 |
| Hampur | 10 — | 15.0 | » | » | 14.1 | » | 6.7 |
| Munntóbak | 10 — | 30.0 | 44.4 | » | 28.2 | 15.4 | 15.8 |
| Kaffebaunir | 10 — | 14.4 | 20.0 | » | 13.5 | 6.9 | 6.7 |
| Kandissykur | 10 — | 14.4 | 13.0 | » | 13.5 | 4.8 | 4.4 |
| Brennivín | 10 pottar | 11.2 | 9.4 | » | 11.2 | 3.3 | 3.0 |

Sýnir þetta hið sama og áður hefir verið sagt, nefnilega að þó verðið á útlendum vörum hafi nokkuð hækkað á hinum síðustu árum, þá hefir þó undireins verðlagið á innlendri vöru hækkað meir að tiltölu á sama tímabili, og er með því móti verzlanin ábatameiri á seinni árum fyrir landsmenn en hún var t. a. m. árið 1849. Að öðru leyti höldum vèr skýrslu þá, sem hèr ræðir um, svo skiljanlega og greinilega, að hún ekki þurfi frekari útskýríngar við.

---

þá er eptir að fara nokkrum orðum um siglíngar til landsins á árunum 1864 og 1865, og svo að skýra nokkur atriði, sem standa í nánu sambandi við þetta; en frá þessu er skýrt í skýrslunum E. og F. hèr að framan.

Fyrst skulum vèr þá skoða bæði tölu og svo lestarúm skipa þeirra, sem á þessum tveim umgetnu árum hafa farið til Íslands til verzlunar, og má þá fyrirfram geta þess, að tala skipanna í raun og veru ekki er eins mikil og í skýrslunum er sagt; en þar sum þeirra hafa farið tvær og jafnvel fleiri ferðir, þá er hver ferð talin eins og skip sèr, hvað einnig má til sanns færa, og því verður aðaltalan sú sem þar er tilgreind. Taki maður þá árin sem liðin eru síðan 1855, þá hefir á þeim árum farið til Íslands:

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| árið | 1856 . . . . | 134 | skip, | 5791½ | lestarúm | |
| — | 1857 . . . . | 143 | — | 6180½ | — | |
| — | 1858 . . . . | 132 | — | 6226½ | — | |
| — | 1859 . . . . | 145 | — | 6927½ | — | |
| — | 1860 . . . . | 122 | — | 5693 | — | |
| — | 1861 . . . . | 115 | — | 5615 | — | |
| — | 1862 . . . . | 129 | — | 6031 | — | |
| — | 1863 . . . . | 148 | — | 6849 | — | |
| — | 1864 . . . . | 152 | — | 7021 | — | |
| — | 1865 . . . . | 162 | — | 7926½ | —. | |

Á þessum 10 árum hafa því eptir þessu siglíngar til landsins bæði að skipatölunni og lestarúminu til verið mestar árið 1865, en minnstar árið 1861, og er mismunurinn á þessum tveim árum 2311½ lestarúm, eða með öðrum orðum, að þetta hefir aukizt

um 41.2 af hundraði. En að meðaltölu hafa á ári hverju af þessum 10 árum farið til Íslands til verzlunar 138 skip með 6426 lestarúm, og er það tölavert meira en það hefir verið að undanförnu á ymsum tímabilum (smbr. I. bls. 84 og 587, og III. bls. 608). þetta skal nú sýna nokkuð betur, og viljum vèr í því skyni setja meðaltölu á ári af skipum þeim sem siglt hafa til landsins og lestarúmi þeirra á hverju 5 ára tímabili, sem liðið er af þessari öld, og verður þá meðaltalan á ári þessi:

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| árin | 1801—1805 . . . | 59 | skip, | 2484 | lestarúm | |
| — | 1806—1810 . . . | 24 | — | 1047 | — | |
| — | 1811—1815 . . . | 23 | — | 1019 | — | |
| — | 1816—1820 . . . | 43 | — | 1646 | — | |
| — | 1821—1825 . . . | 54 | — | 2072 | — | |
| — | 1826—1830 . . . | 53 | — | 2417 | — | |
| — | 1831—1835 . . . | 81 | — | 3497 | — | |
| — | 1836—1840 . . . | 82 | — | 3032 | — | |
| — | 1841—1845 . . . | 103 | — | 3675 | — | |
| — | 1846—1850 . . . | 104 | — | 3989 | — | |
| — | 1851—1855 . . . | 130 | — | 5224 | — | |
| — | 1856—1860 . . . | 135 | — | 6164 | — | |
| — | 1861—1865 . . . | 141 | — | 6688 | —. | |

Aðalatriðið í þessum samanburði er lestarúmið, en skoði maður það hèr, þá sýnir það sig, að siglíngar til landsins síðan byrjun þessarar aldar hafa aukizt ekki alllítið á sèrhverju af þessum 5 ára tímabilum, sem hèr eru talin, og þó einkum síðan árið 1840; þó má frá þessu undanskilja einkum tímabilin 1806—1810 og 1811—1815, því þá hefir mínkað geysi mikið, eða um 1465 lestarúm eða 59.0 af hundraði að meðaltali um árið, og er orsökin til þessa mismunar einkum fólgin í því, að á árunum 1807—1814 (þegar Danir áttu í stríði við Enska), voru siglíngar til landsins eins og kunnugt er harla litlar og að kalla má engar, því árið 1809 t. a. m. komu ekki nema ein 10 skip til alls landsins, en lestarúm þeirra var ekki nema 429 lestir. Svo það, sem nú hefir verið sagt, sjáist betur, þá skal hèr sýna hversu mikill viðaukinn hafi verið að meðaltali á

sèrhverju þessara 5 ára tímabili síðan 1815, og hefir þá lestarúm kaupfara til Íslands aukizt á þessa leið:

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| frá | 1816—1820 um . . | 627 | tals, | 61.5 | af hundraði | |
| — | 1821—1825 - . . | 426 | — | 25.9 | — | |
| — | 1826—1830 - . . | 345 | — | 16.6 | — | |
| — | 1831—1835 - . . | 1080 | — | 44.7 | — | |
| — | 1841—1845 - . . | 643 | — | 21.2 | — | |
| — | 1846—1850 - . . | 314 | — | 8.5 | — | |
| — | 1851—1855 - . . | 1235 | — | 31.0 | — | |
| — | 1856—1860 - . . | 940 | — | 18.0 | — | |
| — | 1861—1865 - . . | 524 | — | 8.5 | —; | |

en þar á móti hefir lestarúm kaupfara á tímabilinu 1836—1840 mínkað að meðaltölu um 465 tals eða 13.3 af hundraði.

Hvað þessu næst snertir stærð sèrhvers kaupfars, þá gefur það að skilja, að hún muni vera mjög svo misjöfn; en beri maður tölu skipanna saman við allt lestarúm þeirra, þá kemur það fram, að hvert skip að meðaltali hefir árið 1861 verið 49 lestarúm, 1862: 46, 1863: 46, 1864: 46 og árið 1865: 49 lestarúm. Til þess samt að fá hægra yfirlit yfir stærð þeirra, skulum vèr skipta skipum þeim, sem á þessum sömu 5 árum hafa farið til Íslands, niður í flokka, og kemur það þá fram, að tala skipa var:

| | 1861 | 1862 | 1863 | 1864 | 1865 |
|---|---|---|---|---|---|
| minni en 10 lestarúm . . . | » | » | 2 | » | » |
| milli 10 og 20 — . . . | 6 | 5 | 6 | 8 | 9 |
| — 20 - 30 — . . . | 19 | 21 | 34 | 26 | 30 |
| — 30 - 40 — . . . | 29 | 39 | 35 | 34 | 39 |
| — 40 - 50 — . . . | 20 | 20 | 23 | 28 | 23 |
| — 50 - 60 — . . . | 12 | 19 | 18 | 18 | 32 |
| — 60 - 70 — . . . | 12 | 10 | 13 | 16 | 11 |
| — 70 - 80 — . . . | 6 | 3 | 5 | 5 | 6 |
| — 80 - 90 — . . . | 5 | 6 | 5 | 4 | 5 |
| — 90 - 100 — . . . | » | » | » | 3 | 1 |
| yfir 100 lestarúm . . . | 6 | 6 | 7 | 10 | 6 |
| samtals . . . | 115 | 129 | 148 | 152 | 162. |

| | | |
|---|---|---|
| Dala s. . . . . . . . . | 1070 | sveinar |
| Barðastrandar s. . . . . . | 1140 | — |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 1120 | — |
| Stranda s. . . . . . . . | 1516 | — |
| Húnavatns s. . . . . . . | 1135 | — |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 1143 | — |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . | 1105 | — |
| þíngeyjar s. . . . . . . | 1055 | — |
| Norður-Múla s. . . . . . | 1293 | — |
| Suður-Múla s. . . . . . | 1050 | — |
| Suður-umdæminu . . . . | 1157 | — |
| Vestur-umdæminu . . . . | 1186 | — |
| Norður- og Austur-umd. . . | 1125 | — . |

Eptir þessu hefir munurinn á þessu hlutfalli verið mestur í Borgarfjarðar sýslu og þá í Stranda sýslu, en minnstur hefir hann verið í þíngeyjar sýslu og þá í Suður-Múla sýslu. Yfirlit þetta sýnir einnig, að á þessu ári hafa fæðzt fleiri sveinbörn en meybörn í Skaptafells sýslu og svo í Gullbríngu- og Kjósar sýslu.

Aptur á hinn bóginn er kynferði barna eptir getnaðarhætti nokkuð á annan veg, því árið 1865 fæddust börn:

| | skilgetin | | óskilgetin | |
|---|---|---|---|---|
| | sveinar | meyjar | sveinar | meyjar |
| samtals . . . | 1273 | 1067 | 202 | 215 |
| tiltals . . . . | 1193 | 1000 | 940 | 1000. |

Hèr lýsir það sèr, að á þessu ári eru að sönnu af skilgetnum börnum fædd töluvert fleiri sveinbörn að tiltölu en meybörn, en á hinn bóginn eru af óskilgetnum börnum nokkuð fleiri meybörn fædd að tiltölu en sveinbörn. þetta er því nokkuð líkt og það hefir verið árin 1859 og 1862, en ólíkt því, sem það var hin önnur undanfarin ár (smbr. I., bls. 375, II., bls. 13, 222, 346 og 584, og III., bls. 211, 381, 630 og 740).

4. Líf barna. Árið 1865 fæddust á Íslandi 2659 börn með lifi, en 98 andvana, og eru þá 3.55 andvana borin af hverju 100

nýfæddra barna. Sýnir hlutfall þetta, að fleiri börn hafa andvana fæðzt að tiltölu á þessu ári en næst undanfarin ár 1860, 1861, 1862 og 1864 (smbr. III., bls. 211, 381 og 740), en þar á móti er það nokkuð líkt og það var árið 1863 (smbr. III., bls. 631).

Hlutfall þetta er samt, eins og gefur að skilja, býsna ólíkt í hèruðum landsins, því á þessu ári, sem hèr ræðir um, voru af hverju 100 nýfæddra barna andvana fædd í:

| | |
|---|---|
| Skaptafells sýslu | 4.1 |
| Vestmannaeyja s. | 10.5 |
| Rángárvalla s. | 3.6 |
| Árness s. | 3.1 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. | 4.5 |
| Reykjavíkur bæ | 3.0 |
| Borgarfjarðar s. | 4.2 |
| Mýra- og Hnappadals s. | 6.4 |
| Snæfellsness s. | 1.8 |
| Dala s. | 1.1 |
| Barðastrandar s. | 6.5 |
| Ísafjarðar s. | 3.4 |
| Stranda s. | 5.1 |
| Húnavatns s. | 3.4 |
| Skagafjarðar s. | 1.8 |
| Eyjafjarðar s. | 4.4 |
| Þíngeyjar s. | 3.2 |
| Norður-Múla s. | 2.3 |
| Suður-Múla | 2.4 |
| Suður-umdæminu | 3.9 |
| Vestur-umdæminu | 4.0 |
| Norður- og Austur-umd. | 3.0. |

Að tiltölu eru þá eptir þessu árið 1865 flest andvana börn fædd í Vestmannaeyja sýslu og þá í Barðastrandar sýslu, en fæst eru þau í Dala sýslu, og þá í Snæfellsness og Skagafjarðar sýslum.

Aptur á hinn bóginn eru af hverju 1000 nýfæddra skilgetinna barna árið 1865 borin 33.8 andvana, og af hverju 1000 nýfæddra

barna óskilgetinna eru á sama ári borin 45.6 andvana, og sýnir þetta meðal annars hið sama, sem optar hefir verið sagt, að töluvert fleiri óskilgetin börn að tiltölu fæðast andvana hèr í landi en skilgetin, og er munurinn á þessu nokkru meiri en hann var næst undanfarið ár 1864 (smbr. III., bls. 740). Þetta lætur sig einnig í ljósi skoði maður lifandi og andvana fædd börn á þessu ári eptir getnaðarhætti þeirra. Árið 1865 eru nefnilega fædd börn:

| | skilgetin | | óskilgetin | |
|---|---|---|---|---|
| | með lífi | andvana | með lífi | andvana |
| samtals . . . . | 2261 | 79 | 398 | 19 |
| tiltals . . . . | 1000 | 34.9 | 1000 | 47.7; |

eptir getnaðarhætti og kyni eru á sama ári fædd börn:

| | skilgetin | | | | óskilgetin | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | sveinar | | meyjar | | sveinar | | meyjar | |
| | með lífi | andv. | með lífi | andv. | með lífi | and. | með lífi | andv. |
| samtals . | 1234 | 39 | 1027 | 40 | 194 | 8 | 204 | 11 |
| tiltals . | 1000 | 31.6 | 1000 | 38.9 | 1000 | 41.2 | 1000 | 53.9. |

Hèr lýsir það sèr þá, að hlutföll þau, sem hèr ræðir um, eru nokkuð ólík því, sem var næst undanfarið ár (smbr. III., bls. 740), en þar á móti lík því, sem var árið 1863 (smbr. III., bls. 631). Mestur munurinn, hvað þetta snertir, er í því fólginn, að á þessu ári, sem hèr ræðir um, eru fleiri meybörn en sveinbörn að tiltölu fædd andvana.

5. Fæðíngartíð barna. Um þetta atriði kemur hið sama heim á þessu ári, með fáeinum undantekníngum, sem sagt hefir verið um þetta atriði að undanförnu (smbr. II., bls. 14—16, III., bls. 212—13, 282—83, 741—42), og látum vèr þessu til sönnunar hèr fylgja fæðíngartíðaskrá skilgetinna barna og brullaupstíðaskrá hjóna árið 1865, og er því að öllu leyti hagað á sama hátt og að undanförnu; en skýrslurnar eru þessar:

## Fæðíngartíðaskrá skilgetinna barna árið 1865.

| mánuðir. | samtals | leiðrètt samtala | af 1000 skilgetinna barna. |
|---|---|---|---|
| janúar | 162 | 162 | 58 |
| febrúar | 172 | 190 | 68 |
| marz | 190 | 190 | 68 |
| apríl | 175 | 181 | 64 |
| maí | 165 | 165 | 59 |
| júní | 260 | 269 | 96 |
| júlí | 283 | 283 | 101 |
| ágúst | 318 | 318 | 113 |
| september | 314 | 324 | 115 |
| október | 318 | 318 | 113 |
| nóvember | 219 | 226 | 81 |
| desember | 181 | 181 | 64 |
| samtals | 2757 | 2807 | 1000 |

## Brullaupstíðaskrá hjóna árið 1865.

| mánuðir. | samtals | leiðrètt samtala | getnaðartíð skilgetinna barna. |
|---|---|---|---|
| janúar | 1 | 1 | 113 |
| febrúar | 3 | 3 | 81 |
| marz | • | • | 64 |
| apríl | 1 | 1 | 58 |
| maí | 12 | 12 | 68 |
| júní | 55 | 57 | 68 |
| júlí | 46 | 46 | 64 |
| ágúst | 17 | 17 | 59 |
| september | 42 | 43 | 96 |
| október | 166 | 166 | 101 |
| nóvember | 54 | 56 | 113 |
| desember | 24 | 24 | 115 |
| samtals | 421 | 426 | 1000 |

6. Fæðíngarstaður barna. Í skýrslunni B. 3 er skýrt frá, hversu mörg börn skilgetin og óskilgetin sè fædd á hverjum mánuði og í hverju prófastsdæmi og umdæmi í landinu árið 1865. Þrátt fyrir þetta vita menn þó eigi, hvort í einu hèraði sè í raun

rèttri fædd fleiri börn að tiltölu heldur en í öðru, og það eina ráðið, til þess að finna frjófsemi giptra kvenna, er því, eins og optar hefir verið sagt, að bera saman giptar konur á frjófum aldri við skilgetin börn, en til þess að finna lausaleik kvenna, verður maður þar á móti að bera saman stúlkur ógefnar og ekkjur á frjófum aldri við óskilgetin börn. En hvorttveggja þetta verður samt ekki með nokkrum áreiðanlegleika gjört nema á þeim árum, þá almenn fólkstala er tekin, og því er þessu atriði hèr sleppt. þess má þó hèr geta, að þar sem hèr að framan hefir verið talað um fjölda og getnaðarhátt barna, hefir þetta atriði verið skýrt nokkuð, en þó hvergi nærri nægilega, eða á þann hátt, sem hèr segir.

7. Burður barna. Árið 1865 eru fæddir 37 tvíburar og 2 þríburar á Íslandi, og eru það alls 39 fleirburar. Á þessu sama ári fæddust þar alls 2757 börn, og er því 71. hver barnsburður fleirburi, eða 14 fleirburar koma á 1000 fæðínga. Á þessu ári hafa því að tiltölu töluvert færri fleirburar fæðzt en næst undanfarið ár, en jafnmargir og þeir hafa verið árið 1863 og að meðaltali um 6 ára bilið 1850—1855 (smbr. I., bls. 376, og III., bls. 633 og 743).

8. Aldur mæðranna. þetta er eitt atriði, sem snertir fæðíngar, og er skýrt frá því í skýrslunni A. 2, og sagt frá aldri mæðra þeirra, sem börn hafa alið árið 1865, og er þar tekin hver aldursfimt, en til þess að skýra þetta nokkuð betur, viljum vèr hèr sýna hlutfall það, sem í þessu tilliti er milli aldursflokkanna, og sýnir það sig þá, að af hverju 100 mæðra voru árið 1865 á aldrinum:

| | |
|---|---|
| milli 15 og 20 ára ..... | 0.7 |
| — 20 - 25 — ..... | 11.5 |
| — 25 - 30 — ..... | 23.9 |
| — 30 - 35 — ..... | 32.4 |
| — 35 - 40 — ..... | 21.3 |
| — 40 - 45 — ..... | 9.2 |
| — 45 - 50 — ..... | 1.0 |
| yfir 50 ára .......... | » |

Hlutföll þessi eru mjög lík því, sem þau voru árið 1864 (smbr. III., bls. 743), og lætur það sig í ljósi, að flestar hafa mæður barna á þessu ári verið á aldursfimtinni milli 30 og 35 ára, nefnilega nær því þriðjúngur þeirra, og svo þar næst á aldursfimtunum milli 25 og 30 og milli 35 og 40 ára. Eptir hlutarins eðli hlýtur hlutfall þetta samt að verða nokkuð á annan veg eptir getnaðarhætti barna, því á þessu sama ári voru af hverju 100:

| | mæðra skilgetinna barna. | mæðra óskilgetinna barna. |
| --- | --- | --- |
| milli 15 og 20 ára . . . | 0.6 | 1.7 |
| — 20 - 25 — . . . | 10.0 | 20.4 |
| — 25 - 30 — . . . | 22.5 | 31.8 |
| — 30 - 35 — . . . | 33.0 | 28.9 |
| — 35 - 40 — . . . | 22.9 | 11.9 |
| — 40 - 45 — . . . | 9.9 | 5.1 |
| — 45 - 50 — . . . | 1.1 | 0.2 |
| yfir 50 ára . . . . . . | » | » |

Sýnir þetta, að mæður óskilgetinna barna á þessu ári hafa fleiri að tiltölu verið á ýngra aldri en mæður skilgetinna barna; því þar sem giptar konur, sem hafa alið börn, á þessu ári einúngis hafa verið tiltals 10.6 af 100 á aldrinum fyrir innan 25 ára, þá hefir tiltala ógiptra kvenna, sem á sama aldri hafa alið börn, verið 22.1 af 100, eða nær því tvöfalt fleiri að tiltölu. Flestar hafa mæður skilgetinna barna á þessu ári að tiltölu verið á aldrinum milli 30 og 35 ára, en mæður óskilgetinna barna hafa á sama ári verið flestar að tiltölu á aldrinum milli 25 og 30 ára.

## II. UM KVONFÖNG.

1. Fjöldi brúðhjóna. Árið 1865 voru gefin saman alls 421 hjón á öllu Íslandi, og hafa því kvonföng á Íslandi á þessu ári að tölunni til verið töluvert færri en næst undanfarið ár 1864, og jafnvel nokkru færri en eptir meðaltali um 6 ára bilið 1850—1855. Einnig að tiltölu eru á þessu ári kvonföng miklu færri en árið 1864, því sè tala hjóna á árinu 1865 borin saman við fólkstölu þá,

sem taldist að vera í landinu við árslokin 1864, þá koma á þessu ári ein hjón á 162 landsmanna (smbr. I., bls. 379 og III., bls. 744). Til þess samt að hafa hægra yfirlit yfir það sem hèr hefir verið sagt, viljum vèr sýna hlutfall það, sem hefir verið milli kvonfánga og fólkstölunnar á 10 ára bilinu 1856—1865, og koma þá:

| | ein hjón á landsmenn. |
|---|---|
| árið 1856 . . . . . . . | 119 |
| — 1857 . . . . . . . | 124 |
| — 1858 . . . . . . . | 137 |
| — 1859 . . . . . . . | 167 |
| — 1860 . . . . . . . | 162 |
| — 1861 . . . . . . . | 144 |
| — 1862 . . . . . . . | 159 |
| — 1863 . . . . . . . | 152 |
| — 1864 . . . . . . . | 133 |
| — 1865 . . . . . . . | 162. |

Það gefur þó að skilja, að býsna mikill munur sýni sig í þessu atriði í hinum sèrstöku hèruðum landsins, og skal því þessu til skýríngar segja frá tölu kvonfánga árið 1865 í hverri sýslu og í hverju umdæmi í samanburði við fólkstöluna í árslokin 1864. Það kemur þá fram, að árið 1865 voru í:

| | ein hjón á landsmenn. |
|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . . | 145 |
| Vestmannaeyja s. . . . . . . . | 507 |
| Rángárvalla s. . . . . . . . . | 266 |
| Árness s. . . . . . . . . . | 217 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . . . | 337 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . . . . | 104 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . . . | 107 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . . | 254 |
| Snæfellsness s. . . . . . . . . | 128 |
| Dala s. . . . . . . . . . . . | 95 |

| | ein hjón á landsmenn. |
|---|---|
| Barðastrandar sýslu . . . . . | 141 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . . . | 281 |
| Stranda s. . . . . . . . . | 203 |
| Húnavatns s. . . . . . . . | 181 |
| Skagafjarðar s. . . . . . . . | 96 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . . | 141 |
| þíngeyjar s. . . . . . . . . | 167 |
| Norður-Múla s. . . . . . . | 141 |
| Suður-Múla s. . . . . . . . | 122 |
| Suður-umdæminu . . . . . . | 195 |
| Vestur-umdæminu . . . . . . | 168 |
| Norður- og Austur-umd. . . . | 138. |

þetta sýnir bezt hversu mikill munur er á þessu í hèruðum landsins, og hafa eptir því giptíngar að tiltölu við fólkstalið árið 1865 verið flestar í Dala sýslu og þá í Skagafjarðar sýslu, en lángfæstar hafa þær verið í Vestmannaeyja sýslu og þá í Gullbríngu- og Kjósar sýslu.

2. Kyn brúðhjóna. Eptir eðli sínu er það að vísu svo, að alls giptast eins margar konur á ári hverju og karlar kvongast, en tiltals hlýtur þetta að verða nokkuð á annan veg. það er samt ekki hægt að komast að rèttri niðurstöðu í þessu efni nema með því einu móti, að maður viti tölu á ógiptu fólki, bæði körlum og konum, á giptínga aldri, það er að skilja frá 15 vetra og fram úr; en með því ekki verður höfð nein vissa um þessa tölu nema á þeim árum, þá almenn fólkstala er tekin um allt landið, þá verðum vèr hèr að sleppa þessu atriði og geyma það til þess tíma.

3. Hjúskaparstètt brúðhjóna. Skýrslan B. 2 ber það nákvæmlega með sèr, hversu margir ýngismenn, ekklar og fráskildir kvonguðust árið 1865, og sömuleiðis hversu margir úr hverjum flokki um sig áttu ýngisstúlkur, ekkjur og fráskildar konur.

Að rèttu lagi ætti hèr fyrst að taka það atriði til íhugunar, hversu margir karlar á þessu ári kvonguðust og hversu margar konur giptust úr hverjum flokki um sig, eptir rèttri tiltölu við tölu fólks á giptínga aldri. En þessu verðum vèr að sleppa hèr, þar því ekki verður við komið af ástæðum þeim, sem að framan hafa verið tilgreindar.

þessu næst er að athuga, hvort að í samanburði við næst undanfarin 9 ár hafi á þessu ári, sem hèr ræðir um, kvongazt fleiri ýngismenn að sínu leyti en ekklar, og slíkt hið sama um ýngismeyjar og ekkjur; en geta má þess, að í samanburði þessum eru fráskildir menn taldir með ekklum og fráskildar konur með ekkjum. Af hjónum þeim, sem gefin hafa verið saman á Íslandi á þessum 10 árum, voru:

| | af brúðgumum | | af brúðum | |
|---|---|---|---|---|
| | piltar. | ekklar. | stúlkur. | ekkjur. |
| árið 1856 | 481 | 63 | 504 | 40 |
| — 1857 | 478 | 53 | 486 | 45 |
| — 1858 | 440 | 47 | 447 | 40 |
| — 1859 | 366 | 40 | 363 | 43 |
| — 1860 | 375 | 43 | 374 | 44 |
| — 1861 | 400 | 64 | 395 | 69 |
| — 1862 | 368 | 52 | 379 | 41 |
| — 1863 | 370 | 69 | 373 | 66 |
| — 1864 | 440 | 67 | 426 | 81 |
| — 1865 | 371 | 50 | 367 | 54; |

og hafa því verið:

| | af 100 brúðguma | | af 100 brúða | |
|---|---|---|---|---|
| | piltar. | ekklar. | stúlkur. | ekkjur. |
| árið 1856 | 88.4 | 11.6 | 92.6 | 7.4 |
| — 1857 | 90.0 | 10.0 | 91.5 | 8.5 |
| — 1858 | 90.3 | 9.7 | 91.8 | 8.2 |
| — 1859 | 90.0 | 10.0 | 91.5 | 8.5 |
| — 1860 | 89.7 | 10.3 | 89.5 | 10.5 |
| — 1861 | 86.2 | 13.8 | 85.1 | 14.9 |

| | af 100 brúðguma | | af 100 brúða | |
|---|---|---|---|---|
| | piltar. | ekklar. | stúlkur. | ekkjur. |
| árið 1862 . . . . | 87.6 | 12.4 | 90.2 | 9.8 |
| — 1863 . . . . | 84.3 | 15.7 | 85.0 | 15.0 |
| — 1864 . . . . | 86.8 | 13.2 | 84.0 | 16.0 |
| — 1865 . . . . | 88.1 | 11.9 | 87.2 | 12.8. |

Af þessu má sjá, að þetta hlutfall, hvað karlmenn snertir, er nokkuð líkt á þessum árum, að undanskildu þó einkum árinu 1863, því þá eru flestir ekklar giptir að tiltölu, en fæstir árið 1858. Aptur á hinn bóginn er meiri munur á þessu hvað konur snertir, og hafa ekkjur giptzt lángflestar árið 1864, og jafnvel rúmum helmíngi fleiri að tiltölu en árið 1856, þegar þær giptust fæstar.

Loks skulum vèr skoða hvernig fólk hefir gipzt saman á þessum sömu árum, og verður þá einnig líkt ofaná, því af 100 brúðhjóna á þessu tímabili áttu:

| | ýngissveinar | | ekklar | |
|---|---|---|---|---|
| | ýngismeyjar. | ekkjur. | ýngismeyjar. | ekkjur. |
| árið 1856 . . . . | 84.4 | 4.0 | 8.3 | 3.3 |
| — 1857 . . . . | 82.9 | 7.2 | 8.6 | 1.3 |
| — 1858 . . . . | 84.6 | 5.7 | 7.2 | 2.5 |
| — 1859 . . . . | 81.8 | 8.4 | 7.4 | 2.4 |
| — 1860 . . . . | 81.8 | 7.9 | 7.7 | 2.6 |
| — 1861 . . . . | 75.2 | 11.0 | 9.9 | 3.9 |
| — 1862 . . . . | 79.3 | 8.3 | 11.0 | 1.4 |
| — 1863 . . . . | 73.1 | 11.2 | 11.8 | 3.9 |
| — 1864 . . . . | 75.7 | 11.1 | 8.3 | 4.9 |
| — 1865 . . . . | 78.9 | 9.3 | 8.3 | 3.5. |

4. Aldur brúðhjóna. Í skýrslunni B. 1 er skýrt frá aldri brúðhjóna, það er að skilja, að þar segir hversu mörg hjón hafi verið gefin saman árið 1865 á hverri aldursfimt fyrir sig. Af skýrslu þessari geta menn einnig fundið aldursmun brúðhjóna, það er að skilja: hversu margir brúðgumar á þessu ári hafi verið ýngri, jafngamlir eður eldri en brúðurin, og á hinn bóginn: hversu margar

brúðir hafa verið yngri, jafngamlar eður eldri en brúðgumarnir. Sömuleiðis geta menn af skýrslu þessari fundið aldurstiltölu brúðhjóna á fjórum aldursbilum; og loksins má einnig af henni finna hið rètta miseldri hjóna. þessar þrjár skýrslur eru fyrir árið 1865 þessar:

## Aldursmunur brúðhjóna.

| | brúð-gumar. | brúðir. | brúðgumar. yngri | brúðgumar. jafngamlir | brúðgumar. eldri | brúðir. yngri | brúðir. jafngamlar | brúðir. eldri |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| fyrir innan 20 ára . | 74 | 13 | 45 | 26 | 3 | 13 | | » |
| milli 20 og 25. . . | | 127 | | | | 101 | 26 | |
| — 25 - 30. . . | 168 | 115 | 50 | 54 | 64 | 48 | 54 | 13 |
| — 30 - 35. . . | 100 | 99 | 14 | 22 | 64 | 24 | 22 | 53 |
| — 35 - 40. . . | 36 | 46 | 4 | 7 | 25 | 8 | 7 | 31 |
| — 40 - 45. . . | 18 | 7 | 2 | » | 16 | 2 | » | 5 |
| — 45 - 50. . . | 10 | 7 | » | » | 10 | » | » | 7 |
| — 50 - 55. . . | 7 | 3 | » | 1 | 6 | » | 1 | 2 |
| — 55 - 60. . . | 3 | 1 | » | » | 3 | » | » | 1 |
| — 60 - 65. . . | 3 | 2 | » | » | 3 | » | » | 2 |
| — 65 - 70. . . | 1 | 1 | » | » | 1 | » | » | 1 |
| yfir 70 ára . . . . | 1 | » | » | » | 1 | » | » | » |
| | 421 | 421 | 115 | 110 | 196 | 196 | 110 | 115 |
| | | | | 421 | | | 421 | |

## Aldurstiltala brúðhjóna.

| | samtals. brúð-gumar | samtals. brúðir | samtals. brúð-hjón. | tiltals af 100. brúð-gumar | tiltals af 100. brúðir | tiltals af 100. brúð-hjón. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| fyrir innan 25 ára . . . | 74 | 140 | 107.0 | 17.6 | 33.3 | 25.4 |
| milli 25 og 35 . . . . . | 268 | 214 | 241.0 | 63.7 | 50.8 | 57.3 |
| — 35 - 45 . . . . . | 54 | 53 | 53.5 | 12.8 | 12.6 | 12.7 |
| yfir 45 ára. . . . . . . | 25 | 14 | 19.5 | 5.9 | 3.3 | 4.6 |

Rètt miseldri brúðguma og brúða.

| | aldur brúðguma. | | | | aldur brúða. | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | snemma, yngri en 25. | mátulega, 25 til 35. | síðla, 35 til 50. | of seint, yfir 50. | snemma, yngri en 20. | mátulega, 20 til 30. | síðla, 30 til 40. | of seint, yfir 40. |
| alls . . . . . . | 74 | 268 | 64 | 15 | 13 | 242 | 145 | 21 |
| af 100 . . . . . | 17.6 | 63.7 | 15.2 | 3.5 | 3.1 | 57.5 | 34.4 | 5.0 |

Skýrslur þessar um rètt miseldri hjóna sýna hið sama og áður hefir átt sèr stað á Íslandi, nefnilega að konur að sínu leyti giptast seinna en karlmenn; því þar sem 18.7 af 100 karlmanna á þessu ári kvonguðust síðla eður ofseint, þá voru á sama ári 39.4 af 100 kvenna sem giptust síðla eður ofseint, eður að tiltölu rúmur helmíngur, og er þetta hlutfall mjög líkt og það var árið 1864, en nokkru lakara en það var árin 1862 og 1863 (smbr. III., bls. 386, 636 og 748).

5. Brullaupstíð hjóna. Skýrslan B. 3 skýrir frá, hversu mörg hjón á þessu ári hafa verið gefin saman í hverjum mánuði. Skipti maður nú árinu í 4 fjórðúnga: vetur, vor, sumar og haust, þannig að 3 mánuðir sè taldir í hvorum, og teli maður svo til vetrarins desember, janúar og febrúar, og svo framvegis, þá hafa hjóná árinu 1865 verið gefin saman á þessa leið:

| | | | |
|---|---|---|---|
| vetur . . . . | 28 tals, | 67 | af hverju þúsundi |
| vor . . . . | 13 —, | 31 | - — — |
| sumar . . . | 118 —, | 280 | - — — |
| haust . . . | 262 —, | 622 | - — —. |

Sýnir þetta, að lángflest hjón, eður meir en helmíngur allra hjóna, eru að tiltölu gefin saman á haustin, og er þetta hlutfall mjög líkt og það híngað til hefir verið á Íslandi, því á árunum 1856—1865 voru af 1000 hjónum gefin saman:

| | vetur | vor | sumar | haust |
|---|---|---|---|---|
| árið 1856 . . . . | 48 | 125 | 254 | 573 |
| — 1857 . . . . | 7 | 199 | 292 | 502 |
| — 1858 . . . . | 25 | 144 | 314 | 517 |

| | vetur | vor | sumar | haust |
|---|---|---|---|---|
| árið 1859 . . . . | 15 | 170 | 327 | 488 |
| — 1860 . . . . | 24 | 43 | 261 | 672 |
| — 1861 . . . . | 47 | 69 | 272 | 612 |
| — 1862 . . . . | 50 | 38 | 267 | 645 |
| — 1863 . . . . | 41 | 50 | 246 | 663 |
| — 1864 . . . . | 29 | 75 | 294 | 592 |
| — 1865 . . . . | 67 | 31 | 280 | 622. |

## III. UM MANNDAUÐA.

1. **Fjöldi andaðra.** Árið 1865 dóu alls 2100 manns á Íslandi, og er það að upphæðinni til nokkru meira en næst undanfarið ár 1864, en töluvert minna en þau fjögur árin 1859, 1860, 1861 og 1862, en hèrumbil jafnt og árið 1863 (smbr. II., bls. 29, 226 og 590, og III., bls. 222, 387, 637 og 749). Sama kemur einnig fram, sè þetta skoðað eptir tiltölu við fólkstöluna á hverju ári, því þá sýnir það sig, að árið 1865 dóu einúngis 3.1 af hverju hundraði af allri fólkstölunni í landinu, en árið 1864 dóu 3.0 af hundraði, árið 1863: 3.2, árið 1862: 4.9, árið 1861: 3.6, árið 1860: 5.9 og árið 1859: 3.8 af hundraði (smbr. III., bls. 222, 387, 637 og 749). En til hægra yfirlits yfir það, sem hèr hefir verið sagt, viljum vèr hèr á einum stað skýra frá tölu andaðra og svo frá hlutfallinu milli þeirra og allrar fólkstölu í landinu á hverju á þeim 10 árum, sem eru liðin frá því að skýrslur um það efni hafa verið prentaðar í ritum þessum (smbr. I., bls. 397—399). Manndauðinn hefir þá á þessu tímabili verið á þessa leið:

| | tals. | af hverjum 10000 landsmanna. |
|---|---|---|
| árið 1856 . . . . . . | 1485 | 229 |
| — 1857 . . . . . . | 1655 | 282 |
| — 1858 . . . . . . | 2019 | 302 |
| — 1859 . . . . . . | 2573 | 379 |
| — 1860 . . . . . . | 3326 | 489 |
| — 1861 . . . . . . | 2391 | 358 |

| | | tals. | af hverjum 10000 landsmanna. |
|---|---|---|---|
| árið | 1862 . . . . . | 2874 | 429 |
| — | 1863 . . . . . | 2115 | 317 |
| — | 1864 . . . . . | 2001 | 297 |
| — | 1865 . . . . . | 2100 | 308. |

það gefur þó að skilja, einsog það einnig liggur í hlutarins eðli, að býsna mikill munur er á manndauðanum í hinum sèrstöku hèruðum landsins, eins árið 1865 og að undanförnu, og viljum vèr því þessu atriði til frekari skýríngar hèr segja frá önduðum á árunum 1864 og 1865 í hverri sýslu og í hverju umdæmi á landinu, og svo frá fólkstölunni í árslokin 1863 og 1864, og síðan bera hvorttveggja saman. Skýrsla þessi verður þá þannig:

| | Fólkstala | | Dánir | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | við árslokin 1863. | við árslokin 1864. | 1864. | | 1865. | |
| | | | tals. | af 100 | tals. | af 100. |
| Skaptafells sýsla . . . . . | 3552 | 3626 | 91 | 2.6 | 72 | 2.0 |
| Vestmannaeyja . . . . . . | 511 | 507 | 32 | 6.3 | 17 | 3.4 |
| Rángárvalla . . . . . . . | 5232 | 5315 | 145 | 2.8 | 156 | 2.9 |
| Árness . . . . . . . . . | 5571 | 5647 | 151 | 2.7 | 94 | 1.7 |
| Gullbríngu- og Kjósar . . . | 4983 | 5058 | 123 | 2.5 | 161 | 3.2 |
| Reykjavíkur bær . . . . . | 1453 | 1459 | 40 | 2.7 | 46 | 3.2 |
| Borgarfjarðar sýsla . . . . | 2324 | 2363 | 56 | 2.4 | 79 | 3.3 |
| Mýra- og Hnappadals . . . | 2731 | 2793 | 74 | 2.7 | 101 | 3.6 |
| Snæfellsness . . . . . . . | 2842 | 2812 | 131 | 4.6 | 110 | 3.9 |
| Dala . . . . . . . . . . | 2276 | 2291 | 81 | 3.6 | 102 | 4.5 |
| Barðastrandar . . . . . . | 2695 | 2681 | 108 | 4.0 | 83 | 3.1 |
| Ísafjarðar . . . . . . . . | 4734 | 4773 | 124 | 2.6 | 152 | 3.2 |
| Stranda . . . . . . . . . | 1604 | 1625 | 47 | 2.9 | 44 | 2.7 |
| Húnavatns . . . . . . . . | 4834 | 4879 | 160 | 3.3 | 217 | 4.4 |
| Skagafjarðar . . . . . . . | 4407 | 4420 | 165 | 3.7 | 166 | 3.8 |
| Eyjafjarðar. . . . . . . . | 4558 | 4654 | 116 | 2.5 | 121 | 2.6 |
| Þíngeyjar . . . . . . . . | 5622 | 5666 | 162 | 2.9 | 139 | 2.5 |
| Norður-Múla . . . . . . . | 4040 | 4089 | 118 | 2.9 | 143 | 3.5 |
| Suður-Múla. . . . . . . . | 3356 | 3426 | 77 | 2.3 | 97 | 2.8 |
| Suður-umdæmið. . . . . . | 23626 | 23975 | 638 | 2.7 | 625 | 2.6 |
| Vestur-umdæmið . . . . . | 16882 | 16975 | 565 | 3.3 | 592 | 3.5 |
| Norður- og Austur-umdæmið | 26817 | 27134 | 798 | 3.0 | 883 | 3.3 |
| á öllu Íslandi . . . . . | 67325 | 68084 | 2001 | 3.0 | 2100 | 3.1 |

Samkvæmt þessu yfirliti hefir manndauði árið 1864 að tiltölu verið mestur í Vestmannaeyja sýslu og þá í Snæfellsness sýslu, en minnstur hefir hann verið í Suður-Múla sýslu og þá í Borgarfjarðar sýslu. Aptur á hinn bóginn hefir hann árið 1865 að tiltölu verið mestur í Dala sýslu og þá í Húnavatns sýslu, en minnstur í Árness sýslu og þá í Skaptafells sýslu. Beri maður þessi tvö ár saman sín á milli, þá hefir manndauði árið 1865 verið meiri að tiltölu en árið 1864 í 12 sýslum landsins, nefnilega í Rángárvalla, Gullbríngu og Kjósar, Borgarfjarðar, Mýra- og Hnappadals, Dala, Ísafjarðar, Húnavatns, Skagafjarðar, Eyjafjarðar, Norður-Múla og Suður-Múla sýslum, og svo í Reykjavíkur bæ, en í hinum 6 sýslunum hefir hann að tiltölu verið minni árið 1865 en árið 1864. Mestur munurinn á manndauðanum á þessum tveim árum er í Vestmannaeyja sýslu, en minnstur í Eyjafjarðar sýslu.

2. Kyn andaðra. Árið 1865 dóu 1114 karlar og 986 konur, og hafa þá á því ári af hverju 1000 dáinna andazt 530 karlar en 470 konur, og er þetta líkt því, sem áður hefir átt sèr stað, að frá skildu þó árinu 1862, því þá önduðust fleiri konur en karlar (smbr. III., bls. 389, 639 og 751). Híngað til hefir það optast átt sèr stað, að tala kvenna hefir aukizt nokkuð á hverju ári, en á ári því, sem hèr ræðir um, er þetta gagnstætt, þar sem tala þeirra hefir mínkað nokkuð. Árið 1865 fæddist nefnilega 193 fleiri sveinbörn en meybörn, en á sama ári dóu aptur á móti ekki nema 128 fleiri karlar en konur, og ætti því eptir þessu að vera 65 færra af kvennfólki að sínu leyti í landinu 1. janúar 1866 en 1. janúar 1865.

Hlutfall þetta er samt býsna ólíkt í hèruðum landsins, eins og nú skal sýnt. Árið 1865 voru nefnilega af hverju 100 dáinna í:

| | karlar. | konur. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu | 50 | 50 |
| Vestmannaeyja s. | 71 | 29 |
| Rángárvalla s. | 58 | 42 |
| Árness s. | 50 | 50 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. | 49 | 51 |
| Reykjavíkur bæ | 54 | 46 |

| | karlar. | konur. |
|---|---|---|
| Borgarfjarðar sýslu . . . . . | 59 | 41 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . . | 55 | 45 |
| Snæfellsness s. . . . . . . | 55 | 45 |
| Dala s. . . . . . . . . . . | 58 | 42 |
| Barðastrandar s. . . . . . . | 36 | 64 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . . | 48 | 52 |
| Stranda s. . . . . . . . . | 41 | 59 |
| Húnavatns s. . . . . . . . | 54 | 46 |
| Skagafjarðar s. . . . . . . | 55 | 45 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . . | 55 | 45 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . . | 57 | 43 |
| Norður-Múla s. . . . . . . | 46 | 54 |
| Suður-Múla s. . . . . . . | 63 | 37 |
| Suður-umdæminu . . . . . | 54 | 46 |
| Vestur-umdæminu . . . . . | 50 | 50 |
| Norður- og Austur-umd. . . . | 54 | 46. |

Sýnir þetta, að þó mestur munurinn á þessu hlutfalli hafi verið í Vestmannaeyja sýslu, og þá í Suður-Múla sýslu, og minnstur í Reykjavíkur bæ og í Húnavatns sýslu, þá hefir þó hlutfallið verið jafnt í þeim tveim sýslum, Skaptafells og Árness sýslum, og í fimm sýslum landsins, nefnilega í Gullbríngu og Kjósar, Barðastrandar, Ísafjarðar, Stranda og Norður-Múla sýslum, hafa á þessu ári jafnvel andazt fleiri konur að tiltölu en karlar.

3. Hjúskaparstètt andaðra. Árið 1865 hafa andazt samtals á öllu Íslandi 233 karlar kvæntir og 183 konur giptar, og eru þá á því ári 416 hjónabönd slitin. Á þessu ári voru þar á móti gefin saman 421 hjón, og á því að vera ein 5 hjón fleiri eptir en áður; en þetta er nokkuð ólíkt því sem hefir verið næst undanfarin 9 ár, að nokkrum árum þó undanskildum, og hafa á flestum þeirra færri hjón verið eptir en áður (smbr. III., bls. 224, 389, 639 og 751). Á 10 ára tímabilinu 1856—1865 hafa af hverju 1000 dáinna karlmanna andazt:

| | kvæntir. | ókvæntir. | ekklar. |
|---|---|---|---|
| árið 1856 . . . | 206 | 704 | 90 |
| — 1857 . . . | 193 | 744 | 63 |
| — 1858 . . . | 209 | 722 | 69 |
| — 1859 . . . | 262 | 655 | 83 |
| — 1860 . . . | 226 | 713 | 61 |
| — 1861 . . . | 207 | 730 | 63 |
| — 1862 . . . | 280 | 629 | 91 |
| — 1863 . . . | 310 | 580 | 110 |
| — 1864 . . . | 240 | 690 | 70 |
| — 1865 . . . | 209 | 697 | 94; |

en af hverju 1000 dáinna kvenna voru á sama tímabili:

| | giptar. | ógiptar. | ekkjur. |
|---|---|---|---|
| árið 1856 . . . | 151 | 687 | 162 |
| — 1857 . . . | 133 | 751 | 116 |
| — 1858 . . . | 152 | 714 | 134 |
| — 1859 . . . | 159 | 690 | 151 |
| — 1860 . . . | 152 | 720 | 128 |
| — 1861 . . . | 135 | 752 | 113 |
| — 1862 . . . | 226 | 585 | 189 |
| — 1863 . . . | 192 | 624 | 184 |
| — 1864 . . . | 158 | 673 | 169 |
| — 1865 . . . | 186 | 660 | 154. |

Beri maður nú þessi 10 ár saman, þá sýnir það sig fyrst hvað karlmenn snertir, að meðal þeirra hafa flestir kvæntir andazt árið 1863 (nær því þriðjúngur allra dáinna karlmanna); ókvæntir flestir árið 1857 (nær því þrír fjórðu hlutar dáinna karlmanna), en ekklar flestir einnig árið 1863. Hvað þar á móti konur snertir, þá hafa flestar giptar konur andazt árið 1862 (nær því fjórði hluti dáinna kvenna); ógiptar flestar árið 1861 (þrír fjórðu hlutar), og ekkjur flestar einnig árið 1862.

Skoði maður þar á móti þetta atriði í hverju hèraði landsins, þá verða hlutföll þau, sem hèr ræðir um, töluvert á annan veg; því teli maður ekkla með ókvæntum karlmönnum, og ekkjur með

ógiptum konum, þá kemur fram, að árið 1865 voru af hverju 100 andaðra, bæði karla og kvenna:

| | af körlum | | af konum | |
|---|---|---|---|---|
| | kvæntir. | ókvæntir. | giptar. | ógiptar. |
| Skaptafells sýsla . . . . | 22 | 78 | 19 | 81 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 25 | 75 | » | 100 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 18 | 82 | 18 | 82 |
| Árness s. . . . . . . | 28 | 72 | 15 | 85 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . | 27 | 73 | 15 | 85 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . | 36 | 64 | 24 | 76 |
| Borgarfjarðar s. . . . . | 21 | 79 | 16 | 84 |
| Mýra- og Hnappadals s. . | 29 | 71 | 11 | 89 |
| Snæfellsness s. . . . . | 17 | 83 | 20 | 80 |
| Dala s. . . . . . . . | 14 | 86 | 5 | 95 |
| Barðastrandar s. . . . . | 23 | 77 | 19 | 81 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 15 | 85 | 35 | 65 |
| Stranda s. . . . . . . | 11 | 89 | 8 | 92 |
| Húnavatns s. . . . . . | 17 | 83 | 15 | 85 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 26 | 74 | 11 | 89 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . | 27 | 73 | 40 | 60 |
| Þíngeyjar s. . . . . . | 25 | 75 | 15 | 85 |
| Norður-Múla s. . . . . | 14 | 86 | 23 | 77 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 11 | 89 | 17 | 83 |
| Suður-umdæmið . . . . | 24 | 76 | 17 | 83 |
| Vestur-umdæmið . . . . | 18 | 82 | 19 | 81 |
| Norður- og Austur-umd. . | 20 | 80 | 19 | 81. |

Yfirlit þetta sýnir, að árið 1865 hafa að tiltölu flestir kvæntir karlmenn og fæstir ókvæntir andazt í Reykjavíkur bæ og þá í Mýra- og Hnappadals sýslu, en fæstir kvæntir og flestir ókvæntir í Stranda og Suður-Múla sýslum og þá í Dala og Norður-Múla sýslum; aptur á hinn bóginn hafa á þessu sama ári flestar giptar konur og fæstar ógiptar andazt að tiltölu í Eyjafjarðar sýslu og þá í Ísafjarðar sýslu, en fæstar giptar og flestar ógiptar í Dala sýslu og þá í Stranda sýslu; en í Vestmannaeyjum hefir á þessu ári engin gipt kona andazt.

Vèr höfum áður í ritum þessum drepið á það, að það mundi mega álíta sem almenna reglu, að í flestum hèruðum á Íslandi andist af giptu fólki að tiltölu miklu fleiri karlar en konur, og af ógiptu fólki aptur á móti fleiri konur en karlar. Að þetta einnig eigi sèr stað á ári þessu, sem hèr ræðir um, sýnir yfirlit þetta líka, því það eru einúngis 5 sýslur í landinu, að hið gagnstæða hefir átt sèr stað á þessu ári, nefnilega í Snæfellsness, Ísafjarðar, Eyjafjarðar, Norður-Múla og Suður-Múla sýslum; en í Rángárvalla sýslu einni hefir hlutfall þetta verið jafnt um bæði karla og konur.

4. Aldur andaðra. Um þetta atriði er greinilega sagt í skýrslunum C. 4 og C. 5 hèr að framan. Til þess samt að skýra þetta betur og til þess að hafa hægra yfirlit yfir það, þykir rètt að skipta önduðum niður í flokka, og svo sýna hversu margir úr hverjum flokki um sig hafa andazt að tiltölu á Íslandi árið 1865, og svo tvö næst undanfarin ár. Það lætur sig þá í ljósi, að af hverju 100 af öllum dánum voru:

| | árið 1863. | árið 1864. | árið 1865. |
|---|---|---|---|
| 1 árs og ýngri . . . . | 30.6 | 35.1 | 33.1 |
| milli 1 og 3 ára . . . | 4.6 | 7.3 | 8.3 |
| — 3 - 5 — . . . | 2.3 | 3.2 | 3.7 |
| — 5 - 10 — . . . | 3.3 | 3.2 | 4.4 |
| — 10 - 15 — . . . | 2.0 | 2.0 | 2.5 |
| — 15 - 20 — . . . | 1.5 | 2.0 | 2.0 |
| — 20 - 40 — . . . | 14.5 | 15.8 | 12.8 |
| — 40 - 60 — . . . | 14.5 | 11.8 | 12.9 |
| — 60 - 80 — . . . | 23.4 | 16.8 | 17.3 |
| yfir 80 ára . . . . . | 3.3 | 2.8 | 3.0. |

Það sýnir sig þá af þessu, að úngbarnadauðinn, það er að skilja á 1 árs aldrinum og ýngri, hefir árið 1865 verið nokkuð minni en árið 1864, en meiri en árið 1863, og þó ennþá minni en hann var að meðaltali um 6 ára bilið 1850—1855, því þá var hann 39.0 af hundraði (smbr. I., bls. 386). Af börnum á aldrinum milli 1 og 10 ára hafi þar á móti árið 1865 dáið nokkru fleiri að tiltölu en tvö næst undanfarin ár, og jafnvel fleiri en að meðaltölu

um 6 ára bilið 1850—1855; því á þessum aldri dóu árið 1863: 10.2, 1864: 13.7 og 1865: 16.4 af hverju hundraði, en meðaltalan á þessum aldri um 6 ára bilið 1850—1855 var 14.4 af hverju 100 dáinna (smbr. I., 386 og 640). Á aldrinum frá 10—40 ára hafa árið 1865 dáið lítið eitt færri að tiltölu en á hverju hinna tveggja áranna sem hèr ræðir um, en nokkru fleiri en að meðaltölu um 6 ára bilið 1850—1855, því árið 1863 dóu á þessum aldri 18.0, árið 1864: 19.8 og árið 1865: 17.3 af hundraði, en árin 1850—1855 að meðaltölu einúngis 13.6 af hundraði. Þar á móti hafa árið 1865 dáið á rosknum aldri, eða frá 40—80 ára, töluvert færri að tiltölu en árið 1863, en nokkru fleiri en árið 1864 og einnig nokkru fleiri en að meðaltölu um 6 ára bilið 1850—1855, því árið 1863 önduðust á þessum aldri 37.9 af hverju hundraði, árið 1864 einúngis 28.6 og árið 1865: 30.2 af 100; en á tímabilinu frá 1850—1855 önduðust á þessum aldri að meðaltölu á ári einúngis 27.6 af hverju 100 dáinna. Loks hefir af gamalmennum, eða af fólki yfir 80 ára andazt mjög líkt að tiltölu á hverju þessara þriggja ára, sem hèr ræðir um, en þó færra en að meðaltölu um 6 ára bilið 1850—1855, því þá dó á þessum aldri að meðaltali á ári 5.5 af hverju hundraði dáinna.

Nokkuð á annan veg verða hlutföll þau, sem hèr ræðir um, skoði maður þetta atriði eptir kynferði andaðra, því þá telst svo til, að á þeim þrem hèr á undan umgetnu árum hafi af hverju 100 dáinna karlmanna andazt:

| | árið 1863. | árið 1864. | árið 1865. |
|---|---|---|---|
| 1 árs og ýngri . . . . | 29.3 | 35.8 | 35.0 |
| milli 1 og 3 ára . . . | 4.1 | 6.4 | 8.1 |
| — 3 - 5 — . . . | 2.0 | 3.5 | 2.8 |
| — 5 - 10 — . . . | 2.9 | 2.3 | 4.9 |
| — 10 - 15 — . . . | 1.5 | 2.2 | 2.1 |
| — 15 - 20 — . . . | 1.9 | 2.5 | 2.4 |
| — 20 - 40 — . . . | 17.0 | 19.9 | 14.3 |
| — 40 - 60 — . . . | 16.4 | 11.6 | 13.3 |
| — 60 - 80 — . . . | 22.9 | 14.2 | 15.5 |
| yfir 80 ára . . . . , . | 2.0 | 1.6 | 1.6; |

en af hverju 100 dáinna kvennmanna önduðust:

| | árið 1863. | árið 1864. | árið 1865. |
|---|---|---|---|
| 1 árs og ýngri . . . . | 32.1 | 35.1 | 30.9 |
| milli 1 og 3 ára . . . | 5.3 | 8.3 | 8.6 |
| — 3 - 5 — . . . | 2.5 | 2.8 | 4.8 |
| — 5 - 10 — . . . | 3.9 | 4.2 | 3.9 |
| — 10 - 15 — . . . | 2.5 | 1.6 | 2.9 |
| — 15 - 20 — . . . | 1.4 | 1.4 | 1.5 |
| — 20 - 40 — . . . | 11.3 | 10.8 | 11.2 |
| — 40 - 60 — . . . | 12.1 | 11.9 | 12.5 |
| — 60 - 80 — . . . | 24.0 | 19.8 | 19.3 |
| yfir 80 ára . . . . . | 4.9 | 4.1 | 4.4. |

Sýnir þetta þá meðal annars, að af úngbörnum 1 árs og ýngri hafa að tiltölu á þessum árum andazt fleiri sveinbörn en meybörn, að undanskildu þó árinu 1863, því þá hefir hið gagnstæða átt sèr stað; en af börnum á aldrinum frá 1—10 ára er hlutfallið mjög líkt. Á aldrinum frá 10—40 ára hafa þar á móti á öllum þessum árum að tiltölu dáið fleiri karlar en konur, eins og líka hefir verið að undanförnu. En aptur á hinn bóginn á það gagnstæða sèr stað um fólk á rosknum aldri frá 40—80 ára, því á þessum aldri hafa að tiltölu andazt fleiri konur en karlar, að frá skildu þó árinu 1863; en á öllum þessum árum hafa andazt meir en tvöfalt fleiri konur en karlar á gamals aldri, eður yfir 80 ára, og er það meðal annars eitt til sönnunar fyrir því, sem optar hefir verið drepið á, að konur á Íslandi, eins og í öðrum löndum, verða eldri eða lifa lengur en karlar almennt.

Það er samt auðvitað, að hlutföll þau, sem vèr nú höfum sýnt að verið hafa á þessum árum milli dáinna á Íslandi eptir aldri þeirra, hljóta að vera nokkuð ólík í hinum sèrstöku hèruðum landsins. Í skýrslunni C. 5 er að vísu greinilega sagt frá tölu dáinna árið 1865 í hverju prófastsdæmi eptir aldri, en til frekari skýríngar þessa atriðis, viljum vèr hèr sýna hversu margir að tiltölu hafi andazt á þessu sama ári í hverju umdæmi og í hverri sýslu í landinu á þeim 5 aldursbilum, nefnilega 1 árs og ýngri, frá 1—15

ára, frá 15—40, frá 40—70, og yfir 70 ára. það kemur þá fram, að árið 1865 voru af hverju 100 dáinna:

| | 1 árs og yngri. | frá 1—15 ára. | frá 15—40 ára. | frá 40—70 ára. | yfir 70 ára. |
|---|---|---|---|---|---|
| Skaptafells sýsla . . | 44.4 | 5.6 | 8.3 | 27.8 | 13.9 |
| Vestmannaeyja . . . | 23.5 | 11.8 | 17.6 | 35.3 | 11.8 |
| Rángárvalla . . . . | 48.1 | 3.8 | 10.3 | 23.1 | 14.7 |
| Árness . . . . . . | 39.4 | 5.3 | 18.1 | 26.6 | 10.6 |
| Gullbríngu- og Kjósar . | 30.4 | 13.0 | 14.9 | 28.0 | 13.7 |
| Reykjavíkur bær . . . | 32.6 | 4.3 | 21.8 | 23.9 | 17.4 |
| Borgarfjarðar sýsla . . | 43.0 | 16.5 | 11.4 | 20.3 | 8.8 |
| Mýra- og Hnappadals . | 37.6 | 24.8 | 8.9 | 15.8 | 12.9 |
| Snæfellsness . . . . | 47.3 | 19.1 | 10.0 | 14.5 | 9.1 |
| Dala . . . . . . | 38.2 | 30.4 | 11.8 | 15.7 | 3.9 |
| Barðastrandar . . . | 27.7 | 15.7 | 21.7 | 24.1 | 10.8 |
| Ísafjarðar . . . . . | 27.6 | 7.8 | 29.0 | 23.7 | 11.9 |
| Stranda . . . . . . | 47.7 | 25.0 | 6.8 | 13.7 | 6.8 |
| Húnavatns . . . . . | 23.9 | 29.5 | 11.5 | 21.7 | 13.4 |
| Skagafjarðar . . . . | 24.1 | 27.1 | 13.9 | 26.5 | 8.4 |
| Eyjafjarðar . . . . | 24.8 | 15 7 | 14.1 | 35.5 | 9.9 |
| þíngeyjar . . . . . | 20.9 | 33.8 | 15.8 | 21.6 | 7.9 |
| Norður-Múla . . . . | 24.5 | 31.4 | 17.5 | 22.4 | 4.2 |
| Suður-Múla . . . . | 49.5 | 12.4 | 17.5 | 19.6 | 1.0 |
| Suður-umdæmið . . . | 39.4 | 8.5 | 13.6 | 25.4 | 13.1 |
| Vestur-umdæmið . . | 36.3 | 19.1 | 16.4 | 18.6 | 9.6 |
| Norður- og Austur-umd. | 26.5 | 26.3 | 14.6 | 24.3 | 8.3. |

það lýsir sèr þá af þessu, að munurinn í þessu efni ekki hefir verið svo lítill í hinum ýmsu hèruðum landsins. Á þessu ári, sem hèr ræðir um, hafa þannig af úngbörnum á 1. ári að tiltölu andazt flest í Suður-Múla sýslu (49. 5 af 100, eða að kalla má helmíngur allra dáinna) og þá í Rángárvalla sýslu (48. 1 af 100), en fæst í þíngeyjar sýslu (ekki nema fimti hluti allra dáinna) og þá í

Vestmannaeyja sýslu. Börn á aldrinum frá 1—15 ára hafa að tiltölu andazt flest í Þíngeyjar sýslu (nefnilega 33.8 af 100 eða rúmur þriðjúngur þar dáinna) og þá í Norður-Múla sýslu, en lángfæst í Rángárvalla sýslu (ekki nema 3.8 af 100) og þá í Reykjavíkur bæ (4.3 af 100). Af fólki á bezta aldri, eður á aldrinum frá 15—40 ára, hefir að tiltölu á þessu ári flest andazt í Ísafjarðar sýslu (nefnilega 29.0 af 100, eða nær því þriði hluti þar dáinna) og svo í Reykjavíkur bæ, en fæst í Skaptafells sýslu (hèrumbil tólfti hluti) og svo í Mýra- og Hnappadals sýslu. Á rosknum aldri aptur á móti, eða frá 40—70 ára, hafa að tiltölu flestir andazt í Eyjafjarðar sýslu og þá í Vestmannaeyja sýslu (í hvorri fyrir sig rúmur þriðjúngur þar dáinna), en fæstir í Stranda sýslu (13.7 af 100, eða tæplega sjöundi hluti) og þá í Snæfellsness sýslu. Loks hafa gamalmenni yfir 70 ára andazt flest að tiltölu í Reykjavíkur bæ (17.4 af 100 eða rúmur sjötti hluti þar dáinna) og þá í Rángárvalla sýslu, en láng fæst í Suður-Múla sýslu (ekki nema 1.0 af 100 þar dáinna) og þá í Dala sýslu. Skoði maður hlutföllin í hverjum aldursflokki sín á milli, þá er, eins og næst undanfarið ár (smbr. III., bls. 757), mestur munurinn á þeim í flokkinum frá 1—15 ára (nefnilega frá 33.8 til 3.8 af 100), en minnstur er munurinn í flokkinum yfir 70 ára (frá 17.4 til 1.0 af 100).

5. Ártíð andaðra. Frá þessu atriði er greinilega sagt í skýrslunni C. 4 hèr að framan. Það er samt ekki svo lítill munur á þessu á ári hverju, og viljum vèr því til þess að skýra þetta betur sýna, hversu margt fólk að tiltölu hafi andazt í hverjum mánuði á þeim fjórum árum 1862—1865. Það kemur þá fram, að af hverju 100 dáinna önduðust:

| | árið 1862. | árið 1863. | árið 1864. | árið 1865. |
|---|---|---|---|---|
| janúar . . . | 4.7 | 11.1 | 5.1 | 7.2 |
| febrúar . . . | 3.7 | 6.8 | 5.4 | 6.9 |
| marz . . . | 4.5 | 8.9 | 8.2 | 7.3 |
| apríl . . . | 4.8 | 8.5 | 8.4 | 8.8 |
| maí . . . . | 8.4 | 9.9 | 7.6 | 8.9 |

| | árið 1862. | árið 1863. | árið 1864. | árið 1865. |
|---|---|---|---|---|
| júní . . . . | 36.6 | 11.3 | 7.9 | 8.6 |
| júlí . . . . | 12.0 | 9.8 | 17.4 | 9.2 |
| ágúst . . . | 5.5 | 7.9 | 11.6 | 7.5 |
| september . . | 4.1 | 6.7 | 8.1 | 7.4 |
| október . . | 5.1 | 7.8 | 6.5 | 10.7 |
| nóvember . . | 5.6 | 6.2 | 6.1 | 9.4 |
| desember . . | 5.0 | 5.1 | 7.7 | 8.1. |

Af þessum fjórum árum hefir manndauði verið láng jafnastur í landinu árið 1865, en þó mestur í október mánuði á því ári. Mestur munurinn á þessu er þar á móti árið 1862, og hefir manndauðinn þá verið mestur í júní mánuði, og hefir í þeim mánuði einum andazt meir en þriðjúngur allra dáinna á því ári.

6. Dauðdagi andaðra. Árið 1865 dóu á Íslandi 2008 á sóttarsæng, og teljum vèr einnig þar með andvana fædd börn, en af slysförum bæði á sjó og landi dóu á sama ári einúngis 92, og eru með þeim taldir þeir, sem rèðu sjálfum sèr bana; hafa þá á þessu ári af 1000 dáinna andazt 956.2 á sóttarsæng, og 43.8 af slysförum. En af þeim sem dóu af slysförum á þeim fjórum árum 1862, 1863, 1864 og 1865, voru af hverju 1000 dáinna:

| | árið 1862. | árið 1863. | árið 1864. | árið 1865. |
|---|---|---|---|---|
| sjálfsmorðíngjar . | 0.7 | 1.4 | 2.5 | 1.4 |
| drukknaðir . . | 31.0 | 53.4 | 90.0 | 35.7 |
| af öðrum slysum . | 3.4 | 8.1 | 5.0 | 6.7. |

Eptir þessu hafa slysfarir manna verið miklu færri árið 1865 en tvö næst undanfarin ár, og einkum færri en árið 1864; en nokkuð tíðari hafa þær verið á þessu ári en árið 1862.

---

Vèr höfum nú leitazt við að skýra sem bezt skýrslur þessar um mannfjölda á Íslandi og breytíng á honum árið 1865, en samt er þó ennþá eitt það atriði í þessu efni, sem vèr vildum fara nokkrum orðum um. Hèr að framan hefir nefnilega verið sagt frá því, hversu mikil tala allra landsmanna taldist að vera í árslokin

1865, en þar er þó hvorki getið um tölu karla og kvenna, nè heldur um fólkstöluna í hverju hèraði landsins. Þetta getur nú að vísu hvorugt orðið með öllu áreiðanlegt, þar sem menn ekki hafa skýrslur um fólk það, sem annaðhvort flytur sig úr landinu eða inn í landið á hverju ári; samt sem áður mun mega segja, að minna kveður að þessu á Íslandi en í nokkru öðru landi, og þessvegna mun þó mega komast mjög nærri því sanna í þessu efni. Með því nú að yfirlit yfir þetta getur bæði verið áríðandi og fróðlegt í marga staði, þá skulum vèr hèr skýra þetta atriði nokkuð betur.

Taki maður þá fólksfjöldann í hverri sýslu og í hverju umdæmi á Íslandi eins og hann var þegar fólkið þar var síðast talið 1. október 1860 (smbr. III., bls. 140—153), og bæti maður þar við eða dragi frá því þann viðauka eða þá fækkun á fólki, sem eptir skýrslum presta um fædda og dauða hefir átt sèr stað í hverju hèraði í landinu á því tímabili, sem síðan er liðið, þá telst svo til, að fólkstalan í árslokum 1865 hefði átt að vera:

| | karlar. | konur. | samtals. |
|---|---|---|---|
| Skaptafells sýsla | 1743 | 1958 | 3701 |
| Vestmannaeyja s. | 225 | 284 | 509 |
| Rángárvalla s. | 2481 | 2902 | 5383 |
| Árness s. | 2745 | 3033 | 5778 |
| Gullbringu- og Kjósar s. | 2453 | 2622 | 5075 |
| Reykjavíkur bær | 673 | 805 | 1478 |
| Borgarfjarðar s. | 1178 | 1225 | 2403 |
| Mýra- og Hnappadals s. | 1350 | 1452 | 2802 |
| Snæfellsness s. | 1292 | 1521 | 2813 |
| Dala s. | 1048 | 1230 | 2278 |
| Barðastrandar s. | 1264 | 1441 | 2705 |
| Ísafjarðar s. | 2220 | 2577 | 4797 |
| Stranda s. | 806 | 853 | 1659 |
| Húnavatns s. | 2311 | 2556 | 4867 |
| Skagafjarðar s. | 2111 | 2308 | 4419 |
| Eyjafjarðar s. | 2262 | 2452 | 4714 |
| Þingeyjar s. | 2799 | 2950 | 5749 |

| | karlar. | konur. | samtals. |
|---|---|---|---|
| Norður-Mula sýsla | 2015 | 2103 | 4118 |
| Suður-Múla s. | 1683 | 1810 | 3493 |
| Suður-umdæmið | 11498 | 12829 | 24327 |
| Vestur-umdæmið | 7980 | 9074 | 17054 |
| Norður- og Austur-umdæmið | 13181 | 14179 | 27360 |
| á öllu Íslandi | 32659 | 36082 | 68741. |

Beri maður þessar tölur saman við fólkstölu þá, sem taldist 1. október 1860, þá sýnir það sig strax í fljótu yfirliti, að þar sem tala karla og kvenna hefir á þessu tímabili fjölgað í flestum héruðum landsins, þá hefir hún samt í einstökum þeirra farið mínkandi. En þessu til frekari útskýríngar skal hér sýna, hve mikill munur er á þessu, og kemur það þá fram, að tala karlmanna frá 1. október 1860 og til ársloka 1865 hefir aukizt eða mínkað af hverju 100 á þenna hátt:

| | aukizt um | mínkað um |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu | 6.5 | » |
| Vestmannaeyja s. | » | 1.7 |
| Rángárvalla s. | 8.2 | » |
| Árness s. | 8.2 | » |
| Gullbríngu- og Kjósar s. | » | 0.2 |
| Reykjavíkur bæ | 0.9 | » |
| Borgarfjarðar s. | 6.8 | » |
| Mýra- og Hnappadals s. | 5.4 | » |
| Snæfellsness s. | » | 3.1 |
| Dala s. | 1.1 | » |
| Barðastrandar s. | » | 0.9 |
| Ísafjarðar s. | » | 1.2 |
| Stranda s. | 4.5 | » |
| Húnavatns s. | 2.8 | » |
| Skagafjarðar s. | 0.8 | » |
| Eyjafjarðar s. | 1.2 | » |

| | aukizt um | mínkað um |
|---|---|---|
| þíngeyjar s. . . . . . . . | 4.2 | » |
| Norður-Múla s. . . . . . . | » | 1.8 |
| Suður-Múla s. . . . . . . | » | » |
| Suður-umdæminu . . . . | 5.3 | » |
| Vestur-umdæminu . . . . | 0.4 | » |
| Norður- og Austur-umd. . . | 1.4 | » |
| á öllu Íslandi . . . . . . | 2.5 | »; |

en aptur á hinn bóginn hefir á sama tímabili tala kvenna breyzt þannig, að af hverju 100 hefir:

| | aukizt um | mínkað um |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu. . . . . | 5.1 | » |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 5.2 | » |
| Rángárvalla s. . . . . . | 5.8 | » |
| Árness s. . . . . . . . . | 5.1 | » |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . | 3.1 | » |
| Reykjavíkur bæ . . . . . | 3.6 | » |
| Borgarfjarðar s.. . . . . . | 6.7 | » |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 5.1 | » |
| Snæfellsness s. . . . . . | » | 1.0 |
| Dala s. . . . . . . . . | 3.7 | » |
| Barðastrandar s. . . . . | » | 0.7 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . . | » | 1.4 |
| Stranda s. . . . . . . . | 0.7 | » |
| Húnavatns s. . . . . . | 3.4 | » |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 1.1 | » |
| Eyjafjarðar s. . . . . . | 1.7 | » |
| þíngeyjar s. . . . . . . . | 4.9 | » |
| Norður-Múla s.. . . . . . | » | 1.4 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 1.7 | » |

| | aukizt um | mínkað um |
|---|---|---|
| Suður-umdæminu . . . . | 5.0 | » |
| Vestur-umdæminu . . . . | 0.7 | » |
| Norður- og Austur-umd. . | 2.1 | » |
| á öllu Íslandi . . . . . | 2.7 | » |

Yfirlit þetta sýnir, að þar sem tala karlmanna á þessu tímabili hefir fækkað í 6 sýslum, þá hefir þar á móti tala kvenna einúngis fækkað í 4 sýslum. En skoði maður fjölgunina, þá hafa karlar að tiltölu fjölgað mest í Rángárvalla og Árness sýslum, en minnst í Skagafjarðar sýslu; en konur aptur á móti hafa fjölgað mest í Borgarfjarðar sýslu, og minnst í Stranda sýslu.

# BÚNAÐAR-ÁSTAND Á ÍSLANDI

í fardögum 1865.

---

Skýrslur um búnaðar-ástand á Íslandi á ýmsum árum hafa optar verið prentaðar í ritum þessum, (smbr. I., bls. 58—73, 118—123, 480—487, II., II., bls. 31—220, 544—559, 852—891 og III., bls. 227—273, 393—445, 644—697 og 760—819), og viljum vèr þessu til framhalds hèr skýra frá því eins og það er talið að hafa verið í fardögum 1865.

Búnaðarskýrslur þær, sem vèr nú látum fylgja, eru samdar eptir skýrslum sýslumanna á Íslandi um þetta efni, og er tilhögunin á þeim að öllu leyti hin sama og við hefir verið höfð í ritum þessum fyrir hin síðustu ár. Hèr er því einnig sagt frá tölu nautpeníngs og sauðpeníngs í fardögum 1864, en eins og áður höfum vèr sleppt í skýrslum þessum þeim tveim atriðum, nefnilega að skýra frá tölu býla og þeirra sem tíunda, og er til þessa sú ástæða, að þessi atriði eru í skýrslum sýslumanna talin á svo ólíkan hátt eða þeim með öllu sleppt, að ekki er hægt að koma því saman. Þannig er báðum þessum atriðum með öllu sleppt í skýrslunum frá Gullbríngu- og Kjósar, Eyjafjarðar, Norður-Múla og Suður-Múla sýslum og svo frá Reykjavíkur bæ; í skýrslunum frá Skaptafells og Húnavatns sýslum eru taldar „byggðar jarðir", en í skýrslunum frá Rángárvalla, Árness, Borgarfjarðar, Mýra og Hnappadals, Snæfellsness, Dala, Barðastrandar, Ísafjarðar, Stranda, Skagafjarðar og Þíngeyjar sýslum eru „býli" talin. Meiri ósamkvæmni sýnir sig samt í hinu síðara atriði, því í skýrslunum eru ýmist taldir „bændur", „búendur og fjáreigendur", „búandi menn og búlausir sem telja fènað til búnaðartöflunnar", „búendur, verzlunarmenn, húsmenn og hjú", „gripeigendur", „húsfólk og hjú og verzlunarfólk" og „þeir sem gripi framtelja". Skýrslur amtmanna um þetta eru einnig nokkuð ólíkar, því í Suður-umdæminu er á þessu ári tala „býla" sögð að

vera 2751 (í fardögum 1864 voru þau talin 2009, smbr. III., bls. 761), en tala „tíundgjörenda" er sögð 3010 (2426 í fardögum 1864), og er ekki hægt að skilja í þeim geysi mikla mun, sem er á þessu; í Vestur-umdæminu er tala „býla" sögð 1571 (í fardögum 1864 eru þau talin 1390), en þar eru „gripeigendur" sagðir að vera 2004 (í fardögum 1864 voru þeir 2049), og sýnir sig þá einnig hèr töluverður munur, einkum á tölu býlanna; en í skýrslunni frá Norður- og Austur-umdæminu er gengið fram hjá báðum þessum atriðum.

Vèr látum svo út talað um þetta, sem optar hefir verið minnzt á án þess það hafi heppnazt að lagfæríng hafi komizt á, en skulum nú taka fyrir höfuðatriðin í skýrslunum, og gjöra við hvert þeirra nokkrar athugasemdir og samanburð við undanfarin ár.

---

## I. NAUTPENÍNGUR.

Skýrslurnar hèr á eptir bera það með sèr, að þó tala nautgripa á ári því, sem hèr ræðir um, hafi farið nokkuð mínkandi, þá hefir þó fækkunin hvergi nærri verið eins mikil og tvö næst undanfarin ár. Í fardögum 1864 var tala nautgripa nefnilega 20826 á öllu landinu, en í fardögum 1865 er tala þeirra sögð 20300, og hefir því fækkun nautpeníngs á þessu eina árið ekki verið nema 526 tals eða 2.5 af hverju hundraði á öllu landinu, (um fardagaárið 1863—64 var fækkunin 1658 tals eða 7.4 af hundr., og fardagaárið 1862—63: 1753 tals eða 7.2 af hundr., smbr. III., bls. 645 og 761). Mjög ólík hefir samt fækkunin á þessu ári verið í umdæmum landsins, því meðan hún varla er teljandi í Vestur-umdæminu og svo í Norður- og Austur-umdæminu, þá hefir hún verið töluverð í Suður-umdæminu. Nautpeníngur hefir nefnilega í umdæmum landsins fækkað á þessa leið:

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| í Suður-umdæminu . . . . | 480 | 5.4 |
| í Vestur-umdæminu . . . . | 10 | 0.2 |
| í Norður- og Austur-umd. . . | 36 | 0.5. |

Þó nú þannig sè töluverður munur á fækkuninni í umdæmum landsins, þá verður hann samt miklu meiri þegar skoðað er hvert

hèrað í landinu sèr, því þá kemur það fram, að tala nautpeníngs hefir á þessu ári að vísu fækkað í flestöllum sýslum en þó fjölgað nokkuð í sumum þeirra. Í þessum sýslum hefir nefnilega fækkað:

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . | 72 | 4.9 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 3 | 7.1 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 241 | 10.1 |
| Árness s. . . . . . . . | 117 | 4.5 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 11 | 0.9 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . | 1 | 2.0 |
| Borgarfjarðar sýslu . . . . | 35 | 3.5 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 45 | 6.2 |
| Dala s. . . . . . . . . | 22 | 2.9 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 20 | 2.1 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 72 | 7.4 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 71 | 7.4; |

en í þessum sýslum hefir tala nautpeníngs á þessu ári fjölgað, nefnilega í:

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| Mýra- og Hnappadals sýslu . | 2 | 0.2 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 50 | 6.8 |
| Stranda s. . . . . . . . | 25 | 7.3 |
| Húnavatns s. . . . . . . | 78 | 5.6 |
| Skagafjarðar s. . . . . . . | 14 | 0.9 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . | 15 | 1.5; |

og loks hefir tala nautpeníngs staðið í stað í Eyjafjarðar sýslu.

Þegar Vestmannaeyja sýsla og Reykjavíkur bær, sem hvort um sig ekki getur talizt nema hreppur, eru frá skilin, þá hefir nautpeníngur á þessu ári fækkað mest að tiltölu í Rángárvalla sýslu og þá í báðum Múla sýslunum (árið næst á undan í Húnavatns sýslu og í Dala sýslu), en minnst hefir fækkað í Gullbríngu- og Kjósar sýslu og þá í Ísafjarðar sýslu (árið næst á undan í báðum Múla sýslunum). Fjölgun nautpeníngs á þessu ári er þar á móti einúngis teljandi í Stranda, Barðastrandar og Húnavatns sýslum.

Á þessu ári, sem hèr ræðir um, hafa að tiltölu griðúngar og geldneyti eldri en veturgömul fækkað mest, það er að skilja um 116 eða 11.1 af hundraði (árið næst á undan 287 eða 21.5 af hundraði), og þessu næst kýr og kelfdar kvígur, nefnilega um 509 eða 2.8 af hundraði (undanfarið ár um 445 eða 2.4 af hundraði); en veturgamall nautpeníngur, sem hið undanfarna ár hafði fækkað svo tölurert (nefnilega um 926 eða 37.7 af hundraði, hefir á þessu ári fjölgað um 99 eða 5.2 af hundraði.

Skýrslurnar hèr á eptir bera það að vísu með sèr, hversu margt sè í hverjum hrepp og í hverri sýslu á landinu bæði af kúm, geldneytum og veturgömlum nautpeníngi; en til þess að gjöra þetta ljósara og til þess að hafa hægra yfirlit yfir það á einum stað, þá skal hèr sýna hlutfall það, sem í fardögum 1865 var milli þeirra þriggja flokka er nú voru taldir. Það kemur þá fram, að af hverju 100 nautpeníngs voru á þessu ári:

| | kýr og kvígur. | eldri geldneyti. | vetur-gamalt. |
|---|---|---|---|
| Skaptafells sýsla . . . . . . | 82.6 | 4.1 | 13.3 |
| Vestmannaeyja s. . . . . . | 97.4 | 2.6 | » |
| Rángárvalla s. . . . . . . | 90.0 | 1.5 | 8.5 |
| Árness s. . . . . . . . . | 89.2 | 2.0 | 8.8 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 86.4 | 2.0 | 11.6 |
| Reykjavíkur bær . . . . . . | 100.0 | » | » |
| Borgarfjarðar s. . . . . . . | 85.2 | 3.9 | 10.9 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 86.4 | 2.6 | 11.0 |
| Snæfellsness s. . . . . . . | 88.0 | 3.1 | 8.9 |
| Dala s. . . . . . . . . . | 85.7 | 5.9 | 8.4 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 82.9 | 5.7 | 11.4 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . . | 85.9 | 5.7 | 8.4 |
| Stranda s. . . . . . . . . | 82.7 | 4.1 | 13.2 |
| Húnavatns s. . . . . . . . | 82.6 | 5.5 | 11.9 |
| Skagafjarðar s. . . . . . . | 87.1 | 4.5 | 8.4 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . | 87.4 | 4.5 | 8.1 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . . | 85.5 | 3.9 | 10.6 |

| | kýr og kvígur. | eldri geldneyti. | vetur-gamalt. |
|---|---|---|---|
| Norður-Múla s. . . . . . | 72. 2 | 19. 1 | 8. 7 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 78. 8 | 10. 2 | 11. 0 |
| Suður-umdæmið . . . . . | 87. 5 | 2. 4 | 10. 1 |
| Vestur-umdæmið . . . . | 85. 5 | 4. 5 | 10. 0 |
| Norður- og Austur-umd. . . | 83. 2 | 7. 1 | 9. 7 |
| á öllu Íslandi . . . . . . | 85. 5 | 4. 6 | 9. 9. |

Eptir þessu sýnir það sig, þegar Vestmanneyja sýslu og Reykjavíkur bæ er sleppt, að af jafnmörgum nautpeníngi eru kýr og kelfdar kvígur á þessu ári flestar í Rángárvalla sýslu og fæstar í Norður-Múla sýslu; griðúngar og geldneyti, eldri en veturgömul, eru aptur á móti flest í Norður-Múla sýslu, en fæst í Rángárvalla sýslu; og loks er veturgamall nautpeníngur flestur í Skaptafells sýslu og fæstur í Eyjafjarðar sýslu. Þetta allt er mjög líkt og það var næst undanfarið ár (smbr. III., bls. 763—64).

Þá er enn eptir að bera tölu nautgripa á þessu ári saman við tölu þeirra á eldri tímum, og tökum vèr til þessa árið 1853. Við þenna samanburð lýsir það sèr þá, að nautpeníngur hefir fækkað töluvert á þeim 12 árum, sem síðan eru liðin. Í fardögum 1853 var nefnilega tala nautgripa á öllu landinu 23663, en í fardögum 1865 er hún ekki talin nema 20300; fækkun nautgripa á þessum 12 árum hefir því verið 3363 tals eða 14. 2 af hundraði hverju á öllu landinu. Mest hefir fækkunin verið í Suður-umdæminu, nefnilega um 2051 eða 19.8 af hundr., þá í Vestur-umdæminu, nefnilega um 872 eða 16.1 af hundr., en minnst í Norður- og Austurumdæminu, nefnilega einúngis um 440 eða 5. 6 af hundraði. Þó er það eðlilegt, að stærri mismunur kemur fram á þessu í hinum sèrstöku hèruðum landsins á þessu sama tímabili, því beri menn þau tvö umgetnu ár saman, þá hefir tala nautpeníngs um þessi 12 ár fjölgað eða fækkað á þann hátt, sem nú skal sýnt.

Fjölgað hefir nefnilega einúngis í:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Reykjavíkur bæ. . . . . . | 3 | 5.9 |
| Norður-Múla sýslu . . . . | 2 | 0.2; |

en aptur á móti hefir fækkað í:

| | | |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . | 324 | 18.8 |
| Vestmannaeyja s. . . . . . | 13 | 25.0 |
| Rángárvalla s. . . . . . . | 606 | 21.9 |
| Árness s. . . . . . . . | 605 | 19.3 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 180 | 13.2 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 326 | 25.1 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 257 | 19.6 |
| Snæfellsness s. . . . . . . | 222 | 24.7 |
| Dala s. . . . . . . . . . | 86 | 10.6 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 89 | 10.1 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 168 | 15.2 |
| Stranda s. . . . . . . . | 50 | 12.1 |
| Húnavatns s. . . . . . . | 183 | 11.1 |
| Skagafjarðar s. . . . . . . | 34 | 2.2 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . | 155 | 9.0 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . | 24 | 2.2 |
| Suður-Múla s. . . . . . . | 46 | 4.9. |

Sleppi maður einnig hèr Reykjavíkur bæ og Vestmannaeyja sýslu, þá er fjölgun nautpeníngs á þessu 12 ára tímabili ekki teljandi; en aptur á hinn bóginn hefir fækkun nautpeníngs á sama tímabili að tiltölu verið mest í Borgarfjarðar sýslu og þá í Snæfellsness sýslu, en minnst hefir fækkað í Skagafjarðar og Þíngeyjar sýslum og þá í Suður-Múla sýslu.

Á þessu tímabili er það einkum veturgamall nautpeníngur og geldneyti, sem að tiltölu hefir fækkað töluvert, því kýr og kelfdar kvígur hafa fækkað einúngis um 10.3 af hundrað, en griðúngar og geldneyti eldri en veturgömul hafa fækkað um 32.2 af hundr., og veturgamall nautpeníngur um 31.3 af hundraði.

---

## II. SAUÐFÈNAÐUR.

það er öllum kunnugt og hefir einnig áður í ritum þessum verið tekið fram, hversu mjög sauðfènaður, sem er aðalbjargræðisstofn Íslendínga og máttarstólpi fyrir öllum sveitabúnaði, hafi gengið af sèr á árunum 1856—1859 sökum hins skaðvænlega fjárkláða, og eru menjar þess hvergi nærri enn að fullu eyddar. Frá því um fardaga 1859 til sama tíma 1862 tók tala sauðfjárins að vísu ekki svo litlum framförum, en á árinu til fardaga 1863 fór henni heldur hnignandi, og á fardaga-árinu 1863—64 stóð hún að kalla mátti í stað (smbr. III., bls. 648 og 766); en á þessu ári, sem hèr ræðir um, hefir hún tekið álitlegum framförum, eins og skýrslurnar sjálfar bera með sèr og nú skal ljósara sýnt verða. Eptir skýrslunum taldist nefnilega svo til, að í fardögum 1861 væri fjártalan á öllu landinu 326,664, en um sama leyti 1862 var tala fjárins orðin 357,740, og hafði því sauðfè á því eina ári fjölgað um 31076 tals eða 9.5 af hundraði; í fardögum 1863 aptur á móti taldist fjártalan á öllu landinu ekki nema 349,289, og hafði því sauðfè á því ári aptur fækkað um 8451 tals eða 2.4 af hundraði; loks var fjártalan í fardögum 1864 sögð að vera 349,324, og hafði því sauðfè á því ári einúngis fjölgað um 35 tals, eða að kalla má staðið í stað, en um sama leyti 1865 er hún talin 381,578, og hefir þá sauðpeníngur á þessu ári fjölgað um 32254 eða 9.2 af hundraði, en þetta er álitlegur viðauki, og væri óskanda að það hèldist við. Samt er munurinn á þessu ári svo töluverður í hinum sèrstöku hèruðum og sveitum landsins, hvað fækkun eða fjölgun sauðfjárins snertir, að vèr getum ekki leidt hjá oss að skoða þetta atriði nokkuð ítarlegar í hinum einstöku landshlutum og skýra það gjörr en skýrslurnar sjálfar gjöra.

Taki maður þá fyrst hvert umdæmi í landinu sèr, þá hefir að vísu fjártalan á þessu ári aukizt í öllum þeim, en munurinn er samt töluverður, eins og nú skal sýnt; sauðfè hefir nefnilega fjölgað í:

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| Suður-umdæminu . . . . | 5109 | 5.5 |
| Vestur-umdæminu . . . . | 9309 | 14.3 |
| Norður- og Austur-umd. . | 17836 | 9.3; |

og hefir eptir þessu fjölgunin verið minnst í Suður-umdæminu bæði að tölunni til og eptir tiltölu, en mest hefir að tiltölu fjölgað í Vestur-umdæminu, þó fjölgunin að tölunni til hafi verið lángmest í Norður- og Austur-umdæminu.

Nokkuð á annan hátt verður þetta, skoði maður hverja sýslu sèr, því þá kemur það fram, að sauðfènaður hefir á þessu ári fjölgað í:

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . | 226 | 0.9 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 246 | 1.0 |
| Árness s. . . . . . . . . | 2253 | 8.5 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 1338 | 23.5 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . | 21 | 20.8 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 1209 | 11.2 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 3094 | 18.5 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 342 | 4.6 |
| Dala s. . . . . . . . . . | 1554 | 11.1 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 1792 | 20.7 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 1401 | 12.0 |
| Stranda s. . . . . . . . | 1126 | 18.0 |
| Húnavatns s. . . . . . . | 6856 | 16.7 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 3866 | 13.2 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . | 2693 | 10.9 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . | 3181 | 9.5 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 159 | 0.4 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 1081 | 4.0; |

en fækkað hefir einúngis í:

| | | |
|---|---|---|
| Vestmannaeyja sýslu . . . | 184 | 19.3. |

Þegar Reykjavíkur bær og Vestmannaeyja sýsla eru frá talin, þá hefir eptir þessu sauðfènaður fjölgað í öllum sýslum landsins.

Mest hefir að tiltölu fjölgað í Gullbríngu- og Kjósar sýslu (nær því um fjórða hluta) og þá í Barðastrandar sýslu, en minnst í Norður-Múla sýslu og þá í Skaptafells sýslu.

Mestur er þó munurinn á þessu í hreppum landsins, því á þessu ári hefir að vísu tala fjárins fjölgað í þessum 139 hreppum, sem nú skal telja, nefnilega:

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| í Skaptafells sýslu: | | |
| Kleifa hrepp | 280 | 4.3 |
| Leiðvallar | 357 | 7.0 |
| Dyrhóla | 127 | 2.6 |
| í Rángárvalla sýslu: | | |
| Holtamanna hrepp | 272 | 5.2 |
| Landmanna | 99 | 3.8 |
| Vesturlandeyja | 44 | 2.1 |
| Eyjafjalla | 162 | 4.0 |
| í Árness sýslu: | | |
| Villíngaholts hrepp | 38 | 2.7 |
| Hraungerðis | 159 | 10.7 |
| Gaulverjabæjar | 135 | 12.5 |
| Selvogs | 111 | 17.2 |
| Ölfus | 32 | 1.4 |
| Þíngvalla | 170 | 8.5 |
| Grímsness | 448 | 9.1 |
| Biskupstúngna | 603 | 13.9 |
| Hrunamanna | 574 | 18.4 |
| Gnúpverja | 101 | 6.9 |
| í Gullbríngu- og Kjósar sýslu: | | |
| Hafna hrepp | 30 | 9.6 |
| Rosmhvalaness | 168 | 32.0 |
| Vatnsleysustrandar | 308 | 100.0 |
| Álptaness | 23 | 5.2 |
| Seltjarnarness | 297 | 88.7 |
| Mosfellssveit | 25 | 2.4 |

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| Kjalarness hrepp . . . . . | 322 | 55. 6 |
| Kjósar . . . . . . . . . | 282 | 15. 8 |
| í Borgarfjarðar sýslu: | | |
| Akraness hrepp . . . . . | 33 | 5. 2 |
| Skilmanna . . . . . . . . | 72 | 14. 9 |
| Strandar . . . . . . . . . | 150 | 11. 1 |
| Leirár og Mela . . . . . | 99 | 6. 8 |
| Andakíls . . . . . . . . . | 237 | 14. 1 |
| Skorradals . . . . . . . . | 108 | 8. 7 |
| Lundareykjadals . . . . . | 201 | 18. 4 |
| Hálsa . . . . . . . . . . | 110 | 12. 4 |
| Reykholtsdals . . . . . . . | 199 | 10. 0 |
| í Mýra- og Hnappadals sýslu: | | |
| Hvítársíðu hrepp . . . . . | 223 | 15. 6 |
| Þverárhlíðar . . . . . . . | 204 | 18. 5 |
| Norðurárdals . . . . . . . | 313 | 23. 7 |
| Stafholtstúngna . . . . . | 506 | 21. 7 |
| Borgar . . . . . . . . . | 622 | 24. 4 |
| Álptaness . . . . . . . . | 382 | 18. 3 |
| Hraun . . . . . . . . . | 308 | 14. 8 |
| Kolbeinstaða . . . . . . . | 185 | 9. 9 |
| Eyja . . . . . . . . . . | 116 | 15. 3 |
| Miklaholts . . . . . . . . | 235 | 19. 9 |
| í Snæfellsness sýslu: | | |
| Skógarstrandar hrepp . . . | 268 | 18. 1 |
| Helgafellssveit . . . . . . | 55 | 2. 8 |
| Ness hrepp ytra . . . . . | 68 | 15. 3 |
| Breiðuvíkur hr. . . . . . . | 29 | 4. 2 |
| í Dala sýslu: | | |
| Haukadals hrepp . . . . . | 174 | 17. 4 |
| Hörðudals . . . . . . . . | 167 | 15. 1 |
| Miðdala . . . . . . . . . | 339 | 16. 0 |
| Laxárdals . . . . . . . . | 580 | 26. 5 |

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| Hvamms hrepp | 204 | 14.7 |
| Fellstrandar | 265 | 18.4 |
| í Barðastrandar sýslu: | | |
| Geiradals hrepp | 128 | 21.1 |
| Reykhóla | 343 | 25.5 |
| Gufudals | 283 | 27.9 |
| Múla | 94 | 14.6 |
| Flateyjar | 142 | 16.2 |
| Barðastrandar | 237 | 23.3 |
| Rauðasands | 167 | 11.8 |
| Tálknafjarðar | 108 | 20.7 |
| Dala | 122 | 18.9 |
| Suðurfjarða | 168 | 29.7 |
| í Ísafjarðar sýslu: | | |
| Auðkúlu hrepp | 45 | 6.7 |
| Mýra | 211 | 16.2 |
| Mosvalla | 125 | 10.5 |
| Suðureyrar | 111 | 25.0 |
| Hóls | 101 | 25.2 |
| Eyrar | 280 | 43.9 |
| Súðavíkur | 120 | 13.3 |
| Ögur | 146 | 17.1 |
| Reykjarfjarðar | 161 | 10.0 |
| Nauteyrar | 44 | 2.9 |
| Snæfjalla | 54 | 9.5 |
| Slèttu | 63 | 16.4 |
| í Stranda sýslu: | | |
| Bæjar hrepp | 344 | 23.1 |
| Broddaness | 153 | 15.4 |
| Kirkjubóls | 88 | 10.7 |
| Hrófbergs | 185 | 21.2 |
| Kaldrananess | 193 | 17.2 |
| Árness | 163 | 17.1 |

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| í Húnavatns sýslu: | | |
| Vindhælis hrepp . . . . . | 672 | 16.9 |
| Engihlíðar . . . . . . . . | 322 | 14.7 |
| Bólstaðarhlíðar . . . . . | 1168 | 29.4 |
| Svínavatns . . . . . . . . | 391 | 7.5 |
| Torfalækjar . . . . . . . . | 558 | 20.0 |
| Sveinstaða . . . . . . . . | 453 | 12.8 |
| Áss . . . . . . . . . . | 163 | 4.7 |
| þorkelshóls . . . . . . . . | 530 | 13.4 |
| þverár . . . . . . . . . | 482 | 14.9 |
| Kirkjuhvamms . . . . . . . | 558 | 23.1 |
| Torfastaða . . . . . . . . | 1132 | 22.6 |
| Staðar . . . . . . . . . | 427 | 29 6 |
| í Skagafjarðar sýslu: | | |
| Holts hrepp . . . . . . . | 261 | 11.3 |
| Fells . . . . . . . . . . | 93 | 12.0 |
| Hofs . . . . . . . . . . | 329 | 17.8 |
| Hóla . . . . . . . . . . | 541 | 22.3 |
| Viðvíkur . . . . . . . . . | 36 | 1.8 |
| Akra . . . . . . . . . . | 547 | 11.6 |
| Lýtíngstaða . . . . . . . | 757 | 15.0 |
| Seilu . . . . . . . . . . | 258 | 8.5 |
| Staðar . . . . . . . . . | 198 | 8.9 |
| Sauðár . . . . . . . . . | 339 | 20.7 |
| Skefilstaða . . . . . . . . | 436 | 29.9 |
| Rípur . . . . . . . . . | 71 | 4.0 |
| í Eyjafjarðar sýslu: | | |
| Aungulstaða hrepp . . . . | 230 | 8.2 |
| Saurbæjar . . . . . . . . | 155 | 3.0 |
| Hrafnagils . . . . . . . . | 337 | 13.0 |
| Glæsibæjar . . . . . . . . | 460 | 17.2 |
| Skriðu . . . . . . . . . | 440 | 11.3 |
| Arnarness . . . . . . . . | 366 | 13.1 |

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| Vallna hrepp . . . . . . | 456 | 13.8 |
| þóroddstaða . . . . . . | 158 | 29.3 |
| Hvanneyrar . . . . . . | 90 | 13.3 |
| Grímseyjar . . . , . . . | 1 | 0.5 |
| í þíngeyjar sýslu: | | |
| Sauðaness hrepp . . . . . | 276 | 9.5 |
| Svalbarðs . . . . . . . . | 44 | 1.6 |
| Presthóla . . . . . . . . | 287 | 19.8 |
| Skinnastaða . . . . . . . | 463 | 19.0 |
| Kelduness . . . . . . . . | 309 | 19.2 |
| Húsavíkur . . . , . . . | 340 | 18.3 |
| Skútustaða . . . . . . . . | 96 | 3.2 |
| Helgastaða . . . . . . . . | 327 | 6.6 |
| Ljósavatns . . . . . . . . | 90 | 1.7 |
| Háls . . . . . . . . . . . | 577 | 14.7 |
| Grýtubakka . . . . . . . . | 246 | 10.8 |
| Svalbarðstrandar . . . . . | 126 | 11.2 |
| í Norður-Múla sýslu: | | |
| Fljótsdals hrepp . . . . . | 267 | 5.0 |
| Skeggjastaða . . . . . . . | 180 | 11.5 |
| Hjaltastaðar . . . . . . . . | 140 | 4.0 |
| Borgarfjarðar . . . . . . . | 148 | 7.1 |
| í Suðurmúla sýslu: | | |
| Geithellna hrepp . . . . . | 295 | 14.6 |
| Beruness . . . . . . . . | 153 | 9.2 |
| Breiðdals . . . . . . . . | 318 | 6.9 |
| Fáskrúðsfjarðar . . . . . | 366 | 15.5 |
| Reyðarfjarðar . . . . . . . | 137 | 3.9 |
| Mjóafjarðar . . . . . . . . | 3 | 0.2 |
| Skriðdals . . . . . . . . | 170 | 7.7. |

En aptur á hinn bóginn hefir fjártalan fækkað einúngis í þessum 28 hreppum, nefnilega:

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| í Skaptafells sýslu: | | |
| Bæjar hrepp | 90 | 5.1 |
| Bjarnaness | 239 | 9.3 |
| Borgarhafnar | 117 | 12.2 |
| Hofs | 92 | 5.2 |
| í Rángárvalla sýslu: | | |
| Rángárvalla hrepp | 191 | 4.4 |
| Hvol | 50 | 2.9 |
| Fljótshlíðar | 87 | 2.8 |
| Austurlandeyja | 3 | 0.1 |
| í Árness sýslu: | | |
| Sandvíkur hrepp | 12 | 1.4 |
| Stokkseyrar | 24 | 2.1 |
| Skeiða | 82 | 4.9 |
| í Gullbríngu- og Kjósar sýslu: | | |
| Grindavíkur hrepp | 117 | 31.5 |
| í Snæfellsness sýslu: | | |
| Eyrarsveit | 55 | 5.4 |
| Ness hrepp innra | 18 | 3.2 |
| Staðarsveit | 5 | 0.4 |
| í Dala sýslu: | | |
| Saurbæjar hrepp | 2 | 0.1 |
| Skarðstrandar | 173 | 6.3 |
| í Ísafjarðar sýslu: | | |
| Þíngeyrar hrepp | 7 | 0.9 |
| Grunnavíkur | 53 | 13.2 |
| í Norður-Múla sýslu: | | |
| Fellna hrepp | 15 | 0.4 |
| Túngu | 59 | 1.6 |
| Jökulsdals og Hlíðar | 417 | 6.0 |
| Vopnafjarðar | 35 | 0.5 |
| Loðmundarfjarðar | 10 | 1.1 |
| Seyðisfjarðar | 40 | 3.0 |

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| í Suður-Múla sýslu: | | |
| Norðfjarðar hrepp . . . . | 107 | 4.9 |
| Eyða . . . . . . . . . . | 151 | 5.4 |
| Vallna . . . . . . . . . | 103 | 2.2. |

Yfirlit þessi sýna, hversu mikill munur er bæði á fjölgun og fækkun sauðfjárins í hinum einstöku hreppum á þessu eina ári, sem hèr ræðir um. Mest hefir sauðpeníngur á þessu ári að tiltölu fjölgað í Vatnsleysustrandar og Seltjarnarness hreppum í Gullbríngu- og Kjósar sýslu (100.0 af hundraði, eða jafnmikið og áður var, og 88.7 af hundraði, eða hèrumbil um níu tíundu hluti) og þá í Kjalarness hrepp í Gullbríngu- og Kjósar sýslu og í Eyrar hrepp í Ísafjarðar sýslu (55.6 af hundraði, eða um rúman helmíng, og 43.9 af hundraði eða varla um helmíng), en minnst hefir fjölgunin að tiltölu verið í Mjóafjarðar hrepp í Suður-Múla sýslu (ekki nema 0.2 af hundraði eða hèrumbil 2 af 1000) og þá í Grímseyjar hrepp í Eyjafjarðar sýslu (ekki nema 0.5 af hundraði eða hèrumbil 5 af 1000). Aptur á hinn bóginn hefir tala sauðfjárins á þessu sama ári að tiltölu fækkað lángmest í Grindavíkur hrepp í Gullbríngu- og Kjósar sýslu (31.5 af hundraði, eða nær því um þriðjúng), og þá í Grunnavíkur hrepp í Ísafjarðar sýslu (13.2 af hundraði eða hèrumbil um sjöunda hluta); en minnst hefir fækkað í Austurlandeyja hrepp í Rángárvalla sýslu og í Saurbæjar hrepp í Dala sýslu (ekki nema um 0.1 af hundraði, eða hèrumbil 1 af 1000), og þá í Staðarsveit í Snæfellsness sýslu og í Fellna hrepp í Norður-Múla sýslu (um 0.4 af hundraði, eða hèrumbil 4 af 1000).

Á næst undanförnu ári, til fardaga 1864, voru það ær með lömbum og sauðir, sem höfðu fjölgað nokkuð, þar sem aptur á móti gemlíngar og þó einkum geldar ær höfðu fækkað (smbr. III., bls. 774), en á þessu ári, sem hèr ræðir um, á hið gagnstæða sèr einmitt stað. Beri maður nefnilega árin 1864 og 1865 saman, þá hafa ær með lömbum fækkað um 6936 tals eða að tiltölu 3.9 af hundraði, og sauðir og hrútar, eldri en veturgamlir, um 441 tals eða að tiltölu 0.7 af hundraði; en á hinn bóginn hafa geldar ær

fjölgað um 9013 tals, eða að tiltölu um 53.4 af hundraði, en gemlíngar um 30618 tals, eða 32.7 af hundraði.

þessu næst skal, eins og gjört var við nautpeníng hèr að framan, sýna hlutfall það, sem í hverju hèraði á landinu var í fardögum 1865 milli þeirra fjögra flokka, sem sauðfènaði í skýrslunum er skipt í, og kemur það þá fram, að af hverju 100 sauðpeníngs var á þessu ári þannig skipt:

| | ær með lömbum. | ær geldar. | sauðir og hrútar. | gemlíngar. |
|---|---|---|---|---|
| Skaptafells sýsla . . . . | 41.1 | 7.4 | 19.7 | 31.8 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 33.5 | 23.1 | 14.4 | 29.0 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 43.6 | 7.1 | 11.3 | 38.0 |
| Árness s. . . . . . . | 43.4 | 4.8 | 11.0 | 40.8 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . | 45.7 | 4.6 | 4.4 | 45.3 |
| Reykjavíkur bær . . . . | 54.9 | 10.7 | » | 34.4 |
| Borgarfjarðar s. . . . . | 45.5 | 10.2 | 6.9 | 37.4 |
| Mýra- og Hnappadals s. . | 47.8 | 7.4 | 11.0 | 33.8 |
| Snæfellsness s. . . . . | 53.3 | 10.1 | 7.0 | 29.6 |
| Dala s. . . . . . . . . | 47.9 | 9.0 | 10.7 | 32.4 |
| Barðastrandar s. . . . . | 48.0 | 6.3 | 7.5 | 38.2 |
| Ísafjarðar s. . . . . . | 52.1 | 3.1 | 8.4 | 36.4 |
| Stranda s. . . . . . . | 59.5 | 4.9 | 4.6 | 31.0 |
| Húnavatns s. . . . . . | 43.9 | 6.9 | 17.9 | 31.3 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 46.2 | 5.2 | 19.7 | 58.9 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . | 54.5 | 4.0 | 14.0 | 27.5 |
| þíngeyjar s. . . . . . | 46.8 | 6.4 | 18.0 | 28.8 |
| Norður-Múla s. . . . . | 38.1 | 8.9 | 22.1 | 30.9 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 36.0 | 8.6 | 25.5 | 29.9 |
| Suður-umdæmið . . . . | 43.3 | 6.8 | 12.2 | 37.7 |
| Vestur-umdæmið . . . . | 50.3 | 6.9 | 8.9 | 33.9 |
| Norður- og Austur-umd. . | 44.1 | 6.7 | 19.5 | 29.7 |
| á öllu Íslandi . . . . . | 45.1 | 6.8 | 15.5 | 32.6. |

þetta sýnir, þegar Vestmannaeyja sýsla og Reykjavíkur bær eru frá skilin, að af jafn mörgu sauðfè eru ær með lömbum á þessu ári flestar í Stranda sýslu og fæstar í Suður-Múla sýslu (eins og næst undanfarið ár); geldar ær aptur á móti eru flestar í Borgarfjarðar sýslu, en fæstar í Ísafjarðar sýslu; þá eru sauðir og hrútar, eldri en veturgamlir, flestir í Suður-Múla sýslu, en fæstir í Gullbríngu- og Kjósar sýslu (eins og næst undanfarið ár); og loks eru gemlíngar flestir í Gullbríngu- og Kjósar sýslu, en fæstir í Eyjafjarðar sýslu.

Beri maður loks tölu sauðfjárins á öllu landinu á þessu ári saman við tölu þess á eldri tíma, þá gefur það að skilja, eptir því sem hefir verið sýnt bæði hèr og að undanförnu í ritum þessum (smbr. einkum II., bls. 855—860, III., bls. 405 og bls. 656), að æði mikið muni vanta á að tala sauðfjárins í landinu enn þá hafi náð sèr, til þess sem hún var í fardögum 1853. Á því ári taldist nefnilega svo til, að á öllu Íslandi væri alls 516853 fjár, en í fardögum 1865 var fjártalan ekki nema 381578; sauðfènaður hefir því á þessum 12 árum, sem síðan eru liðin, fækkað á öllu landinu um 135275 tals, eða að tiltölu um 26.2 af hundraði (um rúman fjórða hluta). Mest kveður að þessari fækkun að tiltölu í Suðurumdæminu og í Vestur-umdæminu, þar sem nefnilega í því fyrra hefir fækkað um 46053 tals eða 32.0 af hundr. (nær því um þriðjúng), og í hinu síðara um 31882 tals eða 30.1 af hundr., en minnst hefir fækkað að tiltölu í Norður- og Austur-umdæminu, nefnilega um 57340 tals eða 21.5 af hundraði (rúmlega um fimta hluta). Það gefur samt að skilja, að býsna mikill munur er á þessu í hinum sèrstöku hèruðum landsins, því það verður ofaná, að á þessum 12 árum frá fardögum 1853 til fardaga 1865, hefir fjártalan þó hækkað í Vestmannaeyja sýslu og í Reykjavíkur bæ, nefnilega á Vestmannaeyjum um 8 tals eða 1.1 af hundr., og í Reykjavík um 18 tals eða 17.3 af hundr., en þar á móti hefir hún fækkað í öllum hinum sýslum landsins á þann hátt, sem nú skal sýnt, nefnilega í:

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . | 5442 | 18.7 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 13058 | 33.8 |
| Árness s. . . . . . . . | 17842 | 38.6 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . | 4954 | 41.4 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 4783 | 28.5 |
| Mýra og Hnappadals s. . . | 7631 | 27.8 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 5183 | 40.1 |
| Dala s. . . . . . . . . | 3299 | 17.5 |
| Barðastrandar s. . . . . | 6431 | 38.1 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 6627 | 33.6 |
| Stranda s. . . . . . . | 2711 | 27.0 |
| Húnavatns s. . . . . . | 9069 | 15.9 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 5609 | 11.9 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . | 8730 | 24.1 |
| þíngeyjar s. . . . . . . | 13062 | 26.3 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 13416 | 27.2 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 7454 | 20.8. |

Af þessu sýnir það sig þá, að á þessu 12 ára tímabili hefir fjárfækkunin að tölunni verið mest í Árness sýslu, en að tiltölu í Gullbríngu- og Kjósar sýslu, því þar hefir fækkað um 41.4 af hundraði, eða um rúma tvo fimtu hluti, og þá í Snæfellsness sýslu, hvar lítið vantar í að fækkunin hafi verið eins mikil. Aptur á hinn bóginn hefir fækkunin á þessu tímabili verið lángminnst í Skagafjarðar sýslu, því þar hefir fè einúngis fækkað rúmlega um tíunda hluta, og þá í Húnavatns sýslu, hvar fækkunin hefir verið tæpur einn sjötti hluti.

það eru einkum eldri sauðir, sem á þessu tímabili hafa fækkað töluvert; ær með lömbum hafa nefnilega fækkað að tiltölu um 23.2 af hundraði, geldar ær um 25.0 af hundraði, sauðir og hrútar eldri en veturgamlir um 42.0 af hundraði (nær því um helmíng), og gemlíngar einúngis um 18.6 af hundraði.

---

## III. GEITFÈ.

Eins og undanfarin ár hefir geitfè á þessu ári, sem hèr ræðir um, farið nokkuð mínkandi. Í fardögum 1864 er nefnilega þó talið að verið hafi á öllu Íslandi 348 geitfjár, en um sama leyti 1865 er ekki talið nema 322, og hefir það því á þessu eina ári fækkað um 26 tals, eða að tiltölu um 7.5 af hundraði, og er það töluvert minna en næst undanfarið ár (smbr. III., bls. 777). Þó verður fækkun þess ennþá meiri, þegar miðað er við árið 1853; á þessu ári taldist nefnilega 914 geitfjár á öllu landinu, og hefir það því á þeim 12 árum til fardaga 1865 fækkað um 592 tals, eða að tiltölu um 64.8 af hundraði hverju. Þó er mikill munur á þessu í hèruðum þeim, sem geitfè er talið í á þessum árum, og má bezt sjá það af því sem nú skal segja. Geitfè er nefnilega talið í þessum sýslum á þenna hátt:

| | árið 1853. | árið 1865. |
|---|---|---|
| Gullbríngu- og Kjósar sýslu . | 8 | » |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 4 | » |
| Mýra- og Hnappadals s. . . . | » | 8 |
| Dala s. . . . . . . . . . . | 44 | 36 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 21 | » |
| Húnavatns s. . . . . . . . | 16 | » |
| Skagafjarðar s. . . . . . . | 32 | 10 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . | 51 | 5 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . . . | 732 | 263 |
| Norður-Múla s. . . . . . . | 6 | ». |

Sýnir þetta meðal annars, að bæði er geitfè talið í færri sýslum árið 1865 en árið 1853, og sömuleiðis að tala þess hefir farið mínkandi í sèrhverri sýslu, en mest þó í Þíngeyjar sýslu, þar sem það á þessu 12 ára tímabili þar hefir fækkað um 469 tals, eða að tiltölu um 64.1 af hverju hundraði. Að öðru leyti er geitfè varla teljandi nema í Þíngeyjar sýslu, því af öllu geitfè á Íslandi í fardögum 1865 voru að tiltölu 81.7 af hundraði hverju í henni einni.

## IV. HROSS.

Áður í ritum þessum (smbr. III., bls. 658 og bls 778) hefir verið skýrt frá því, að hross fjölguðu að vísu ekki svo lítið á Íslandi þau 3 árin frá fardögum 1859 til fardaga 1862, en að tala þeirra þar á móti fækkaði töluvert á árunum frá fardögum 1862 til fardaga 1864, og þó einkum fardagaárið 1862—1863. Einnig á ári því, sem hèr ræðir um, hafa hross fækkað á Íslandi, en þó hvergi nærri eins mikið og næst undanfarið ár. Í fardögum 1864 var tala hrossa á öllu landinu nefnilega 36071, en um sama leyti 1865 var tala þeirra einúngis 35544, og hafa því hross á þessu eina ári ekki fækkað nema um 527 tals, eða að tiltölu um 1.5 af hverju hundraði (árið næst á undan var fækkunin þó að tiltölu 3.4 af hundr.). Mjög mikill munur er samt á þessu í umdæmum landsins, þar sem kalla má að hross einúngis hafi fækkað nokkuð til muna í Suður-umdæminu. Fækkun hrossa á þessu ári hefir nefnilega verið þannig, að í Suður-umdæminu hafa þau fækkað um 501 tals eða 3.2 að tiltölu af hundraði; í Vestur-umdæminu um 43 tals eða 0.7 af hundr., en í Norður- og Austur-umdæminu ekki nema um 17 tals eða 0.1 af hundraði, og er það varla teljandi.

Skoði maður aptur á móti hverja sýslu á landinu á þessu ári, þá verður þó munurinn enn þá meiri, því þá verður það þó ofaná, að tala hrossa á þessu eina ári hefir fjölgað í 6 sýslum landsins og svo í Reykjavíkur bæ á þann hátt sem nú skal segja, nefnilega í:

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| Vestmannaeyja sýslu . . . . | 6 | 14.6 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 11 | 0.7 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . . | 10 | 3.8 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 16 | 2.6 |
| Stranda s. . . . . . . . . | 35 | 4.9 |
| Húnavatns s. . . . . . . . | 72 | 1.7 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . . | 18 | 1.0; |

en á hinn bóginn hefir tala þeirra fækkað í hinum 12 sýslum í landinu, nefnilega í:

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . | 95 | 3.5 |
| Rángárvalla s. . . . . . . . | 353 | 7.0 |
| Árness s. . . . . . . . . . | 7 | 0.2 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . . . | 73 | 3.7 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . . | 10 | 0.5 |
| Snæfellsness s. . . . . . . . | 43 | 5.0 |
| Dala s. . . . . . . . . . | 6 | 0.5 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . . . | 35 | 4.3 |
| Skagafjarðar s. . . . . . . . | 29 | 0.9 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . . | 2 | 0.1 |
| Norður-Múla s. . . . . . . . | 13 | 0.8 |
| Suður-Múla s. . . . . . . . | 29 | 2.6. |

Fjölgun hrossa á þessu ári hefir því, þegar Vestmannaeyja sýsla og Reykjavíkur bær eru frá talin, að tiltölu verið mest í Stranda sýslu, en minnst í Gullbríngu- og Kjósar sýslu. Aptur á hinn bóginn hafa hross á þessu ári að tiltölu fækkað lángmest í Rángárvalla sýslu (7.0 af hundraði, eða hérumbil fjórtandi hluti), og þá í Snæfellsness sýslu (5.0 af hundraði, eða réttur tuttugasti hluti); en minnst hefir að tiltölu fækkað í Eyjafjarðar sýslu (nefnilega ekki nema um 0.1 af hundraði, eða hérumbil 1 af 1000), og þá í Árness sýslu (0 2 af hundr. eða 2 af 1000).

Fardagaárið 1863—1864 voru það einkum úng hross sem að tiltölu höfðu fækkað töluvert, þar sem þó eldri hestar höfðu fjölgað nokkuð lítið (smbr. III., bls. 780). þetta á sér einnig stað á þessu ári, sem hér ræðir um, því beri maður saman árin 1864 og 1865, þá sýnir það sig, að þar sem hestar og hryssur, fjögra vetra og eldri, hafa fjölgað lítið eitt, nefnilega um 57 tals, eða 0.2 af hundraði að tiltölu, þá hafa aptur á hinn bóginn trippi, veturgömul til þriggja vetra, fækkað um 584 tals, eða 6.5 af hundraði.

Hlutfall það, sem í fardögum 1865 var í hverju héraði landsins milli beggja þeirra flokka, sem hross er skipt í, var þannig, að af hverju 100 hrossa á þessu ári voru:

| | hestar og hryssur. | trippi. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýsla . . . . | 77.5 | 22.5 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 89.4 | 10.6 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 66.0 | 34.0 |
| Árness s.. . . . . . . . | 73.9 | 26.1 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . | 74.0 | 26.0 |
| Reykjavíkur bær . . . . | 73.0 | 27.0 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 62.3 | 37.7 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 74.5 | 25.5 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 81.2 | 18.8 |
| Dala s. . . . . . . . . | 83.5 | 16.5 |
| Barðastrandar s. . . . . | 85.4 | 14.6 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 91.0 | 9.0 |
| Stranda s. . . . . . . . | 91.8 | 8.2 |
| Húnavatns. s. . . . . . | 75.1 | 24.9 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 69.5 | 30.5 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . | 80.3 | 19.7 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . . | 92.9 | 7.1 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 91.6 | 8.4 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 91.0 | 9.0 |
| Suður-umdæmið . . . . | 70.7 | 29.3 |
| Vestur-umdæmið . . . . | 82.3 | 17.7 |
| Norður- og Austur-umd. . | 80.1 | 19.9 |
| á öllu Íslandi . . . . . . . | 76.5 | 23.5. |

Sè Vestmannaeyja sýsla og Reykjavíkur bær frá skilin, þá sýnir þetta, að af jafnmörgum hrossum voru á þessu ári hestar og hryssur, fjögra-vetra og eldri, flestir í Þíngeyjar sýslu og fæstir í Borgarfjarðar sýslu; en á hinn bóginn voru trippi veturgömul til þriggja vetra flest í Borgarfjarðar sýslu og fæst í Þíngeyjar sýslu.

Loks er eptir að jafna tölu hrossa á þessu ári saman við

tölu þeirra á eldri tímum. Sè þetta nú gjört, og tala hrossa á landinu í fardögum 1865 borin saman t. a. m. við tölu þeirra í fardögum 1853, þá gefur það að skilja, eptir því sem nú þegar hefir verið sagt, að tala þeirra mun hafa fækkað töluvert á þeim 12 árum, sem síðan eru liðin. Í fardögum 1853 var nefnilega tala hrossa á öllu Íslandi 40,485, en um sama leyti 1865 er tala þeirra ekki nema 35,544, og hafa þau því á þessu tímabili fækkað 4941 tals, eða að tiltölu 12.2 af hundraði. Mest hefir fækkunin að tiltölu verið í Vestur-umdæminu, nefnilega 17.1 af hundr., þá í Suður-umdæminu, eða 13.0 af hundr., - en minnst í Norður- og Austur-umdæminu, nefnilega ekki nema 8.9 af hundraði. Meiri er samt munurinn á þessu í sýslum landsins, því á þessu 12 ára tímabili hefir þó hrossum fjölgað í Reykjavíkur bæ 76 tals eða að tiltölu 39.2 af hundraði, en í öllum sýslum landsins hafa hross á þessu tímabili fækkað meir eða minna, nefnilega í:

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . | 473 | 15.5 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 2 | 4.1 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 624 | 11.8 |
| Árness s. . . . . . . . | 648 | 13.5 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 267 | 14.2 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 325 | 14.7 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 385 | 15.5 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 411 | 33.4 |
| Dala s. . . . . . . . . | 205 | 13.8 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 124 | 16.3 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 130 | 14.4 |
| Stranda s. . . . . . . . . | 52 | 6.5 |
| Húnavatns s. . . . . . . | 361 | 7.8 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 108 | 3.3 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . | 379 | 15.6 |
| þíngeyjar s. . . . . . . | 282 | 13.0 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 82 | 5.1 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 159 | 12.8. |

þegar Vestmannaeyja sýsla er frá talin, þá hafa eptir þessu hross á þessum 12 árum að tiltölu fækkað lángmest í Snæfellsness sýslu (um 33.4 af hundraði, eða um rèttan þriðjúng), og þá í Barðastrandar sýslu (16.3 af hundraði, eða hèrumbil um sjöttúng); en minnst hefir fækkunin að tiltölu verið í Skagafjarðar sýslu (ekki nema 3.3 af hundr., eða hèrumbil 33 af 1000), og þá í Norður-Múla sýslu (5.1 af hundraði, eða tuttugasti hluti).

Einkum eru það úng hross, sem á þessu tímabili hafa fækkað töluvert á Íslandi, því hestar og hryssur, fjögra vetra og eldri, hafa einúngis fækkað að tiltölu um 7.0 af hverju hundraði, en aptur á móti hafa trippi, veturgömul til þrèvetra, fækkað um 25.7 af hundraði, eða um rúman fjórða hluta.

---

Hèr að framan hefir nú verið sýnt, að tala nautgripa og hrossa hefir fækkað ekki svo lítið í landinu á þessu eina ári frá fardögum 1864 til sama tíma 1865, en sauðfènaður hefir þar á móti á sama ári fjölgað töluvert, og höfum vèr reynt að skýra þessi atriði svo vel sem oss var unnt. það er þá nú eptir að sýna, hvernig hin ýmsu hèruð í landinu sín á milli standa á þessu sama ári með tilliti til gripa og fènaðar, en þetta skal eins og að undanförnu sýna með þrennskonar aðferð, nefnilega með því, að bera gripatölu saman við fólkstölu, flatarmál hèraða og dýrleika á jörðum (smbr. III., bls. 230, 239, 242, 410—411, 661—664 og 783—86). þess skal getið, að í samanburði þessum er brúkuð fólkstala sú, sem eptir skýrslum presta um fædda og andaða á Íslandi telst að verið hafi við árslokin 1864, en flatarmálið er tekið einúngis á byggðu landi (smbr. I., bls. 106), og jarða dýrleikinn eptir hinni nýju jarðabók frá 1861.

Fyrst tökum vèr þá fólkstöluna til samanburðar, og kemur það þá fram, að í fardögum 1865 í hverri sýslu, í hverju umdæmi og á öllu landinu hafi komið á hverja 10 manns af fólkstölunni:

| | nautgripir. | sauðfè. | hross. |
|---|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . | 3.9 | 65.3 | 7.1 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 0.8 | 15.2 | 0.9 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 4.1 | 48.2 | 8.8 |
| Árness s. . . . . . . . | 4.5 | 50.8 | 7.4 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . | 2.3 | 13.9 | 3.2 |
| Reykjavíkur bæ . . . . | 0.4 | 0.8 | 1.8 |
| Borgarfjarðar s. . . . . | 4.1 | 50.9 | 8.0 |
| Mýra- og Hnappadals s. . | 3.7 | 70.9 | 7.5 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 2.4 | 27.5 | 7.5 |
| Dala s. . . . . . . . | 3.2 | 68.1 | 5.6 |
| Barðastrandar s. . . . . | 2.9 | 39.7 | 2.4 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 2.0 | 27.4 | 1.6 |
| Stranda s. . . . . . . | 2.2 | 45.4 | 4.6 |
| Húnavatns s. . . . . . | 3.0 | 98.3 | 8.1 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 3.5 | 74.8 | 7.2 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . | 3.4 | 58.9 | 4.4 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . | 1.8 | 64.8 | 3.3 |
| Norður-Múla s. . . . . | 2.2 | 88.0 | 3.7 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 2.6 | 82.8 | 3.2 |
| Suður-umdæminu . . . . | 3.5 | 40.8 | 6.3 |
| Vestur-umdæminu . . . . | 2.6 | 43.6 | 3.7 |
| Norður- og Austur-umd. . | 2.7 | 77.2 | 5.2 |
| á öllu Íslandi . . . . . | 3.0 | 56.1 | 5.2. |

Taki maður í annan stað flatarmálið, þá koma á þessu ári á hverja □ mílu af byggðu landi:

| | nautgripir. | sauðfè. | hross. |
|---|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . | 31 | 526 | 57 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 130 | 2567 | 157 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 47 | 557 | 101 |
| Árness s. . . . . . . . | 42 | 478 | 69 |

| | nautgripir. | sauðfè. | hross. |
|---|---|---|---|
| Gullbríngu- og Kjósar sýslu[1] . | 51 | 305 | 81 |
| Borgarfjarðar s. . . . . | 54 | 668 | 105 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 38 | 707 | 75 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 34 | 386 | 41 |
| Dala s. . . . . . . . | 29 | 624 | 51 |
| Barðastrandar s. . . . . | 33 | 435 | 27 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 27 | 374 | 22 |
| Stranda s. . . . . . . | 23 | 461 | 47 |
| Húnavatns s. . . . . . . | 30 | 980 | 87 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 41 | 870 | 83 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . | 33 | 571 | 43 |
| þíngeyjar s. . . . . . . | 8 | 276 | 14 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 9 | 358 | 15 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 16 | 516 | 20 |
| Suður-umdæminu . . . . | 42 | 509 | 79 |
| Vestur-umdæminu . . . . | 31 | 500 | 43 |
| Norður- og Austur-umd. . | 17 | 494 | 33 |
| á öllu Íslandi . . . . . | 27 | 499 | 47. |

Sè loks jarðadýrleikinn tekinn til samanburðar, þá koma á þessu ári á hver 100 jarðarhundruð:

| | nautgripir. | sauðfè. | hross. |
|---|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . | 46 | 773 | 84 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 10 | 198 | 12 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 29 | 343 | 62 |
| Árness s. . . . . . . . | 29 | 333 | 48 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . | 24 | 138 | 36 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 26 | 321 | 50 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 25 | 463 | 49 |

[1]) Hèr er Reykjavíkur bær talinn með Gullbríngu- og Kjósar sýslu; og sama er einnig gjört í næsta yfirliti hèr á eptir.

| | nautgripir. | sauðfé. | hross. |
|---|---|---|---|
| Snæfellsness sýslu . . . . | 21 | 236 | 25 |
| Dala s. . . . . . . . . . | 18 | 422 | 35 |
| Barðastrandar s. . . . . | 20 | 269 | 17 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 24 | 346 | 20 |
| Stranda s. . . . . . . . . | 23 | 475 | 48 |
| Húnavatns s. . . . . . . . | 20 | 666 | 59 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 20 | 431 | 41 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . | 20 | 345 | 26 |
| þíngeyjar s. . . . . . . | 15 | 522 | 27 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 22 | 865 | 37 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 23 | 734 | 28 |
| Suður-umdæminu . . . . | 29 | 344 | 53 |
| Vestur-umdæminu . . . . | 22 | 362 | 31 |
| Norður- og Austur-umd. . . | 20 | 554 | 37 |
| á öllu Íslandi . . . . . | 23 | 440 | 41. |

Skoði maður þessi þrjú yfirlit nokkuð nákvæmar, og sleppi maður þarhjá Vestmannaeyja sýslu í þeim öllum og Reykjavíkur bæ í hinu fyrsta þeirra, þá sýnir það sig, að þegar fólkstalan er tekin til samanburðar, þá hefir nautpeníngur, á ári því, sem hèr ræðir um, verið flestur í Árness sýslu og þá í Rángárvalla og Borgarfjarðar sýslum (og sama átti sèr stað í fardögum 1864), en fæstur í þíngeyjar sýslu (eins og árið 1864), og þá í Ísafjarðar sýslu; sauðfènaðar hefir verið flestur í Húnavatns sýslu og þá í Norður-Múla sýslu (1864 átti það gagnstæða sèr stað), en fæstur í Gullbríngu og Kjósar sýslu (eins og árið 1864) og þá í Snæfellsness og Ísafjarðar sýslum; en hross hafa verið flest í Rángárvalla sýslu og þá í Húnavatns sýslu (eins og árið 1864), en fæst í Ísafjarðar sýslu og þá í Barðastrandar sýslu (eins og árið 1864). Aptur á hinn bóginn hefir, sè flatarmálið tekið til samanburðar, nautpeníngur verið flestur í Borgarfjarðar sýslu og þá í Gullbríngu- og Kjósar sýslu (og sama var 1864), en fæstur í þíngeyjar sýslu

og þá í Norður-Múla sýslu (eins og árið 1864); sauðfè hefir eins og næst undanfarið ár verið flest í Húnavatns sýslu og þá í Skagafjarðar sýslu, en fæst hefir það verið í þíngeyjar sýslu og þá í Gullbríngu- og Kjósar sýslu (1864 átti það gagnstæða sèr stað); en hross hafa verið flest í Borgarfjarðar sýslu (1864 einnig í Rángárvalla sýslu), og þá í Rángárvalla sýslu (1864 í Húnavatns sýslu), en fæst í þíngeyjar sýslu og þá í Norður-Múla sýslu (og sama var 1864). Sè loks jarðadýrleikinn hafður til samanburðar, þá hefir nautpeníngur á þessu ári, eins og næst undanfarið ár, verið flestur í Skaptafells sýslu og þá í Rángárvalla og Árness sýslum, en fæstur í þíngeyjar sýslu og í Dala sýslu (árið 1864 í Barðastrandar og Húnavatns sýslum); sauðfè hefir einnig eins og árið 1864 verið flest í Norður-Múla sýslu og þá í Skaptafells sýslu, en fæst í Gullbríngu- og Kjósar sýslu og þá í Snæfellsness sýslu (árið 1864 í Barðastrandar sýslu); en hross hafa einnig öldúngis eins og næst undanfarið ár verið flest í Skaptafells sýslu og þá í Rángárvalla sýslu, en fæst í Barðastrandar sýslu og þá í Ísafjarðar sýslu.

Áður vèr skiljum við þessi atriði um gripi og fènað, er eptir að sýna hlutfall það, sem í fardögum 1865 var milli tölu nautpeníngs, sauðfènaðar og hrossa í hèruðum landsins. það kemur þá fram, að móti hverjum 10 nautkindum komu í:

| | sauðfjár. | hross. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . | 169 | 18 |
| Vestmannaeyja s. . . . . . | 197 | 12 |
| Rángárvalla s. . . . . . . | 119 | 22 |
| Árness s. . . . . . . . . | 113 | 16 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 60 | 14 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . . | 23 | 50 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . . | 122 | 19 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . . | 188 | 20 |
| Snæfellsness s. . . . . . . | 115 | 12 |
| Dala s. . . . . . . . . . | 215 | 18 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 132 | 8 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . . | 140 | 8 |

| | sauðfjár. | hross. |
|---|---|---|
| Stranda sýslu . . . . . . . | 202 | 20 |
| Húnavatns s. . . . . . . . | 326 | 29 |
| Skagafjarðar s. . . . . . . | 215 | 21 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . | 174 | 13 |
| þíngeyjar s. . . . . . . . | 351 | 18 |
| Norður-Múla s. . . . . . . | 378 | 17 |
| Suður-Múla s. . . . . . . | 319 | 12 |
| Suður-umdæminu . . . . . | 118 | 18 |
| Vestur-umdæminu . . . . . | 163 | 14 |
| Norður- og Austur-umd. . . . | 282 | 19 |
| á öllu Íslandi . . . . . . | 188 | 17. |

Eptir þessu lætur það sig í ljósi, að tala sauðfjárins í samanburði við nautpeníng, að Vestmannaeyja sýslu og Reykjavíkur bæ fráskildum, hefir í fardögum 1865, eins og næst undanfarið ár, verið lángmest í Norður-Múla sýslu og þá í þíngeyjar sýslu, en lángminnst í Gullbríngu- og Kjósar sýslu og þá í Árness sýslu. Aptur á hinn bóginn hafa hross í samanburði við nautpeníng, þegar Vestmannaeyja sýsla og Reykjavíkur bær heldur ekki eru talin með, á þessu ári eins og næst undanfarið ár verið lángflest í Húnavatns sýslu og þá í Rángárvalla sýslu, en fæst í Barðastrandar og Ísafjarðar sýslum og þá í Snæfellsness og Suður-Múla sýslum. Í Reykjavíkur bæ einum á það hlutfall sèr stað, að hross eru fleiri í samanburði við nautpeníng en sauðfènaður.

## V. SKIP OG BÁTAR.

Sjáfarútvegur Íslendínga, sem er atvinnuvegur svo margra landsmanna, jókst nokkuð árið 1864 (smbr. III., bls. 788 og 789), en á þessu ári, sem hèr ræðir um, hefir hann aptur á móti farið töluvert hnignandi. Í fardögum 1864 voru nefnilega alls talin 3523 skip og bátar á öllu landinu, en um sama leyti 1865 eru þau alls

ekki talin nema 3332, og hefir því tala þeirra mínkað um 191 (árið 1863 mínkaði tala þeirra um 108, en árið 1864 fjölguðu þau aptur um 59), það er að skilja: þiljuskip hafa fækkað um 10 tals, 12-, 10- og 8-æríngar hafa fjölgað um 11, en 6 og 4 manna för hafa fækkað um 21 og minni bátar og byttur um 171. Þannig hafa minni bátar á þessu ári fækkað lángmest að tölunni til, en að tiltölu hafa þiljuskip fækkað mest, nefnilega um 16.1 af hundraði (árið 1863 fækkuðu þau þó ekki nema um 11.1 af hundraði), og hefir fækkun þeirra átt sèr stað í öllum umdæmum landsins, en þó mest að tiltölu í Suður-umdæminu.

Beri maður tölu skipa og báta á landinu á þessu ári saman við tölu þeirra á eldri tímum, t. a. m. árið 1853, þá hefir hún þó fækkað nokkuð á þessu 12 ára tímabili, því í fardögum 1853 voru talin alls á Íslandi 3506 skip og bátar, en í fardögum 1865 er tala þeirra ekki nema 3332, og hafa þau því á þessu tímabili fækkað um 174 tals, eða að tiltölu 5.0 af hundraði. Nokkur munur er samt á þessu, sè borið saman hinar ýmsu tegundir skipa og báta á þessum árum, því þá verður þó ofaná, að fjölgað hafa:

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| þiljuskip . . . . . . . . | 27 | 108.0; |
| en aptur hafa fækkað: | | |
| 12-, 10- og 8-æríngar . . | 6 | 2.4 |
| 6 og 4 mannaför . . . . | 80 | 6.4 |
| minni bátar og byttur . . . | 115 | 5.8, |

og hefir þá eptir þessu fækkunin á þessu tímabili verið mest að tiltölu á 6 og 4 manna-förum.

---

## VI. KÁLGARÐAR.

Samkvæmt skýrslunum hefir þessi búskapargrein á ári því, sem hèr ræðir um, tekið nokkrum framförum. Í fardögum 1864 voru nefnilega taldir 5303 kálgarðar á öllu Íslandi og stærð þeirra 298965 □ faðmar, en um sama leyti 1865 er tala þeirra sögð

5342 og stærðin 309232 □ faðmar, og ætti því á þessu eina ári tala þeirra að hafa fjölgað um 39, en stærðin aukizt um 10267 □ faðma. Viðaukinn hefir samt, eins og seinna mun sýnt verða, einúngis átt sèr stað í Suður-umdæminu, þar sem á hinn bóginn bæði tala og stærð kálgarða hefir farið mínkandi í báðum hinum umdæmum landsins.

Vèr höfum áður í ritum þessum (smbr. einkum III., bls. 789—791) vakið máls á því, að svo lítur út sem búnaðarskýrslur sýslumanna á Íslandi, hvað kálgarðarækt í landinu snertir, sè miður nákvæmlega úr garði gjörðar en vera skyldi, og höfum vèr fyrir þessari ætlun vorri fært nokkrar ástæður. Það lítur samt ekki út til þess, að þetta hafi lagazt, því öll þau hin sömu missmíði, sem áður hafa verið talin í þessu efni, finnast enn á þessu ári í skýrslunum um þessa búskapargrein. Þannig er á þessu ári ekki talinn nokkur kálgarður í 42 hreppum á landinu, nefnilega í 3 hreppum í Suður-umdæminu, í 10 hreppum í Vestur-umdæminu og í 29 hreppum í Norður- og Austur-umdæminu; sömuleiðis er í sumum hreppum að vísu sagt frá tölu kálgarða, en þó sleppt að skýra frá stærð þeirra, og átti þetta sèr stað á þessu ári um 686 kálgarða, og voru þar af 642 í Suður-umdæminu, 18 í Vestur-umdæminu og 26 í Norður- og Austur-umdæminu; loks eru einstöku hreppar, hvar að sönnu bæði er skýrt frá tölu kálgarða og stærð þeirra, en þar sem stærðin í samanburði við tölu þeirra er talin svo lítil, að hver kálgarður ekki verður nema hèrumbil 2 □ faðmar að flatarmáli, og gegnir slíkt allri furðu. Þetta sem nú hefir verið sagt lætur sig ennþá betur í ljósi, þegar menn bera ástand þessarar búskapargreinar í fardögum 1865 saman við það sem var í næstu fardögum á undan, því þá sýnir sig hin mesta ósamkvæmni, ekki einúngis í hreppum landsins heldur einnig í heilum hèruðum. Vèr viljum því hèr skýra frá, hve mikið kálgarðar á þessu eina ári frá fardögum 1864 til fardaga 1865 hafi aukizt eða mínkað bæði að tölu og að flatarmáli í hverri sýslu og í hverju umdæmi á Íslandi, og er merkið + sett fyrir framan þegar aukizt hefir, en merkið ÷ þar sem hefir mínkað; kálgarðar hafa þá aukizt eða mínkað á þessa leið:

Við B. VI. 2—7. „Útgjöld þessi eru hèr talin eins og í fjárhagslögunum fyrir árið 18⁶⁶/₆₇."

Við B. VI. 8. þessi útgjöld voru í frumvarpinu til fjárhagslaganna talin 800 rd., og var um það gjörð þessi athugasemd:

„Skólastjórnin hefir stúngið uppá að útgjöld þau, sem hèr ræðir um, verði hækkuð til þeirrar upphæðar sem hèr segir, og hefir hún í tilefni af því getið þess, að ekki verður hjá því komizt á sumri komanda, að mála skólahúsið að utanverðu, þar þetta ekki hefir verið gjört síðan árið 1855; en þar stærð þess, sem mála þarf að minnsta kosti tvisvar med olíulit, er að flatarmáli hèrumbil 1000—1200 ferhyrndar álnir, þá er kostnaðurinn til þessa talinn minnst 200 eða 300 rd. Stiptsyfirvöldin hafa þarhjá getið þess, að hin vanalegu gjöld til skólahússins hafi optastnær gengið fram yfir þá 600 rd., sem til þess hafa verið veittir á ári; og þegar hèr við bætist það, að bæði þakið á skólahúsinu og einnig mörg herbergi í því þurfa á þessu fjárhagsári töluverðrar aðgjörðar við, og þar sem líka þarf að kaupa ný rúmföt sökum þess að tala lærisveina hefir aukizt, þá hefir skólastjórnin álitið, að útgjöld þessi ekki yrðu talin lægri."

Við. B. VI. 9—13. „Útgjöld þessi eru hèr talin eins og í fjárhagslögunum fyrir árið 18⁶⁶/₆₇."

Við B. VI. 14. Í frumvarpinu til fjárhagslaganna voru útgjöld þessi talin 50 rd., og var um það gjörð svo látandi athugasemd:

„Lækniskaup það við latínuskólann, sem til þessa tíma hefir verið veitt á ári hverju, er hèr hækkað til 50 rd. samkvæmt uppá stúngu skólameistara og skólastjórnarinnar, þar hin töluverða fjölgun skólalærisveina (tala þeirra er nefnilega nú hèrumbil 70, þar sem þeir áður að eins hafa verið milli 30 og 40) gjörir það nauðsynlegt, að læknirinn optar verður að vitja skólans en áður."

Við B. VI. 15. Frumvarpið til fjárhagslaganna taldi 700 rd. til þessara útgjalda, og var um það gjörð þessi athugasemd:

„Um hækkun þá, sem hèr er stúngið uppá, skal þess getið, að þar sem í undanfarandi fjárhagslögum hafa verið veittir 400 rd.

á ári til þessara ýmislegra útgjalda, í hverjum þó eru innifalin yms stöðug útgjöld, t. a. m. fyrir þvott, og kostnaður við prentun hinna árlegu skólaskýrslna, þá hefir þessi upphæð þó aldrei verið nægileg, og skólameistarinn hefir þessvegna stúngið uppá að þetta væri hækkað til 500 rd. En auk þessa koma hèr í þessari grein ný útgjöld til á í hönd faranda fjárhagsári, þar sem nefnilega kirkju- og kennslustjórnin samkvæmt uppástúngu nefndar þeirrar, er sett hefir verið til að íhuga ymsar endurbætur við latínuskólann, hefir lagt drög fyrir, að til kennslunnar í neðstu bekkjum skólans komist á kennslubækur á íslenzku máli, einkum orðahneigíngafræði í latínumáli og íslenzk orðabók með latínskri þýðíngu. Sökum þessa, sem nú hefir verið sagt, er útgjaldagrein þessi samkvæmt uppástúngu skólastjórnarinnar hèr talin 700 rd."

Á þessa uppástúngu fèllst ekki ríkisþíngið, heldur veitti það að eins 400 rd. til þessara útgjalda eins og áður.

Við C. „Útgjöld þessi eru hèr talin einsog í fjárhagslögunum fyrir undanfarin ár; þetta er ætlað til smáútgjalda ymsra, þeirra er fyrir koma á ári hverju og ekki verður ætlazt á um fyrirfram; sömuleiðis er það ætlað til ýmislegs óviss kostnaðar, einkum til byggíngakostnaðar, til ferðakostnaðar handa embættismönnum út til Íslands, til að styrkja með bókmentafyrirtæki, o. s. frv."

---

Samkvæmt ágripi því úr fjárhagslögunum fyrir árið 18⁶⁷/₆₈, sem prentað er hèr að framan, eru tekjur af Íslandi á þessu fjárhagsári alls taldar 48345 rd. 21 sk., en útgjöld þau, sem talin eru að beinlínis snerti Ísland, eru á sama ári talin alls 79682 rd. 56 sk. það sem í fjárhagslögunum þannig er talið að lagt sè til Íslands úr ríkissjóðnum fjárhagsárið 18⁶⁷/⁶⁸ verður þá eptir þessu 31337 rd. 35 sk. að upphæð, og er það þá einúngis 1284 rd. 48 sk. meira en það var talið eptir fjárhagslögunum fyrir árið 18⁶⁶/₆₇ (smbr. Lhssk. III. bls. 871), og voru þó á því árí ekki taldir meðal útgjaldanna þeir 12000 rd. til alþíngiskostnaðar, sem taldir eru á árinu 18⁶⁷/₆₈; en það er 6041 rd. minna en það var talið eptir fjárhagslögunum fyrir árið 18⁶⁵/₆₆ (smbr. Lhssk. III. bls. 720), þegar þó var talinn alþíngiskostnaður. Lítur þá eptir þessu svo út, sem útgjöld Íslands hafi farið nokkuð mínkandi á þessu síðasta ári í samanburði við árið 18⁶⁵/₆₆, en ekki verða samt neinar ályktanir dregnar af þessu, sem byggja megi á.

þess ber þarhjá að gæta, að það, sem eptir þessu er talið að lagt verði til Íslands úr ríkissjóði á þessu ári, verður í raun rèttri nokkuð á aðra leið en hèr er sagt, nefnilega nokkuð meira, og ber það til þessa, að launaviðbót sú eptir kornverði til embættismanna á Íslandi samkvæmt lögum 19. febrúar 1861, sem í fjárhagslögunum er talin í útgjaldadálkunum A. II., B. II. og B. IV., verður nokkuð meiri en hún þar er talin, vegna þess að þegar frumvarpið til fjárhagslaganna var lagt fyrir ríkisþíngið, var ennþá ekki búið að setja verðlagsskrárnar í Danmörku, og var því í frumvarpinu, eins og áður er sagt, ætlazt til upphæðarinnar á þessu eptir meðaltölu um seinustu 10 ár; og þó búið væri að setja verðlagsskrárnar áður en fjárhagslögin voru alrædd á þínginu og konúngur búinn að staðfesta þau með samþykki sínu, þá var samt engin breytíng gjörð á þessu. Ekki verður samt að svo stöddu skýrt frá, hvernig launaviðbót þessi verður á þessu ári í raun og veru, því hvorki er ennþá búið að semja skýrslu um upphæð hennar handa hverjum einstaka embættismanni í landinu, nè heldur hefir stjórnarherra fjárhagsmálanna lagt samþykki sitt á það, samkvæmt því sem fyrir er skipað í nefndum lögum 1861.

Að endíngu skal þess getið, að eins og að undanförnu höfum vèr sleppt i ágripi þessu að telja það, sem í fjárhagslögunum er ekki beinlínis fært til sem útgjöld fyrir Ísland, þó sum þeirra að nokkru leyti og sum að öllu geti sagzt snerta landið: t. a. m. peníngar þeir, sem veittir eru til samferða milli Kaupmannahafnar og Íslands og Færeyja með gufuskipi, og svo eptirlaun þau, sem íslenzkir embættismenn og ekkjur þeirra hafa úr ríkissjóði; og gefur það að skilja, að væri þetta talið með, þá yrði tillagið til Íslands á ári hverju úr ríkissjóði töluvert á annan veg en hèr og að undanförnu hefir verið talið.

## BÚNAÐAR-ÁSTAND Á ÍSLANDI

í fardögum 1866.

---

Frá þessari grein hagfræðarinnar á Íslandi á ýmsum árum hefir optar verið skýrt í ritum þessum, (smbr. I., bls. 58—73, 118—123, 480-87, II., bls. 31—220, 544—559, 852—891, III., bls. 227—273, 393—445, 644—697, 760—819 og IV., bls. 179—239), og skal því þessu til framhalds hèr skýra frá búnaðar-ástandi á Íslandi eins og það er talið að hafa verið í fardögum 1866.

Skýrslur þær, sem vèr nú látum fylgja um þetta efni, eru eins og að undanförnu samdar eptir skýrslum þeim, sem sýslumenn á Íslandi að boði stjórnarinnar semja um það á ári hverju, og er tilhögunin á þeim að öllu leyti hin sama og við hefir verið höfð um hin síðustu árin, það er að skilja, að í þeim er einnig til hægara samanburðar sagt frá tölu nautpeníngs og sauðfènaðar í fardögum 1865. Sömuleiðis höfum vèr eins og áður í skýrslum vorum sleppt þeim tveim atriðum, nefnilega um tölu býla og þeirra sem tíunda, því á hvorutveggju þessu er í skýrslum sýslumanna, eins og optar á vikið, svo mikil ósamkvæmni eða þeim þá er með öllu sleppt, og virðist því rèttara að sleppa þeim. Að öðru leyti má einnig geta þess hèr, að skýrslur amtmanna um bæði þessi atriði líka eru nokkuð ólíkar og sjálfum sèr ósamkvæmar, því í Suður-umdæminu er á þessu ári, sem hèr ræðir um, tala „býla" sögð að vera 2035 (í fardögum 1865 voru þau talin 2751 en 2009 í fardögum 1864, smbr. IV., bls. 180), en tala „búenda er sögð 2424 (í fardögum 1865 voru taldir 3010 „tíundgjörendur"), og er á þessu hvorutveggju svo mikill munur, að allri furðu gegnir; í Vestur-umdæminu er munurinn miklu minni, því þar er tala „býla" sögð 1554 (í fardögum 1865 voru þau talin 1571), en þar er tala „þeirra sem gripi framtelja" sögð að vera 1974 (en þeir voru í

fardögum 1865 taldir 2004); og loks er í skýrslunni frá Norður- og Austur-umdæminu, sem næst undanfarið ár sleppti báðum þessum atriðum, tala „byggðra jarða" sögð að vera 2448, en „þeir sem tíund gjöra" eru taldir 3710.

það er að vísu miður heppilegt, að alþýða á Íslandi skuli hljóta að vera í svo mikilli óvissu um þessi tvö atriði, sem þó ekki eru svo lítils áríðandi þegar um búnaðar-ástand landsins er að ræða, þar sem þó mætti virðast nægilegt, til þess að hlutaðeigandi embættismenn gjörðu sèr far um að lagfæra þessa galla, að á þá væri bent, eins og svo opt hefir verið gjört í ritum þessum.

Vèr skulum nú ekki fara frekari orðum um þetta, en viljum nú taka fyrir oss höfuðatriðin í skýrslunum, og gjöra við sèrhvert þeirra nokkrar athugasemdir og samanburð við undanfarin ár.

---

## I. NAUTPENÍNGUR.

Samkvæmt búnaðarskýrslunum hefir tala nautgripa á Íslandi farið minnkandi um þrjú næst undanfarin ár, (um fardagaárið 1862—1863 var fækkunin 1753 tals eða 7.2 af hundr., fardagaárið 1863—1864: 1658 tals eða 7.4 af hundr., og fardagaárið 1864—65 einúngis 526 tals eða 2.5 af hundr., smbr. III. bls. 645, 761 og IV., bls. 180); en á þessu ári, sem hèr ræðir um, hefir tala þeirra farið lítið eitt vaxandi. Í fardögum 1865 var tala nautgripa nefnilega 20300 á öllu landinu, en eptir skýrslunum hèr á eptir er tala þeirra í fardögum 1866 sögð að vera 20357, og hefir því fjölgun nautpeníngs á þessu eina ári einúngis verið 57 tals, eða að tiltölu 0.3 af hundraði. þetta er nú að vísu varla teljandi, en þó verður það nokkuð á aðra leið, skoði maður umdæmi landsins; því meðan tala nautpeníngs hefir á þessu ári staðið í stað í Suður-umdæminu, þá hefir hún fjölgað í Norður- og Austur-umdæminu um 118 tals eða 1.6 af hundraði hverju, en aptur á móti fækkað í Vesturumdæminu um 61 tals eða 1.3 af hundraði.

þó nú þannig sè töluverður munur á þessu í umdæmum landsins, þá sýnir það sig samt, að hann er miklu meiri þegar skoðað

er hvert hèrað í landinu sèr, því þá kemur það fram, að tala nautpeníngs hefir á þessu ári fækkað í nær því eins mörgum sýslum og hann hefir fjölgað í. Tala nautpeníngs hefir nefnilega fjölgað í þessum sýslum:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Vestmannaeyja sýslu . . . . | 3 | 7.7 |
| Rángárvalla s. . . . . . . . | 25 | 1.1 |
| Árness s. . . . . . . . . . | 21 | 0.8 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . . | 12 | 1.1 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 10 | 1.3 |
| Skagafjarðar s. . . . . . . | 11 | 0.7 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . | 51 | 3.2 |
| þíngeyjar s. . . . . . . . | 31 | 3.0 |
| Norður-Múla s. . . . . . . | 51 | 5.7 |
| Suður-Múla s. . . . . . . | 28 | 3.1; |

en í þessum sýslnm aptur á móti hefir tala nautpeníngs fækkað á þessu sama ári, nefnilega í:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . | 27 | 1.9 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 16 | 1.4 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . . | 1 | 2.0 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . . | 5 | 0.5 |
| Snæfellsness s. . . . . . . | 34 | 5.0 |
| Dala s. . . . . . . . . . . | 10 | 1.4 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . . | 7 | 0.7 |
| Stranda s. . . . . . . . . | 32 | 8.8 |
| Húnavatns s. . . . . . . . | 54 | 3.7. |

þegar Vestmannaeyja sýsla og Reykjavíkur bær, sem hvort um sig ekki getur talizt nema hreppur, eru frá skilin, þá hefir nautpeníngur á þessu ári að tiltölu fjölgað mest í Norður-Múla sýslu og þá í Eyjafjarðar sýslu (árið næst á undan fækkaði nautpeníng töluvert í hinni fyrnefndu sýslu en stóð í stað í þeirri síðast nefndu), en minnst hefir fjölgað í Skagafjarðar sýslu og þá í Árness sýslu. Aptur á hinn bóginn hefir tala nautpeníngs á þessu ári

fækkað mest í Stranda sýslu (árið næst á undan fjölgaði þar ekki svo lítið) og þá í Snæfellsness sýslu, en minnst í Borgarfjarðar sýslu og þá í Ísafjarðar sýslu.

Á þessu ári, sem hèr ræðir um, hafa að tiltölu griðúngar og geldneyti eldri en veturgömul, sem hið undanfarna ár höfðu fækkað mest (nefnilega um 116 eða 11.1 af hundr.), fjölgað mest, það er að skilja, um 158 eða 16.9 af hundr., en veturgamall nautpeníngur ekki nema um 314 eða 15.6 af hundr. (næst undanfarið ár fjölgaði hann einúngis um 99 eða 5.2 af hundr.); en kýr og kelfdar kvígur, sem næst undanfarið ár fækkuðu um 509 eða 2.8 af hundraði, hafa á þessu ári einnig fækkað um 415 tals eða 2.4 af hundraði.

Af skýrslunum sjálfum má að vísu sjá, hversu margt sè í hverjum hrepp og í hverri sýslu á landinu bæði af kúm, geldneytum og veturgömlum nautpeníngi; en til þess að hafa hægara yfirlit yfir þetta á einum stað, þá skal hèr sýna hlutfall það, sem í fardögum 1866 var milli þeirra þriggja flokka, er nú voru taldir. Af hverju 100 nautpeníngs voru þá á þessu ári:

| | kýr og kvígur. | eldri geldneyti. | veturgamalt. |
|---|---|---|---|
| Skaptafells sýsla . . . . . | 79.3 | 5.6 | 15.1 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 92.8 | 2.4 | 4.8 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 88.9 | 1.1 | 10.0 |
| Árness s. . . . . . . . . | 86.3 | 1.8 | 11.9 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 82.0 | 3.8 | 14.2 |
| Reykjavíkur bær . . . . . | 100.0 | » | » |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 82.6 | 3.4 | 14.0 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 81.5 | 2.1 | 16.4 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 84.9 | 5.3 | 9.8 |
| Dala s. . . . . . . . . . | 82.5 | 7.1 | 10.4 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 82.5 | 8.0 | 9.5 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 83.6 | 7.7 | 8.7 |
| Stranda s. . . . . . . . . | 87.1 | 6.0 | 6.9 |
| Húnavatns s. . . . . . . . | 83.6 | 8.1 | 8.3 |
| Skagafjarðar s. . . . . . . | 84.1 | 6.9 | 9.0 |

| | kýr og kvígur. | eldri geldneyti. | vetur-gamalt. |
|---|---|---|---|
| Eyjafjarðar sýsla . . . . . | 85.5 | 4.5 | 10.0 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . . | 84.9 | 4.3 | 10.8 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 72.3 | 14.4 | 13.3 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 71.6 | 13.5 | 14.9 |
| Suður-umdæmið . . . . . | 84.9 | 2.7 | 12.4 |
| Vestur-umdæmið . . . . . | 83.1 | 5.9 | 11.0 |
| Norður- og Austur-umd. . . | 81.4 | 8.0 | 10.6 |
| á öllu Íslandi . . . . . . | 83.2 | 5.4 | 11.4. |

Eptir þessu sýnir það sig, þegar Vestmannaeyja sýslu og Reykjavíkur bæ er sleppt, að af jafnmörgum nautpeníngi eru kýr og kelfdar kvígur á þessu ári flestar í Rángárvalla sýslu og fæstar í Suður-Múla sýslu; griðúngar og geldneyti, eldri en veturgömul, eru aptur á móti flest í Norður-Múla sýslu, en fæst í Rángárvalla sýslu; og loks er veturgamall nautpeníngur flestur í Mýra- og Hnappadals sýslu og fæstur í Stranda sýslu. Eru þessi hlutföll nokkuð lík því sem átti sèr stað næst undanfarið ár (smbr. IV., bls. 182—183).

Sè nú enn fremur tala nautgripa á þessu ári borin saman við tölu þeirra á eldri tímum, og taki maður til þessa samanburðar árið 1853, þá lýsir það sèr, að nautpeníngur hefir fækkað töluvert í landinu á þeim 13 árum, sem síðan eru liðin. Í fardögum 1853 var nefnilega tala nautgripa á öllu Íslandi 23663, en í fardögum 1866 er hún ekki talin nema 20357; fækkun nautgripa á þessum 13 árum hefir því verið 3306 ials eða 14.0 af hundraði hverju á öllu landinu. Mest hefir fækkunin verið í Suður-umdæminu, nefnilega um 2051 eða 19.8 af hundr. (nær því fimmti hluti), þá í Vestur-umdæminu, nefnilega um 933 eða 17.2 af hundr., en minnst í Norður- og Austur-umdæminu, nefnilega einúngis um 322 eða 4.1 af hundraði. Eptir eðli sínu hlýtur þó stærri mismunur á þessu að koma fram í hinum sèrstöku hèruðum landsins á þessu

sama tímabili, því beri maður þau tvö umgetnu ár saman, þá hefir tala nautpeníngs um þessi 13 ár fjölgað eða fækkað á þann hátt, sem nú skal sýnt.

Fjölgað hefir nefnilega einúngis í:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Reykjavíkur bæ | 2 | 3.9 |
| Þíngeyjar sýslu | 7 | 0.7 |
| Norður-Múla s. | 53 | 5.9; |

en aptur á móti hefir fækkað í:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu | 351 | 20.3 |
| Vestmannaeyja s. | 10 | 19.2 |
| Rángárvalla s. | 581 | 21.0 |
| Árness s. | 584 | 18.0 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. | 196 | 14.4 |
| Borgarfjarðar s. | 331 | 25.5 |
| Mýra- og Hnappadals s. | 245 | 18.7 |
| Snæfellsness s. | 256 | 28.5 |
| Dala s. | 96 | 11.8 |
| Barðastrandar s. | 79 | 9.0 |
| Ísafjarðar s. | 175 | 15.8 |
| Stranda s. | 82 | 19.8 |
| Húnavatns s. | 237 | 14.3 |
| Skagafjarðar s. | 23 | 1.5 |
| Eyjafjarðar s. | 104 | 6.0 |
| Suður-Múla s. | 18 | 1.9. |

Sleppi maður einnig hèr Reykjavíkur bæ og Vestmannaeyja sýslu, þá er fjölgun nautpeníngs á þessu 13 ára tímabili ekki teljandi nema í Norður-Múla sýslu, því þar hefir þó fjölgað um 53 eða 5.9 af hundraði; en aptur á hinn bóginn hefir fækkun nautpeníngs á sama tímabili að tiltölu verið mest í Snæfellsness sýslu og þá í Borgarfjarðar sýslu, en minnst hefir fækkað í Skagafjarðar sýslu og þá í Suður-Múla sýslu.

Á þessu tímabili er það einkum geldneyti, sem að tiltölu hefir fækkað tölavert, því kýr og kelfdar kvígur hafa fækkað einúngis

um 12.5 af hundraði, en griðungar og geldneyti eldri en veturgömul hafa fækkað um 20.8 af hundr., og veturgamall nautpeníngur um 20.5 af hundraði.

---

## II. SAUÐFÈNAÐUR.

Eins og næst undanfarið fardagaár hefir tala sauðfjárins á Íslandi, sem er aðalbjargræðisstofn landsmanna og máttarstólpi alls sveitabúnaðar, einnig á fardagaári því, sem hèr ræðir um, tekið álitlegum framförum, þó þetta hvergi nærri sè eins mikið og fardagaárið 1864—65. Eptir skýrslunum taldist nefnilega svo til, að í fardögum 1864 væri fjártalan á öllu landinu 349,324, en um sama leyti 1865 var tala fjárins orðin 381,578, og hafði því sauðfè á því ári fjölgað um 32254 tals eða að tiltölu 9.2 af hundraði (smbr. IV., bls. 185); en á þessu ári, sem hèr ræðir um, hefir hún þó tekið þeim framförum, að fjartalan í fardögum 1866 er sögð að vera 393,295, og hefir þá sauðpeníngur á þessu ári fjölgað um 11717 tals eða 3.1 af hundraði; og þó þetta sè hèrumbil þriðjúngi minna en næst undanfarið ár, er það samt álitlegur viðauki, sem óskandi væri að hèldist við. Munurinn á þessum viðauka er að öðru leyti svo töluverður í hinum sèrstöku hèruðum og sveitum landsins, þar sem fjártalan víða hefir minnkað, að vèr verðum að skoða þetta atriði ítarlegar og skýra það gjörr en skýrslurnar sjálfar gjöra.

Skoði maður þá fyrst hvert umdæmi í landinu sèr, þá kemur það fram, að sauðfè á þessu ári hefir fjölgað í:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Suður-umdæminu . . . . . | 1068 | 1.1 |
| Norður-og Austur-umdæminu . | 11049 | 5.3; |

en aptur á móti fækkað í:

| | | |
|---|---|---|
| Vestur-umdæminu . . . . . . | 400 | 0.5, |

og er þá eptir þessu fjölgunin nokkuð teljandi einúngis í Norður- og Austur-umdæminu.

Taki maður aptur á hinn bóginn hverja sýslu í landinu sèr, þá verður þetta töluvert á annan hátt, því þá kemur það fram, að sauðfènaður hefir á þessu ári fjölgað í:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Vestmannaeyja sýslu . . . | 2 | 0.3 |
| Árness s. . . . . . . . . | 1362 | 4.7 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 210 | 3.0 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . | 14 | 11.5 |
| Borgarfjarðar sýslu . . . . | 893 | 7.4 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 405 | 2.0 |
| Barðastrandar s. . . . . | 561 | 5.4 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 371 | 2.8 |
| Húnavatns s. . . . . . . | 1147 | 2.4 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 1111 | 3.4 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . | 2183 | 8.0 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . | 1488 | 4.1 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 3417 | 9.5 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 1703 | 6.0; |
| en aptur hefir hann fækkað í: | | |
| Skaptafells sýslu . . . . . | 764 | 3.2 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 649 | 2.5 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 320 | 4.1 |
| Dala s. . . . . . . . . . | 1140 | 7.3 |
| Stranda s. . . . . . . . | 277 | 3.8. |

Þegar Reykjavíkur bær og Vestmannaeyja sýsla eru frá talin, þá hefir eptir þessu sauðfènaður bæði tals og að tiltölu fjölgað mest í Norður-Múla sýslu (nær því um tíunda hluta) og þá í Eyjafjarðar sýslu, en minnst hefir að tiltölu fjölgað í Mýra- og Hnappadals sýslu og þá í Húnavatns sýslu. Aptur á móti hefir fækkunin að tiltölu verið mest í Dala sýslu (hèrumbil fjórtandi hluti), en minnst í Rángárvalla sýslu.

Mestur verður þó munurinn bæði á fjölgun og fækkun sauðfjárins í hreppum landsins, því á þessu ári hefir tala fjárins fjölgað í þessum 114 hreppum og á þann hátt, sem nú skal telja, nefnilega:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| í Skaptafells sýslu: | | |
| Bæjar hrepp | 68 | 4.1 |
| Borgarhafnar | 207 | 24.6 |
| Hofs | 101 | 6.0 |
| Kleifa | 382 | 5.6 |
| í Rángárvalla sýslu: | | |
| Hvol hrepp | 30 | 1.8 |
| Vesturlandeyja | 150 | 7.1 |
| Austurlandeyja | 98 | 4.4 |
| í Árness sýslu: | | |
| Villingaholts hrepp | 124 | 8.5 |
| Hraungerðis | 215 | 13.1 |
| Gaulverjabæjar | 61 | 5.0 |
| Stokkseyrar | 41 | 3.6 |
| þíngvalla | 10 | 0.5 |
| Grímsness | 281 | 5.2 |
| Biskupstúngna | 548 | 11.1 |
| Hrunamanna | 251 | 6.8 |
| Gnúpverja | 42 | 1.7 |
| Skeiða | 202 | 12.8 |
| í Gullbríngu- og Kjósar sýslu: | | |
| Vatnsleysustrandar hrepp | 138 | 22.4 |
| Álptaness | 10 | 2.1 |
| Kjalarness | 119 | 13.2 |
| Kjósar | 241 | 11.7 |
| í Borgarfjarðar sýslu: | | |
| Skilmanna hrepp | 9 | 1.6 |
| Strandar | 194 | 12.9 |
| Leirár og Mela | 225 | 14.5 |
| Skorradals | 36 | 2.6 |
| Lundareykjadals | 114 | 8.8 |
| Hálsa | 143 | 14.3 |
| Reykholtsdals | 271 | 12.4 |

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| í Mýra- og Hnappadals sýslu: | | |
| Hvítársíðu hrepp . . . . | 237 | 14. 3 |
| Þverárhlíðar . . . . . . . | 50 | 3. 8 |
| Norðurárdals . . . . . . . | 61 | 3. 7 |
| Borgar . . . . . . . . . | 36 | 1. 1 |
| Álptaness . . . . . . . . | 68 | 2. 7 |
| Hraun . . . . . . . . . | 82 | 3. 4 |
| Kolbeinsstaða . . . . . . . | 13 | 0. 6 |
| í Snæfellsness sýslu: | | |
| Breiðuvíkur hrepp . . . . | 65 | 9. 1 |
| í Dala sýslu: | | |
| Hvamms hrepp . . . . . | 93 | 5. 8 |
| Skarðsstrandar . . . . . | 112 | 4. 4 |
| í Barðastrandar sýslu: | | |
| Reykhóla hrepp . . . . . | 13 | 0. 8 |
| Gufudals . . . . . . . . | 19 | 1. 5 |
| Múla . . . . . . . . . | 33 | 4. 5 |
| Flateyjar . . . . . . . . | 6 | 0. 6 |
| Barðastrandar . . . . . . . | 126 | 10. 1 |
| Rauðasands . . . . . . . | 117 | 7. 4 |
| Tálknafjarðar . . . . . . . | 133 | 21. 1 |
| Dala . . . . . . . . . . | 44 | 5. 7 |
| Suðurfjarða . . . . . . . | 108 | 14. 7 |
| í Ísafjarðar sýslu: | | |
| Þíngeyrar hrepp . . . . . | 2 | 0. 3 |
| Mýra . . . . . . . . . . | 83 | 5. 5 |
| Eyrar . . . . . . . . . | 181 | 19. 7 |
| Súðavíkur . . . . . . . . | 41 | 4. 0 |
| Ögur . . . . . . . . . . | 97 | 9. 7 |
| Reykjarfjarðar . . . . . | 48 | 2. 7 |
| Nauteyrar . . . . . . . . | 107 | 6. 5 |
| Grunnavíkur . . . . . . . | 11 | 3. 2 |

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| í Stranda sýslu: | | |
| Bæjar hrepp . . . . . . . | 85 | 4.6 |
| Árness . . . . . . . . . | 83 | 7.4 |
| í Húnavatns sýslu: | | |
| Vindhælis hrepp . . . . . | 155 | 3.3 |
| Engihlíðar . . . . . . . . | 280 | 11.2 |
| Bólstaðarhlíðar . . . . . | 325 | 6.3 |
| Svínavatns . . . . . . . . | 110 | 2.0 |
| Torfalækjar . . . . . . . | 145 | 4.3 |
| Sveinsstaða . . . . . . . | 206 | 5.2 |
| þorkelshóls . . . . . . . | 75 | 1.7 |
| þverár . . . . . . . . . | 30 | 0.8 |
| Kirkjuhvamms . . . . . . | 25 | 0.8 |
| Torfastaða . . . . . . . . | 18 | 0.3 |
| í Skagafjarðar sýslu: | | |
| Holts hrepp . . . . . . . | 186 | 7.2 |
| Fells . . . . . . . . . . | 68 | 7.8 |
| Hofs . . . . . . . . . . | 239 | 11.0 |
| Hóla . . . . . . . . . . | 61 | 2.1 |
| Viðvíkur . . . . . . . . | 130 | 6.5 |
| Lýtingsstaða . . . . . . . | 356 | 6.1 |
| Staðar . . . . . . . . . | 118 | 4.9 |
| Sauðár . . . . . . . . . | 125 | 6.3 |
| Skefilstaða . . . . . . . . | 89 | 4.7 |
| í Eyjafjarðar sýslu: | | |
| Aungulstaða hrepp . . . . | 282 | 9.2 |
| Saurbæjar . . . . . . . . | 436 | 8.2 |
| Hrafnagils . . . . . . . . | 50 | 1.7 |
| Glæsibæjar . . . . . . . . | 553 | 17.6 |
| Skriðu . . . . . . . . . | 329 | 7.6 |
| Arnarness . . . . . . . . | 196 | 6.2 |
| Vallna . . . . . . . . . | 59 | 1.6 |
| þóroddsstaða . . . . . . . | 118 | 16.9 |

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Hvanneyrar hrepp . . . . | 216 | 28.2 |
| í þíngeyjar sýslu: | | |
| Sauðaness hrepp . . . . | 210 | 6.6 |
| Svalbarðs . . . . . . . . | 114 | 4.1 |
| Skinnastaða . . . . . . . | 85 | 2.9 |
| Kelduness . . . . . . . . | 61 | 3.2 |
| Húsavíkur . . . . . . . . | 152 | 6.9 |
| Skútustaða . . . . . . . . | 116 | 3.8 |
| Helgastaða . . . . . . . | 142 | 2.7 |
| Ljósavatns . . . . . . . . | 190 | 3.5 |
| Háls . . . . . . . . . . . | 303 | 6.7 |
| Grýtubakka . . . . . . . | 255 | 10.1 |
| Svalbarðsstrandar . . . . | 111 | 8.8 |
| í Norður-Múla sýslu: | | |
| Fljótsdals hrepp . . . . . | 522 | 9.3 |
| Fellna . . . . . . . . . | 214 | 6.0 |
| Túngu . . . . . . . . . | 277 | 7.5 |
| Jökulsdals og Hlíðar . . . | 777 | 12.0 |
| Vopnafjarðar . . . . . . . | 521 | 7.7 |
| Hjaltastaðar . . . . . . . | 402 | 11.0 |
| Borgarfjarðar . . . . . . . | 371 | 16.5 |
| Loðmundarfjarðar . . . . | 115 | 13.3 |
| Seyðisfjarðar . . . . . . . | 218 | 16.7 |
| í Suður-Múla sýslu: | | |
| Geithellna hrepp . . . . | 86 | 3.7 |
| Beruness . . . . . . . . | 49 | 2.7 |
| Breiðdals . . . . . . . . | 415 | 8.4 |
| Fáskrúðsfjarðar . . . . . | 47 | 1.7 |
| Reyðarfjarðar . . . . . . . | 463 | 12.6 |
| Norðfjarðar . . . . . . . | 89 | 4.2 |
| Eyða . . . . . . . . . . | 90 | 3.4 |
| Vallna . . . . . . . . . | 497 | 10.9 |
| Skriðdals . . . . . . . . | 21 | 0.9. |

En aptur á hinn bóginn hefir fjártalan fækkað í þessum 52 hreppum og á þenna hátt, nefnilega:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| í Skaptafells sýslu: | | |
| Bjarnaness hrepp . . . . | 76 | 3.3 |
| Leiðvalla . . . . . . . . | 284 | 5.2 |
| Dyrhóla . . . . . . . . . | 1162 | 23.4 |
| í Rángárvalla sýslu: | | |
| Holtamanna hrepp . . . . | 413 | 7.6 |
| Landmanna . . . . . . . | 226 | 8.4 |
| Rángárvalla . . . . . . . | 35 | 0.8 |
| Fljótshlíðar . . . . . . . | 61 | 2.0 |
| Eyjafjalla . . . . . . . . | 192 | 4.5 |
| í Árness sýslu: | | |
| Sandvíkur hrepp . . . . | 63 | 7.5 |
| Selvogs . . . . . . . . . | 42 | 5.5 |
| Ölfus . . . . . . . . . . | 308 | 13.1 |
| í Gullbríngu- og Kjósar sýslu: | | |
| Grindavíkur hrepp . . . . | 43 | 16.9 |
| Hafna . . . . . . . . . . | 49 | 14.3 |
| Rosmhvalaness . . . . . . | 172 | 24.8 |
| Seltjarnarness . . . . . . | 19 | 3.0 |
| Mosfellssveit . . . . . . . | 15 | 1.4 |
| í Borgarfjarðar sýslu: | | |
| Akraness hrepp . . . . . | 77 | 11.6 |
| Andakíls . . . . . . . . | 22 | 1.1 |
| í Mýra- og Hnappadals sýslu: | | |
| Stafholtstúngna hrepp . . . | 62 | 2.2 |
| Eyja . . . . . . . . . . . | 36 | 4.1 |
| Miklaholts . . . . . . . . | 44 | 3.1 |
| í Snæfellsness sýslu: | | |
| Skógarstrandar hrepp . . . | 58 | 3.3 |
| Helgafellssveit . . . . . . | 42 | 2.2 |
| Eyrar hrepp . . . . . . . | 147 | 15.3 |

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Ness hrepp innra | 33 | 6.1 |
| Ness hrepp ytra | 24 | 4.7 |
| Staðarsveit | 81 | 6.4 |
| í Dala sýslu: | | |
| Saurbæjar hrepp | 52 | 2.5 |
| Haukadals | 85 | 7.2 |
| Hörðudals | 9 | 0.7 |
| Miðdala | 267 | 10.8 |
| Laxárdals | 784 | 28.3 |
| Fellsstrandar | 148 | 8.7 |
| í Barðastrandar sýslu: | | |
| Geiradals hrepp | 38 | 5.2 |
| í Ísafjarðar sýslu: | | |
| Auðkúlu hrepp | 30 | 4.2 |
| Mosvalla | 15 | 1.1 |
| Suðureyrar | 11 | 2.0 |
| Hóls | 120 | 23.9 |
| Snæfjalla | 14 | 2.8 |
| Sléttu | 9 | 2.0 |
| í Stranda sýslu: | | |
| Broddaness hrepp | 93 | 8.1 |
| Kirkjubóls | 242 | 26.6 |
| Hrófbergs | 28 | 2.6 |
| Kaldrananess | 82 | 6.2 |
| í Húnavatns sýslu: | | |
| Áss hrepp | 34 | 0.9 |
| Staðar | 188 | 10.1 |
| í Skagafjarðar sýslu: | | |
| Akra hrepp | 138 | 2.6 |
| Seilu | 31 | 0.9 |
| Rípur | 92 | 5.0 |
| í Eyjafjarðar sýslu: | | |
| Grímseyjar hrepp | 56 | 25.6 |

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| í þíngeyjar sýslu: | | |
| Presthóla hrepp . . . . . | 251 | 14. 5 |
| í Suður-Múla sýslu: | | |
| Mjóafjarðar hrepp . . . . | 54 | 4.4. |

Og loks hefir fjártalan staðið í stað í Skeggjastaða hrepp í Norður-Múla sýslu.

Samkvæmt því sem nú hefir verið sagt, hefir sauðpeníngur á þessu ári að tiltölu fjölgað mest í Hvanneyrar hrepp í Eyjafjarðar sýslu (28. 2 af hundraði, eða um rúman fjórða hluta) og þá í Borgarhafnar hrepp í Skaptafells sýslu (24. 6 af hundraði, eða nær því um fjórða hluta), en minnst hefir fjölgunin að tiltölu verið í þíngeyrar hrepp í Ísafjarðar sýslu og í Torfastaða hrepp í Húnavatns sýslu (ekki nema 0. 3 af hundraði eðar hèrumbil 3 af 1000) og þá í þíngvalla hrepp í Árness sýslu (ekki nema 0. 5 af hundraði eða hèrumbil 5 af 1000). Aptur á hinn bóginn hefir tala sauðfjárins á þessu sama ári að tiltölu fækkað mest í Laxárdals hrepp í Dala sýslu (28. 3 af hundraði eða rúmlega einn fjórði hluti) og þá í Kirkjubóls hrepp í Stranda sýslu (26. 6 af hundraði); en minnst hefir fækkað í Hörðudals hrepp í Dala sýslu (ekki nema 0. 7 af hundraði eða hèrumbil 7 af 1000) og þá í Rángárvalla hrepp í Rángárvalla sýslu (0. 8 af hundraði eða hèrumbil 8 af 1000).

Á næst undanförnu ári, til fardaga 1865, voru það geldar ær og gemlíngar, sem höfðu fjölgað töluvert, þar sem aptur á móti sauðir og þó einkum ær með lömbum höfðu fækkað (smbr. IV. bls. 193—194), en á þessu ári, sem hèr ræðir um, er þetta á nokkurn annan veg. Beri maður nefnilega árin 1865 og 1866 saman, þá hafa ær með lömbum fjölgað um 4629 tals eða að tiltölu 2.7 af hundraði, geldar ær um 4146 tals eða 16. 0 af hundraði, og sauðir og hrútar eldri en veturgamlir um 9669 tals eða 16. 3 af hundraði; en á hinn bóginn hafa gemlíngar fækkað um 6727 tals eða að tiltölu 5. 4 af hundraði.

Eins og gjört var við nautpeníng hèr að framan, skulum vèr þessu næst sýna hlutfall það, sem í hverju hèraði á landinu var í fardögum 1866 milli þeirra fjögra flokka, sem sauðfènaði í skýrslunum er skipt í, og kemur það þá fram, að af hverju 100 sauðpeníngs var á þessu ári þannig skipt:

| | ær með lömbum. | ær geldar. | sauðir og hrútar. | gemlíngar. |
|---|---|---|---|---|
| Skaptafells sýsla . . . . | 37.4 | 10.0 | 21.6 | 31.0 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 39.8 | 16.4 | 17.0 | 26.8 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 44.4 | 5.9 | 12.1 | 37.6 |
| Árness s. . . . . . . | 43.6 | 4.8 | 12.3 | 39.3 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . | 48.4 | 6.4 | 4.2 | 41.0 |
| Reykjavíkur bær . . . . | 44.9 | 16.9 | 2.2 | 36.0 |
| Borgarfjarðar s. . . . . | 46.0 | 11.2 | 8.6 | 34.2 |
| Mýra- og Hnappadals s. . | 47.6 | 8.2 | 13.6 | 30.6 |
| Snæfellsness s. . . . . | 57.2 | 9.1 | 7.5 | 26.2 |
| Dala s. . . . . . . . . | 53.2 | 9.2 | 13.4 | 24.2 |
| Barðastrandar s. . . . . | 51.9 | 4.9 | 9.8 | 33.4 |
| Ísafjarðar s. . . . . . | 54.4 | 2.3 | 9.9 | 33.4 |
| Stranda s. . . . . . . | 62.3 | 8.7 | 5.5 | 23.5 |
| Húnavatns s. . . . . . | 43.1 | 9.6 | 22.1 | 25.2 |
| Skagafjarðar s. . . . . | 45.4 | 6.6 | 22 9 | 25.1 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . | 54.8 | 3.5 | 15.1 | 26.6 |
| Þíngeyjar s. . . . . . | 45.5 | 7.4 | 19.0 | 28.1 |
| Norður-Múla s. . . . . | 36.9 | 8.9 | 23.8 | 30.4 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 34.0 | 11.1 | 26.4 | 28.5 |
| Suður-umdæmið . . . . | 43.0 | 7.3 | 13.4 | 36.3 |
| Vestur-umdæmið . . . . | 53.0 | 7.0 | 10.9 | 29.1 |
| Norður- og Austur-umd. . | 43.1 | 8.0 | 21.6 | 27.3 |
| á öllu Íslandi . . . . . | 44.9 | 7.6 | 17.6 | 29.9. |

Yfirlit þetta sýnir, þegar Vestmannaeyja sýsla og Reykjavíkur bær eru frá talin, að af jafnmörgu sauðfè eru ær með lömbum á þessu ári lángflestar í Stranda sýslu (nær því tveir þriðju hlutar alls fjárins þar) og fæstar í Suður-Múla sýslu (einn þriði hluti fjárins); geldar ær aptur á móti eru flestar í Borgarfjarðar sýslu (níundi hluti sauðfjárins þar), en fæstar í Ísafjarðar sýslu (ekki nema 2.3 af hverju 100); þá eru sauðir og hrútar, eldri en veturgamlir, flestir í Suður-Múla sýslu (rúmur fjórði hluti alls sauðfjárins þar), en fæstir í Gullbríngu- og Kjósar sýslu (einúngis 4.2 af hundraði hverju); og loks eru gemlíngar flestir í Gullbríngu- og Kjósar sýslu (hèrumbil tveir fimmtu hlutar), en fæstir í Stranda sýslu (tæpur fjórði hluti).

Beri maður loks tölu sauðfjárins á öllu landinu á þessu ári saman við tölu þess árið 1853, þá gefur það að skilja, eptir því sem hefir verið sýnt að undanförnu í ritum þessum (smbr. einkum II., bls. 855—860, III., bls. 405, 656 og IV., bls. 195). að æði mikið muni vanta á að tala sauðfjárins í landinu enn þá hafi náð sèr, til þess sem hún þá var. Í fardögum 1853 taldist nefnilega svo til, að á öllu Íslandi væri alls 516853 fjár, en í fardögum 1866 er fjártalan ekki nema 393295; sauðfènaður hefir því á þeim 13 árum, sem síðan eru liðin, fækkað á öllu landinu um 123558 tals, eða að tiltölu um 23.9 af hundraði (um tæpan fjórða hluta). Að tiltölu kveður mest að þessari fækkun í Suður-umdæminu og í Vestur-umdæminu, þar sem nefnilega í því fyrra hefir fækkað um 44985 tals eða 31.2 af hundraði, og í hinu síðara um 32282 tals eða 30.5 af hundraði (í hvorutveggju nær því um þriðjúng); en miklu minna hefir að tiltölu fækkað í Norður- og Austur-umdæminu, nefnilega um 46291 tals eða 17.3 af hundraði (rúmlega um sjötta hluta). Eptir eðli sínu hlýtur samt að vera býsna mikill munur á þessu í hinum sèrstöku hèruðum landsins, og það kemur einnig fram, að á þessum 13 árum hefir fjártalan þó hækkað í Vestmannaeyja sýslu og í Reykjavíkur bæ, nefnilega í Vestmannaeyjum um 10 tals eða af 1.3 af hundr., og í Reykjavík um 32 tals eða

30.8 af hundr., en þar á móti hefir hún fækkað í öllum hinum sýslum landsins á þann hátt, sem nú skal sýnt, nefnilega í:

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . | 6206 | 21.3 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 13707 | 35.4 |
| Árness s. . . . . . . . | 16480 | 35.4 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . | 4744 | 39.6 |
| Borgarfjarðar s. . . . . | 3890 | 23.1 |
| Mýra- og Hnappadals s. . | 7226 | 26.3 |
| Snæfellsness s. . . . . | 5503 | 42.6 |
| Dala s. . . . . . . . . | 4439 | 23.5 |
| Barðastrandar s. . . . . | 5870 | 34.8 |
| Ísafjarðar s. . . . . . | 6256 | 31.7 |
| Stranda s. . . . . . . . | 2988 | 29.7 |
| Húnavatns s. . . . . . | 7922 | 13.9 |
| Skagafjarðar s. . . . . | 4498 | 11.6 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . | 6547 | 18.1 |
| þíngeyjar s. . . . . . | 11574 | 23.2 |
| Norður-Múla s. . . . . | 9999 | 20.2 |
| Suður-Múla s. . . . . | 5751 | 16.1. |

Eptir þessu hefir fjárfækkunin á þessu 13 ára tímabili að tölunni verið mest í Árness sýslu og minnst í Stranda sýslu, en að tiltölu hefir hún verið mest í Snæfellsness sýslu, því þar hefir fækkað um 42.6 af hundraði, eða um rúma tvo fimmtu hluti, og þá í Gullbríngu- og Kjósar sýslu, hvar fækkað hefir um tæpa tvo fimmtu hluti. Aptur á hinn bóginn hefir fækkunin á þessu tímabili verið minnst í Skagafjarðar sýslu, því þar hefir fè fækkað einungis um tæpan níunda hluta, og þá í Húnavatns sýslu, hvar fækkunin hefir verið rúmur sjöundi hluti.

Á þessu tímabili eru það einkum eldri sauðir, sem að tiltölu hafa fækkað töluvert; ær með lömbum hafa nefnilega fækkað um 21.1 af hundraði, geldar ær um 12.9 af hundraði, sauðir og

hrútar eldri en veturgamlir um 34.7 af hundraði (um rúman þriðjúng), og gemlíngar um 23.0 af hundraði.

---

### III. GEITFÈ.

Á fardagaári því, sem hèr ræðir um, hefir einnig geitfè á Íslandi eins og undanfarin ár farið nokkuð mínkandi. Í fardögum 1865 er nefnilega talið að verið hafi á öllu Íslandi 322 geitfjár, en um sama leyti 1866 er ekki talið nema 287, og hefir það því á þessu eina ári fækkað um 35 tals, eða að tiltölu um 10.9 af hundraði, og er það nokkuð meira en næst undanfarið ár (smbr. IV., bls. 197). Sè fækkun geitfjárins í landinu miðuð við árið 1853, þá gefur það samt að skilja, að hun verður miklu meiri, því í fardögum 1853 taldist nefnilega 914 geitfjár á öllu landinu, og hefir það því á þessum 13 árum, sem síðan eru liðin, fækkað um 627 tals, eða að tiltölu um 68.6 af hundraði hverju. Þó er mikill munur á þessu í hèruðum landsins þeim, sem geitfè er talið í á þessum árum, því geitfè er nefnilega talið á þenna hátt:

| | árið 1853. | árið 1866. |
|---|---|---|
| Gullbríngu- og Kjósar sýslu . | 8 | » |
| Borgarfjarðar s. . . . . . . . | 4 | 2 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . . | » | 8 |
| Dala s. . . . . . . . . . | 44 | 15 |
| Barðastrandar s. . . . . . . | 21 | » |
| Húnavatns s. . . . . . . . | 16 | 11 |
| Skagafjarðar s. . . . . . . . | 32 | » |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . . | 51 | 8 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . . . | 732 | 243 |
| Norður-Múla s. . . . . . . . | 6 | ». |

Sýnir þetta meðal annars, að bæði er geitfè talið í færri sýslum árið 1866 en árið 1853, og sömuleiðis að tala þess hefir farið mínkandi í sèrhverri sýslu, en mest þó í Þíngeyjar sýslu, þar sem

það á þessu 13 ára tímabili þar hefir fækkað um 489 tals, eða að tiltölu um 66.8 af hverju hundraði. Að öðru leyti er geitfè varla teljandi nema í þíngeyjar sýslu, því af öllu geitfè á Íslandi í fardögum 1866 voru að tiltölu 84.7 af hverju hundraði í henni einni.

---

## IV. HROSS.

Tala hrossa á Íslandi hefir um þrjú næst undanfarin ár farið mínkandi (smbr. III., bls. 658, 778 og IV., bls. 198), og einnig á ári því, sem hèr ræðir um, hafa hross fækkað nokkuð, en þó ekki eins mikið og næst undanfarið ár. Í fardögum 1865 var tala hrossa á öllu landinu nefnilega 35544, en um sama leyti 1866 eru þau einúngis talin 35241, og hafa því hross á þessu eina ári ekki fækkað nema um 303 tals, eða að tiltölu um 0.9 af hundraði (árið næst á undan var fækkun þeirra að tiltölu 1.5 af hundr.) Á þessu er samt mjög mikill munur í umdæmum landsins, þar sem nefnilega hross hafa fækkað i Suður-umdæminu og svo í Vestur-umdæminu, en þar á móti fjölgað lítið eitt í Norður og Austur-umdæminu. Í Suður-umdæminu hafa þannig hross á þessu ári fækkað um 247 tals eða 1.6 að tiltölu af hundraði, og í Vesturumdæminu um 176 tals eða 2.8 af hundraði; en í Norður- og Austur-umdæminu hafa þau fjölgað um 120 tals eða 0.9 að tiltölu af hundraði.

Meiri verður samt munurinn á þessu ári þegar maður skoðar hverja sýslu í landinu sèr, því þá kemur það fram, að tala hrossa hefir fjölgað í þessum 7 sýslum á þann hátt sem nú skal segja, nefnilega í:

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| Borgarfjarðar sýslu . . . . | 53 | 2.8 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . . . | 34 | 4.4 |
| Stranda s. . . . . . . . . | 6 | 0.8 |
| Húnavatns s. . . . . . . . . | 56 | 1.3 |

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| Skagafjarðar s. . . . . . . . | 70 | 2.2 |
| Norður-Múla s. . . . . . . . | 2 | 0.1 |
| Suður-Múla s. . . . . . . . | 43 | 4.0; |

en aptur á hinn bóginn hefir tala hrossa fækkað í hinum 11 sýslum landsins og svo í Reykjavíkur bæ á þenna hátt, nefnilega í:

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . . | 23 | 0.9 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 1 | 2.1 |
| Rángárvalla s. . . . . . . . | 108 | 2.3 |
| Árness s. . . . . . . . . | 61 | 1.5 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 70 | 4.3 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . . | 37 | 13.7 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 60 | 2.9 |
| Snæfellsness s. . . . . . . | 97 | 11.8 |
| Dala s. . . . . . . . . . . | 57 | 4.5 |
| Barðastrandar s. . . . . . . | 2 | 0.3 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . . | 44 | 2.1 |
| þíngeyjar s. . . . . . . . | 7 | 0.4. |

Eptir þessu hefir fjölgun hrossa um fardagaárið 1865—66, þegar Vestmannaeyja sýsla og Reykjavíkur bær eru frá skilin, að tiltölu verið mest í Ísafjarðar sýslu, en minnst í Norður-Múla sýslu. En aptur á móti hafa hross á þessu sama ári að tiltölu fækkað lángmest í Snæfellsness sýslu (11 8 af hundraði, eða rúmur níundi hluti), og þá í Dala sýslu (4 5 af hundraði, eða tæpur tuttugasti hluti); en minnst hefir að tiltölu fækkað í Barðastrandar sýslu og í þíngeyjar sýslu (0.3 og 0.4 af hundraði, eða 3 og 4 af 1000).

Eins og næst undanfarið ár (smbr. IV., bls. 199), eru það einkum úng hross, sem fardagaárið 1865—66 hafa fækkað töluvert; því þar sem hestar og hryssur, fjögra vetra og eldri, á þessu ári einúngis hafa fækkað um 24 tals, eða að tiltölu 0.1 af hundraði, þá hafa á sama ári trippi, veturgömul til þriggja vetra, fækkað um 279 tals eða 3.3 af hundraði.

Hlutfall það, sem í fardögum 1866 var milli beggja þeirra flokka, sem hrossum er skipt í, var á þá leið, að af hverju 100 hrossa á þessu ári voru:

| | hestar og hryssur. | trippi. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýsla . . . . | 80.4 | 19.6 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 97.8 | 2.2 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 66.5 | 33.5 |
| Árness s. . . . . . . . | 74.5 | 25.5 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . | 74.0 | 26.0 |
| Reykjavíkur bær . . . . | 77.3 | 22.7 |
| Borgarfjarðar s. . . . . | 65.9 | 34.1 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 73.3 | 26.7 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 86.4 | 13.6 |
| Dala s. . . . . . . . . | 83.0 | 17.0 |
| Barðastrandar s. . . . . | 88.5 | 11.5 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 88.8 | 11.2 |
| Stranda s. . . . . . . . | 92.1 | 7.9 |
| Húnavatns s. . . . . . . | 75.2 | 24.8 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 68.5 | 31.5 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . | 81.9 | 18.1 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . | 92.9 | 7.1 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 92.0 | 8.0 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 89.3 | 10.7 |
| Suður-umdæmið . . . . | 72.0 | 28.0 |
| Vestur-umdæmið . . . . | 82.6 | 17.4 |
| Norður- og Austur-umd. . . | 79.9 | 20.1 |
| á öllu Íslandi . . . . . | 77.1 | 22.9. |

Að Vestmannaeyja sýslu og Reykjavíkur bæ frá skildum, hafa á þessu ári, eins og næst undanfarið ár, af jafnmörgum hrossum hestar og hryssur, fjögra vetra og eldri, verið flestir í

þíngeyjar sýslu og fæstir í Borgarfjarðar sýslu, en trippi veturgömul til þriggja vetra hafa aptur á móti verið flest í Borgarfjarðar sýslu og fæst í þíngeyjar sýslu.

Beri maður þessu næst tölu hrossa í fardögum 1866 saman við tölu þeirra í fardögum 1853, þá sýnir það sig að tala þeirra hefir fækkað töluvert á þeim 13 árum, sem síðan eru liðin. Í fardögum 1853 var nefnilega tala hrossa á öllu Íslandi 40485, en um sama leyti 1866 eru þau ekki talin nema 35241, og hafa þau því á þessu tímabili fækkað um 5244 tals, eða að tiltölu um 13.0 af hundraði. Að tiltölu hefir fækkunin verið mest í Vestur-umdæminu, nefnilega um 19 2 af hundraði (nær því fimmti hluti), þá í Suður-umdæminu, eða um 14.4 af hundr. (rèttur sjöundi hluti), og minnst í Norður- og Austur-umdæminu, nefnilega einúngis um 8.1 af hundr. (tæpur tólfti hluti).

Meiri er samt munurinn á þessu í sýslum landsins, því á þessu 13 ára tímabili hefir hrossum þó fjölgað í Reykjavíkur bæ um 39 tals eða 20.1 af hundraði, en í öllum sýslum landsins hafa þau á sama tímabili fækkað meir eða minna, nefnilega í:

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . | 496 | 16.3 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 3 | 6.1 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 732 | 13.7 |
| Árness s. . . . . . . . | 709 | 14.7 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 337 | 18.0 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 272 | 12.3 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 445 | 17.9 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 508 | 41.3 |
| Dala s. . . . . . . . . | 262 | 17.7 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 126 | 16.5 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 96 | 10.6 |
| Stranda s. . . . . . . . | 46 | 5.8 |
| Húnavatns s. . . . . . . | 305 | 6.6 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 38 | 1.2 |

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| Eyjafjarðar s. . . . . . . . | 423 | 17.4 |
| þíngeyjar s. . . . . . . . | 289 | 13.1 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 80 | 4.9 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 116 | 9.3. |

Sè nú Vestmannaeyja sýsla frá talin, þá hafa eptir þessu hross á þessu 13 ára tímabili að tiltölu fækkað lángmest í Snæfellsness sýslu (um 41.3 af hundr., eða um rúma tvo fimmtu hluti), og þá í Gullbríngu- og Kjósar sýslu (18.0 af hundraði); en minnst hefir fækkunin að tilltölu verið í Skagafjarðar sýslu (ekki nema 1.2 af hundr., eða hèrumbil 12 af 1000), og þá í Norður-Múla sýslu (4.9 af hundraði, eða um tæpan tuttugasta hluta).

Einkum eru það úng hross, sem á þessu tímabili hafa fækkað töluvert í landinu, því hestar og hryssur, fjögra vetra og eldri, hafa einúngis fækkað að tiltölu um 7.1 af hverju hundraði, en aptur á móti hafa trippi, veturgömul til þrèvetra, fækkað um 28.1 af hundraði, eða um rúman fjórða hluta.

---

það er nú eptir að sýna, eins og áður hefir verið gjört, hvernig hin ýmsu hèruð í landinu sín á milli standa fardagaárið 1865—66, og brúkum vèr til þessa þrennskonar aðferð, nefnilega með því að bera gripatölu saman við fólkstölu, flatarmál hèraða, og dýrleika á jörðum. þess skal getið, að í samanburði þessum er brúkuð fólkstala sú, sem eptir skýrslum presta um fædda og andaða á Íslandi telst að hafa verið við árslokin 1865 (smbr. IV., bls. 175 og 176), en flatarmálið er tekið einúngis á bygðu landi (smbr. I., bls. 106), og jarða dýrleikinn eptir hinni nýju jarðabók frá 1861.

Fyrst tökum vèr þá fólkstöluna til samanburðar, og sýnir það sig þá, að í fardögum 1866 í hverri sýslu, í hverju umdæmi og á öllu landinu hafi komið á hverja 10 manns af fólkstölunni:

| | nautgripir. | sauðfè. | hross. |
|---|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . | 3. 7 | 61. 9 | 6. 9 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 0. 8 | 15. 2 | 0. 9 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 4. 1 | 46. 4 | 8. 5 |
| Árness s. . . . . . . . | 4. 4 | 52. 0 | 7. 1 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 2. 3 | 14. 2 | 3. 0 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . | 0. 4 | 0. 9 | 1. 6 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 4. 0 | 53. 7 | 8. 1 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 3. 8 | 71. 4 | 7. 3 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 2. 3 | 26. 3 | 2. 6 |
| Dala s. . . . . . . . . . | 3. 1 | 63. 4 | 5. 3 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 3. 0 | 40. 7 | 2. 4 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 1. 9 | 26. 0 | 1. 7 |
| Stranda s. . . . . . . . . | 2. 0 | 42. 8 | 4. 5 |
| Húnavatns s. . . . . . . | 2. 9 | 101. 0 | 8. 9 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 3. 5 | 77. 4 | 7. 3 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . | 3. 4 | 62. 8 | 4. 3 |
| þíngeyjar s. . . . . . . | 1. 9 | 66. 5 | 3. 3 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 2. 3 | 95. 6 | 3. 7 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 2. 6 | 86. 1 | 3. 2 |
| Suður-umdæminu . . . . | 3. 4 | 40. 7 | 6. 1 |
| Vestur-umdæminu . . . . | 2. 6 | 43. 2 | 3. 6 |
| Norður- og Austur-umd. . . | 2. 8 | 80. 6 | 5. 2 |
| á öllu Íslandi . . . . . . | 3. 0 | 57. 2 | 5. 1. |

Taki maður í annan stað flatarmálið, þá koma á þessu ári á hverja □ mílu af bygðu landi:

| | nautgripir. | sauðfè. | hross. |
|---|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . | 30 | 509 | 57 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 140 | 2573 | 153 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 47 | 543 | 99 |

| | nautgripir. | sauðfè. | hross. |
|---|---|---|---|
| Árness s. . . . . . . . . | 43 | 501 | 68 |
| Gullbríngu- og Kjósar s.[1] . | 53 | 320 | 77 |
| Borgarfjarðar s. . . . . | 54 | 717 | 108 |
| Mýra- og Hnappadals s. . | 38 | 722 | 73 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 32 | 371 | 36 |
| Dala s. . . . . . . . . | 29 | 578 | 49 |
| Barðastrandar s. . . . . | 33 | 458 | 27 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 27 | 385 | 23 |
| Stranda s. . . . . . . | 21 | 444 | 47 |
| Húnavatns s. . . . . . | 29 | 1003 | 88 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 41 | 900 | 85 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . | 34 | 617 | 42 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . . | 8 | 287 | 14 |
| Norður-Múla s. . . . . | 9 | 392 | 15 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 17 | 547 | 21 |
| Suður-umdæminu . . . . | 43 | 515 | 78 |
| Vestur-umdæminu . . . | 30 | 498 | 42 |
| Norður- og Austur-umd. . | 18 | 520 | 33 |
| á öllu Íslandi . . . . . | 27 | 515 | 46. |

Sè loks jarðadýrleikinn tekinn til samanburðar, þá koma á þessu ári á hver 100 jarðarhundruð:

| | nautgripir. | sauðfè. | hross. |
|---|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . | 45 | 749 | 83 |
| Vestmannaeyja s. . . . . . | 11 | 199 | 12 |
| Rángárvalla s. . . . . . . | 29 | 334 | 61 |
| Árness s. . . . . . . . . . | 29 | 349 | 48 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 24 | 143 | 34 |

[1]) Hèr er Reykjavíkur bær talinn með Gullbríngu- og Kjósar sýslu; og sama er einnig gjört í næsta yfirliti hèr á eptir.

| | nautgripir. | sauðfè. | hross. |
|---|---|---|---|
| Borgarfjarðar s. . . . . . . . | 26 | 347 | 52 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . . | 25 | 473 | 48 |
| Snæfellsness s. . . . . . . . | 20 | 226 | 22 |
| Dala s. . . . . . . . . . . | 19 | 391 | 33 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 21 | 284 | 16 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . . . | 25 | 356 | 21 |
| Stranda s. . . . . . . . . | 21 | 457 | 48 |
| Húnavatns s. . . . . . . . . | 20 | 682 | 60 |
| Skagafjarðar s. . . . . . . . | 20 | 446 | 42 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . | 21 | 361 | 25 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . . . | 15 | 543 | 27 |
| Norður-Múla s. . . . . . . . | 23 | 947 | 37 |
| Suður-Múla s. . . . . . . . | 24 | 786 | 29 |
| Suður-umdæminu . . . . . | 29 | 348 | 53 |
| Vestur-umdæminu . . . . . | 22 | 360 | 30 |
| Norður- og Austur-umd. . . . | 20 | 583 | 37 |
| á öllu Íslandi . . . . . . . | 23 | 453 | 41. |

Með því að skoða þessi þrjú yfirlit nokkuð nákvæmar, og með því þarhjá að sleppa Vestmannaeyja sýslu í þeim öllum og Reykjavíkur bæ í hinu fyrsta þeirra, kemst maður að raun um, að þegar fólkstalan er tekin til samanburðar, þá hefir nautpeníngur á fardagaárinu 1865—66 verið flestur í Árness sýslu og þá í Rángárvalla sýslu (og nokkuð líkt átti sèr stað í fardögum 1865, smbr. IV., bls. 205), en fæstur í Ísafjarðar og Þíngeyjar sýslum, og þá í Stranda sýslu; sauðfènaður hefir verið flestur í Húnavatns sýslu og þá í Norður-Múla sýslu (öldúngis eins og í fardögum 1865), en fæstur í Gullbríngu- og Kjósar sýslu og þá í Ísafjarðar sýslu (eins og um fardagaleytið 1865); en hross hafa verið flest í Húnavatns sýslu og þá í Rángárvalla sýslu (það gagnstæða átti sèr stað í fardögum 1865), en fæst í Ísafjarðar sýslu og þá í Barða-

Framhald

| | Sjóvetlíngar. | | Fíngra-vetlíngar. | | Vaðmál. | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | pör | | pör | | álnir | |
| **Suður-umdæmið.** | til Danm. | til útland. | til Danm. | til útland. | til Danm. | til útland. |
| Reykjavíkur kaupstaður. | 1060 | » | » | » | » | » |
| Gullbríngu sýsla . . . | » | » | » | » | » | » |
| Árness s. . . . . . . | » | » | » | » | » | » |
| Vestmannaeyja s. . . . | » | » | » | » | » | » |
| samtals . . | 1060 | » | » | » | » | » |
| **Vestur-umdæmið.** | | | | | | |
| Snæfellsness sýsla . . . | 1070 | » | » | » | » | » |
| Barðastrandar s. . . . | 415 | » | » | » | » | » |
| Ísafjarðar s. . . . . . | 1680 | » | » | » | » | » |
| Stranda s. . . . . . . | » | » | » | » | » | » |
| samtals . . | 3165 | » | » | » | » | » |
| **Norður- og Austur-umdæmið.** | | | | | | |
| Húnavatns sýsla . . . | 150 | » | » | » | » | » |
| Skagafjarðar s. . . . . | 1783 | » | » | » | » | » |
| Eyjafjarðar s. . . . . | 20596 | » | 312 | » | 150 | » |
| Þíngeyjar s. . . . . . | 150 | » | 432 | » | 81 | » |
| Norður-Múla s. . . . . | » | » | » | » | » | » |
| Suður-Múla s. . . . . | » | » | » | » | 143 | » |
| samtals . . | 22679 | » | 744 | » | 374 | » |
| frá öllu Íslandi . . | 26904 | » | 744 | » | 374 | » |
| alls . . | 26904 | | 744 | | 374 | |

af B.

| Bein. | | Háfsroð. | | Hross, lifandi. | | Sauðfè, lifandi. | | Hafurstökur. | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| lisipund | | tals | | tals | | tals | | pund | |
| til Danm. | til útland. | til Danm. | til útland. | til Danm. | til útland. | til Danm. | til útland. | til Danm. | til útland. |
| » | » | » | » | 122 | 385 | » | 11 | » | » |
| » | » | » | » | » | » | » | » | » | » |
| » | » | » | » | » | » | » | » | » | » |
| » | » | » | » | 2 | » | » | » | » | » |
| » | » | » | » | 124 | 385 | » | 11 | » | » |
| » | » | » | » | » | » | » | » | » | » |
| 100 | » | » | » | 5 | » | » | » | » | » |
| » | » | » | » | » | » | » | » | » | » |
| » | » | » | » | 1 | » | » | » | » | » |
| 100 | » | » | » | 6 | » | » | » | » | » |
| 700 | » | » | » | 2 | » | » | » | » | » |
| » | » | » | » | » | 111 | » | » | » | » |
| 100 | 900 | » | » | » | » | » | » | 60 | » |
| » | » | » | » | » | » | » | » | » | » |
| » | » | » | » | » | » | » | » | » | » |
| » | » | » | » | » | » | » | 2174 | » | » |
| 900 | 900 | » | » | 2 | 111 | » | 2174 | 60 | » |
| 900 | 900 | » | » | 132 | 496 | » | 2185 | 60 | » |
| 1800 | | » | | 628 | | 2185 | | 60 | |

C. Skýrsla um siglíngar til sèrhvers verzlunarstaðar á Íslandi árið 1866, eptir því hvaðan skipin sigldu til landsins.

| Verzlunarstaðir. | frá Danmörku | | frá öðrum löndum | | samtals frá útlöndum | | frá höfnum á Íslandi | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | skip tals | lesta-rúm | skip tals | lesta-rúm | skip tals | lesta-rúm | skip tals | lesta-rúm |
| Akureyri . . . . . . . . | 5 | 256 | 2 | 133 | 7 | 389 | 3 | 122½ |
| Berufjörður. . . . . . . | 4 | 117½ | » | » | 4 | 117½ | 3 | 129½ |
| Bildudalur . . . . . . . | 1 | 36½ | » | » | 1 | 36½ | 3 | 131 |
| Borðeyri . . . . . . . . | 1 | 56½ | » | » | 1 | 56½ | 2 | 153 |
| Brákarpollur . . . . . . | » | » | » | » | » | » | 5 | 201½ |
| Búðir . . . . . . . . . | 4 | 82½ | » | » | 4 | 82½ | » | » |
| Dýrafjörður. . . . . . . | » | » | » | » | » | » | 6 | 211 |
| Eskifjörður . . . . . . . | 3 | 129 | 1 | 263½ | 4 | 392½ | 4 | 166½ |
| Eyrarbakki . . . . . . . | 3 | 153½ | 2 | 123 | 5 | 276½ | » | » |
| Flatey . . . . . . . . . | 1 | 21 | » | » | 1 | 21 | 3 | 103 |
| Grundarfjörður . . . . . | » | » | » | » | » | » | » | » |
| Hafnarfjörður . . . . . . | 6 | 190 | 4 | 204 | 10 | 394 | 18 | 1127 |
| Hofsós . . . . . . . . . | 4 | 165 | 3 | 142 | 7 | 307 | 2 | 80½ |
| Húsavík . . . . . . . . | 3 | 139½ | » | » | 3 | 139½ | 1 | 82 |
| Ísafjörður . . . . . . . | 8 | 247 | 5 | 250 | 13 | 497 | 3 | 90½ |
| Keflavík . . . . . . . . | 1 | 21½ | 3 | 94 | 4 | 115½ | 7 | 329 |
| Krossvík . . . . . . . . | » | » | » | » | » | » | 1 | 27½ |
| Ólafsvík . . . . . . . . | 4 | 142 | 1 | 37½ | 5 | 179½ | 2 | 51 |
| Papafjarðarós . . . . . . | 2 | 55½ | » | » | 2 | 55½ | 1 | 37½ |
| Patreksfjörður. . . . . . | 1 | 39 | » | » | 1 | 39 | 4 | 111½ |
| Raufarhöfn . . . . . . . | 1 | 29½ | » | » | 1 | 29½ | 2 | 87 |
| Reykjarfjörður . . . . . | 1 | 29½ | » | » | 1 | 29½ | » | » |
| Reykjavík . . . . . . . | 19 | 1266½ | 18 | 1001½ | 37 | 2268 | 50 | 2371 |
| Sauðárkrókur . . . . . . | » | » | » | » | » | » | 2 | 75½ |
| Seyðisfjörður . . . . . . | 3 | 135 | 9 | 522½ | 12 | 657½ | 5 | 373 |
| Siglufjörður. . . . . . . | 2 | 66 | » | » | 2 | 66 | 2 | 56½ |
| Skagaströnd . . . . . . | 5 | 291½ | » | » | 5 | 291½ | 2 | 69 |
| Straumfjörður . . . . . . | » | » | » | » | » | » | 4 | 116 |
| Stykkishólmur. . . . . . | 4 | 129½ | » | » | 4 | 129½ | 9 | 326½ |
| Vestmannaeyjar . . . . . | 6 | 210 | 2 | 75½ | 8 | 285½ | 1 | 31½ |
| Vopnafjörður . . . . . . | 4 | 195 | » | » | 4 | 195 | 5 | 236 |
| Þórshöfn . . . . . . . . | 2 | 101½ | » | » | 2 | 101½ | 2 | 103 |
| Önundarfjörður . . . . . | » | » | » | » | » | » | 3 | 98½ |
| alls . . . | 98 | 4306 | 50 | 2846½ | 148 | 7152½ | 155 | 7098 |

D. Skýrsla um siglíngar til Íslands árið 1866, eptir því hvar skipin áttu heima.

| Nöfn landa og staða, hvar skipin áttu heima. | árið 1866. | |
|---|---|---|
| | skip tals | lestarúm |
| Árós | 3 | 73 |
| Assens | 2 | 86 |
| Drageyri | 3 | 193½ |
| Horsens | 1 | 24½ |
| Kastrup | 1 | 47 |
| Kaupmannahöfn | 92 | 4553 |
| Kjöge | 1 | 29½ |
| Marstal | 1 | 63 |
| Nakskov | 2 | 53 |
| Nibe | 1 | 44 |
| Ribe | 1 | 21½ |
| Rúðkaupángur | 3 | 103 |
| Rönne | 5 | 151½ |
| Svendborg | 6 | 257 |
| alls í Danmörku | 122 | 5699½ |
| Ísland | 9 | 300 |
| Noregur | 4 | 103 |
| England | 10 | 871½ |
| Holland | 1 | 77 |
| Spánn | 2 | 101½ |
| samtals | 148 | 7152½ |

Taki maður þá fyrst skýrsluna A um aðfluttar vörur á þessu ári til yfirvegunar, þá sýnir það sig, að af kornvörum þeim (rúgur, bygg, hafrar, bánkabygg, baunir, bygg- og bóghveitigrjón og rúgmjöl), sem fluttust til Íslands árið 1866, og sem samtals voru 59,570 tunnur (árið 1862 voru það ekki nema 49,081 tunnur, smbr. III., bls. 586), fluttust 20,318 tunnur til Suður-umdæmisins, 11,368 tunnur til Vestur-umdæmisins og 27,884 tunnur til Norður- og Austurumdæmisins; hlutfallið milli umdæmanna er því á þessu ári mjög líkt og áður hefir verið, nefnilega að töluvert meira er flutt af kornvöru til Norður- og Austur-umdæmisins en til hvors hinna (smbr. I., bls. 75 og 574, III., bls. 586 og IV., bls. 91). Mestur var aðflutníngurinn, eins á þessu ári og að undanförnu, af rúgi, nefnilega 31,869 tunnur, eða rúmlega eins mikið og af hinum korntegundunum samtöldum.

Af brauði (hveitibrauð allskonar og svartabrauð) fluttust þetta ár til alls Íslands 249,001 pund, nefnilega til Suðurumdæmisins 93,151 pund, til Vestur-umdæmisins 57,691 pund, og til Norður- og Austur-umdæmisins 98,159 pund; hefir þá eptir þessu verið líkt um aðflutníng á þessari vöru til Suður-umdæmisins og til Norður- og Austur-umdæmisins, og er það líkt og áður hefir verið. Í samanburði við hveitibrauð er aðflutníngurinn á svartabrauði á seinni árum varla teljandi, því á þessu ári fluttust af hinni síðar nefndu brauðtegund ekki nema 19,445 pund, eða hérumbil tólfti hluti mót hveitibrauði.

Af ölfaungum (brennivín, romm, púnsextrakt, vín, kryddvín, mjöður og bjór), fluttust þetta ár samtals til Íslands 654,366 pottar, og þar af til Suður-umdæmisins 251,470 pottar, til Vestur-umdæmisins 96,513 pottar, en til Norður-umdæmisins 306,383 pottar, eða nærri því eins mikið og til beggja hinna umdæmanna að samtöldu. Að undanförnu hefir það verið Suður-umdæmið, sem í þessu hefir skarað fram úr hinum, en árið 1865, og þó einkum árið 1866, er lángmestur aðflutníngur af ölfaungum til Norður- og Austur-umdæmisins (smbr. I., bls. 75 og IV., bls. 91). Sama verður ofaná, þegar menn skoða hverja tegund ölfánga þeirra, sem hér eru talin, nefnilega að mest hefir á þessu ári verið flutt til Norður- og Austur-

umdæmisins; þó má frá þessu undan skilja bjór, því af honum hefir lángmest verið flutt til Suður-umdæmisins, nefnilega 21,822 pottar, og þá til Norður- og Austur-umdæmisins, nefnilega 11,228 pottar; en það sem af honum var flutt til Vestur-umdæmisins, er í samanburði við hin ömtin varla teljandi, því það voru einúngis 1837 pottar.

Kaffebaunir fluttust á þessu ári til alls landsins samtals 439,866 pund, og þar af til Suður-umdæmisins 198,000 pund, til Norður- og Austur-umdæmisins 150,391 pund, en til Vestur-umdæmisins ekki nema 91,475 pund. Þetta er nokkuð líkt því sem áður hefir verið (smbr. IV., bls. 92), en þó má geta þess, að á þessu ári hefir verið flutt töluvert meira af kaffebaunum til Norður- og Austur-umdæmisins en árið næst á undan, þar sem á hinn bóginn aðflutníngurinn hefir verið minni á þessu ári en næst undanfarið ár til beggja hinna umdæmanna. Um kafferót, sem er náskyld þessari vörutegund, er sama að segja og árið næst á undan, nefnilega að lángmest er flutt af henni til Suður-umdæmisins, því af þeim 98,867 pundum, sem árið 1866 alls fluttust til Íslands, voru 56,826 pund flutt til Suður-umdæmisins (til Reykjavíkur kaupstaðar eins 42,434 pund, eða eins mikið og til beggja hinna umdæmanna að samtöldu), 19,972 pund til Vestur-umdæmisins, og 22,067 pund til Norður- og Austur-umdæmisins. Aptur á móti hefir aðflutníngur á þessu ári bæði af sjokolade og tegrasi verið lángmestur til Norður- og Austur-umdæmisins, nefnilega eins mikið af hvoru fyrir sig eins og til hinna beggja umdæmanna að samtöldu.

Af allskonar sykri fluttust árið 1866 samtals til alls Íslands 514,451 pund, nefnilega til Suður-umdæmisins 194,687 pund, til Vestur-umdæmisins 110,317 pund, en mest til Norður- og Austur-umdæmisins eða 209,447 pund; hlutfallið milli umdæmanna er því nokkuð líkt og það hefir verið að undanförnu (smbr. I., bls. 75 og bls. 575, III., bls, 587 og IV., bls. 92). Skoði maður hverja sykurtegund sèr, þá var mest flutt til Suður-umdæmisins af kandissykri, eða 131,858 pund af 350,857 pundum, sem flutt voru til alls landsins; af hvítasykri aptur á móti var lángmest flutt til Norður- og Austur-umdæmisins, eða 63,764 pund af 123,046 pundum til

alls landsins; en af púðursykri var aðflutníngurinn nokkuð meiri til Suður-umdæmisins, nefnilega 20,150 pund mót 16,564 pundum, en til Vestur-umdæmisins fluttust af því að eins 3834 pund. Síróp má einnig telja hèr; en af því fluttist lángmest á þessu ári, eins og að undanförnu, til Suður-umdæmisins, nefnilega 8802 pund af 12,990 pundum til alls landsins (til Reykjavíkur kaupstaðar eins 6408 pund, eða hèrumbil helmíngur alls þess aðflutta), en til Norður- og Austur-umdæmisins ein 1215 pund.

Af allskonar tóbaki fluttust árið 1866 alls 130,927 pund til Íslands, og af þeim hèrumbil jafn mikið til Suður-umdæmisins og til Norður- og Austur-umdæmisins, nefnilega til hins fyrr nefnda 51,793 pund, og til hins síðar nefnda 51,924 pund, en til Vestur-umdæmisins ekki nema 27,210 pund, og er þetta nokkuð líkt og það var næst undanfarið ár (smbr. IV, bls. 93). Eins og að undanförnu var aðflutníngurinn á þessu ári einnig lángmestur af neftóbaki, nefnilega 76,023 pund, eða töluvert meira en af hinum tóbakstegundunum samtöldum. Hèr má einnig telja vindla, og hefir á þessu ári verið flutt nokkuð meir af þeim til landsins en næst undanfarið ár, nefnilega 262,800 tals, og þar af nær því helmíngurinn til Suður-umdæmisins, eða 114,000 (til Reykjavíkur kaupstaðar eins jafn mikið og til alls Norður- og Austur-umdæmisins).

Um salt er að vísu sama að segja og áður hefir átt sèr stað, að mest er flutt af því til Suður-umdæmisins, en þó er munurinn á umdæmum landsins hvergi nærri eins mikill og verið hefir. Árið 1866 fluttust nefnilega alls 11,243 tunnur af salti til alls Íslands, en af þessum aðflutníngi komu 6316 tunnur á Suður-umdæmið, 3350 tunnur á Vestur-umdæmið, og ekki nema 1577 tunnur á Norður- og Austur-umdæmið; af kaupstöðum landsins var mest flutt til Reykjavíkur af þessari vörutegund, eða 4011 tunnur, og svo til Ísafjarðar.

Af steinkolum hefir árið 1866 verið flutt til Íslands alls 17,797 tunnur, og þar af til Suður-umdæmisins 5615 tunnur, til Norður- og Austur-umdæmisins 9975 tunnur. og til Vestur-umdæmisins ekki nema 2207 tunnur. Hlutfallið milli umdæmanna er því á þessu ári mjög ólíkt, og miklu ólíkara en það nokkru sinni áður

hefir verið (smbr. I., bls. 575, III., bls. 588 og IV., bls. 93). Einkum hefir á þessu ári verið flutt mikið af steinkolum til Norður-Múla sýslu, nefnilega 9097 tunnur, en þetta mun eiga rót sína í því, að á Seyðisfirði hafa hinir útlendu hvalveiðamenn höfuðaðsetur sitt, en þeir brúka til þessara veiða eingaungu gufuskip.

Eins og áður hefir átt sèr stað, þá er ekki teljandi að hampur á þessu ári hafi verið fluttur nema til Suður-umdæmisins, einkum til Reykjavíkur; því af þeim 18,402 pundum, sem af þessari vörutegund fluttust á þessu ári til alls landsins, koma 10,600 pund á þenna eina kaupstað, og 6397 pund á Gullbríngu sýslu, en til Vestur-umdæmisins voru ekki flutt nema ein 36 pund, og til Norður- og Austur-umdæmisins 445 pund. Allt öðru máli er að gegna hvað aðflutníng á færum snertir, því hlutfallið milli umdæmanna er hèr mjög svo líkt; á þessu ári fluttust nefnilega til alls landsins 13,883 færi, og voru af þeim til Suður-umdæmisins flutt 4753, til Vestur-umdæmisins 4497, og til Norður- og Austur-umdæmisins 4633.

Af járni fluttust árið 1866 til Íslands alls 137,452 pund, en þaraf var flutt mest til Norður- og Austur-umdæmisins, eða 65,438 pund, og svo til Suður-umdæmisins 52,004 pund, en aptur á móti til Vestur-umdæmisins ekki nema 20,010 pund. Líkt var einnig hlutfallið milli umdæmanna hvað aðflutníng á stáli á þessu ári snertir, að lángmest fluttist af því til Norður- og Austur-umdæmisins, nefnilega 2626 pund, eða nær því helmíngur þess sem fluttist til alls landsins af þessari vörutegund, sem voru 5425 pund.

Af allskonar trjávið (stórviður, plánkar, borð og spírur) fluttist á þessu ári til alls Íslands 92,283 tals, en hlutfallið milli umdæmanna er á þessu ári nokkuð ólíkt, því til Suður-umdæmisins fluttist nefnilega 29,746 tals, til Vesturumdæmisins 13,341, en til Norður- og Austur-umdæmisins 49,196, eða rúmlega eins milkið og til beggja hinna umdæmanna að samtöldu.

Þannig hefir í stuttu máli verið skýrt frá hinum helztu vörutegundum, sem taldar eru að fluttar hafi verið til Íslands árið 1866, eins og vèr einnig höfum sýnt hlutfallið milli umdæmanna í þessu efni og borið það saman við eldri tíma. En ekki þykir samt óþarfi

að bera aðflutníng til landsins á þessu ári saman við næst undanfarið ár, og skal því hèr skýra frá, hversu mikið af hverri vörutegund hafi verið flutt til alls Íslands á þeim tveim árum 1865 og 1866; en það var á þessa leið:

| | árið 1865. | árið 1866. |
|---|---|---|
| Rúgur, tunnur | 35206 | 31869 |
| Bygg, tunnur | 397 | 229 |
| Hafrar, tunnur | 251 | 310 |
| Bánkabygg, tunnur | 19563 | 16479 |
| Baunir, tunnur | 4177 | 4481 |
| Bygggrjón, tunnur | 195 | 103 |
| Rúgmjöl, tunnur | 6390 | 6099 |
| Hveitimjöl, pund | 55037 | 36399 |
| Byggmjöl, pund | 2528 | » |
| Hveitibrauð, pund | 308647 | 229556 |
| Svartabrauð, pund | 24427 | 19445 |
| Jarðepli, tunnur | 282 | 323 |
| Brennivín, pottar | 608864 | 529426 |
| Romm, pottar | 25273 | 31457 |
| Púnsextrakt, pottar | 16323 | 15198 |
| Vín, pottar | 27107 | 33035 |
| Kryddvín, pottar | 9193 | 9441 |
| Mjöður, pottar | 769 | 922 |
| Bjór, pottar | 44588 | 34877 |
| Edik, pottar | 10437 | 6885 |
| Kaffebaunir, pund | 420298 | 439866 |
| Kafferót, pund | 109639 | 98867 |
| Sjokolade, pund | 8942 | 9225 |
| Tegras, pund | 1414 | 954 |
| Kandís-sykur, pund | 390425 | 350857 |
| Hvíta-sykur, pund | 138946 | 123046 |
| Púður-sykur, pund | 42746 | 40548 |
| Sírop, pund | 17507 | 12990 |
| Gráfíkjur, pund | 16958 | 18089 |

| | árið 1865. | árið 1866. |
|---|---|---|
| Steinfíkjur, pund . . . . . . . . | 7045 | 6612 |
| Rúsínur, pund . . . . . . . . . | 22463 | 25721 |
| Hrísgrjón, pund . . . . . . . . | 115731 | 228365 |
| Blaðatóbak, pund . . . . . . . . | 10563 | 7680 |
| Neftóbak, pund . . . . . . . . . | 62884 | 76023 |
| Munntóbak, pund . . . . . . . . | 36280 | 33710 |
| Kardustóbak, pund . . . . . . . | 13504 | 13514 |
| Vindlar, tals . . . . . . . . . . | 236100 | 262800 |
| Salt, tunnur . . . . . . . . . . | 10291 | 11243 |
| Steinkol, tunnur . . . . . . . . | 20015 | 17797 |
| Tjara, tunnur . . . . . . . . . | 687 | 568 |
| Járn, pund . . . . . . . . . . | 122240 | 137452 |
| Stál, pund . . . . . . . . . . | 6442 | 5425 |
| Stórviður, tals . . . . . . . . . | 8576 | 11366 |
| Plánkar, tals . . . . . . . . . | 7436 | 6393 |
| Borð, tals . . . . . . . . . . . | 85886 | 70326 |
| Spírur, tals . . . . . . . . . . | 3888 | 4198 |
| Hampur, pund . . . . . . . . . | 32654 | 18402 |
| Hör, pund . . . . . . . . . . | 1009 | 715 |
| Færi, tals . . . . . . . . . . | 16437 | 13883 |
| Seglgarn, pund . . . . . . . . . | 6115 | 4922 |
| Kaðall, pund . . . . . . . . . . | 36330 | 31869 |
| Skinn, sútuð, pund . . . . . . . | 11490 | 11909 |
| Skinn, ósútuð, pund . . . . . . . | 4901 | 4409 |
| Indigó, pund . . . . . . . . . . | 542 | 596 |
| Litunartrè, pund . . . . . . . . | 14863 | 25175 |
| Korkur, pund . . . . . . . . . | 2500 | 2570 |
| Álún, pund . . . . . . . . . . | 883 | 546 |
| Sápa, pund . . . . . . . . . . | 31547 | 31055 |
| Pappír, bækur . . . . . . . . . | 37868 | 23189 |
| Púður, pund . . . . . . . . . | 2827 | 2302 |
| Blý og högl, pund . . . . . . . | 13928 | 12232 |
| Látún, pund . . . . . . . . . . | 122 | 335 |

| | árið 1865. | árið 1866. |
|---|---|---|
| Hverfusteinar, tals . . . . . . . | 444 | 259 |
| Brýni, tals . . . . . . . . . . | 7937 | 7229 |
| Pottar, tals . . . . . . . . . . | 1311 | 1509 |
| Katlar, tals . . . . . . . . . . | 321 | 180 |
| Naglar, hundrað . . . . . . . . | 45603 | 44262 |
| Hnífar, tals . . . . . . . . . . | 18606 | 12307 |
| Skæri, tals . . . . . . . . . . | 4533 | 2896 |
| Þjalir, tals . . . . . . . . . . | 7213 | 4802 |
| Hestajárn, gángur . . . . . . . | 5381 | 6250 |
| Skóflur, tals . . . . . . . . . | 445 | 341 |
| Sagarblöð, tals . . . . . . . . | 57 | 181 |
| Lásar, tals . . . . . . . . . . | 192 | 414 |
| Bandprjónar, tals . . . . . . . | 2590 | 7268 |
| Hnappar, tylftir . . . . . . . . | 5428 | 5433 |
| Leirker, tals . . . . . . . . . | 57890 | 35439 |
| Rokkar, tals . . . . . . . . . . | 171 | 203 |
| Speiglar, tals . . . . . . . . . | 393 | 162 |
| Höfuðkambar, tals . . . . . . . | 3604 | 1538 |
| Almanök, tals . , . . . . . . . | 1058 | 296 |
| Klæði, álnir . . . . . . . . . . | 6852 | 5202 |
| Lèrept, álnir . . . . . . . . . | 235631 | 248624 |
| Dúkur, álnir . . . . . . . . . . | 128605 | 101612 |
| Boldáng, álnir . . . . . . . . . | 17874 | 19465 |
| Herðaklútar, tals . . . . . . . . | 1818 | 2386 |
| Lèreptsklútar, tals . . . . . . . | 28972 | 23482 |
| Silkiklútar, tals . . . . . . . . | 2655 | 1834 |
| Axlabönd, pör . . . . . . . . . | 204 | » |
| Ullarkambar, pör . . . . . . . . | 4017 | 4232 |
| Aunglar, tals . . . . . . . . . | 592800 | 480300 |
| Silkitvinni, pund . . . . . . . . | 395 | 355 |
| Hörtvinni, pund . . . . . . . . | 448 | 362 |
| Hattar, tals . . . . . . . . . . | 5806 | 2500 |
| Húfur, tals . . . . . . . . . . | 5866 | 5470 |
| Ullargarn, pund . . . . . . . . | 53 | ». |

Strax við fljóta yfirskoðun sýnir yfirlit þetta, að aðflutníngur til landsins á vel flestum vörutegundum hefir verið minni árið 1866 en árið 1865, og á sumum þeirra jafnvel svo að miklu nemur. Nú til þess að gjöra mönnum hægara fyrir í þessu efni, þá skal hèr sýna hversu mikið aðflutníngurinn á hverri vörutegund að tiltölu eða af hundraði hverju hafi mínkað eða aukizt, og kemur það þá fram, að aðflutníngur hefir verið minni árið 1866 en næst undanfarið ár á þeim 58 vörutegundum sem nú skal telja, og á þenna hátt:

| | af 100. |
|---|---|
| Rúgur | 9.5 |
| Bygg | 42.3 |
| Bánkabygg | 15.8 |
| Bygggrjón | 47.2 |
| Rúgmjöl | 4.5 |
| Hveitimjöl | 33.8 |
| Hveitibrauð | 25.6 |
| Svartabrauð | 20.4 |
| Brennivín | 13.0 |
| Púnsextrakt | 6.9 |
| Bjór | 22.2 |
| Edik | 34.0 |
| Kafferót | 9.8 |
| Tegras | 32.5 |
| Kandís-sykur | 10.1 |
| Hvíta-sykur | 11.4 |
| Púður-sykur | 5.1 |
| Síróp | 25.8 |
| Steinfíkjur | 6.1 |
| Blaðatóbak | 27.2 |
| Munntóbak | 7.1 |
| Steinkol | 11.1 |
| Tjara | 17.3 |
| Stál | 15.8 |

| | af 100. |
|---|---|
| Plánkar | 14.0 |
| Borð | 18.1 |
| Hampur | 43.6 |
| Hör | 29.1 |
| Færi | 15.5 |
| Seglgarn | 19.5 |
| Kaðall | 12.3 |
| Skinn, ósútuð | 10.0 |
| Álún | 37.0 |
| Sápa | 1.6 |
| Pappír | 38.8 |
| Púður | 18.6 |
| Blý og högl | 12.2 |
| Hverfusteinar | 41.7 |
| Brýni | 8.1 |
| Katlar | 43.9 |
| Naglar | 2.9 |
| Hnífar | 33.9 |
| Skæri | 36.1 |
| Þjalir | 33.4 |
| Skóflur | 23.4 |
| Leirker | 38.8 |
| Speiglar | 58.1 |
| Höfuðkambar | 57.3 |
| Almanök | 72.0 |
| Klæði | 24.1 |
| Dúkur | 21.0 |
| Lèreptsklútar | 18.9 |
| Silkiklútar | 30.9 |
| Aunglar | 19.0 |
| Silkitvinni | 10.1 |
| Hörtvinni | 19.2 |
| Hattar | 56.9 |
| Húfur | 6.7. |

Aptur á hinn bóginn hefir aðflutníngur árið 1866 verið meiri en næst undanfarið ár á þeim 35 vörutegundum, som nú skal telja, og á þenna hátt:

| | af 100. |
|---|---|
| Hafrar | 23.5 |
| Baunir | 7.3 |
| Jarðepli | 17.5 |
| Romm | 24.5 |
| Vín | 2.2 |
| Kryddvín | 2.7 |
| Mjöður | 2.0 |
| Kaffebaunir | 4.7 |
| Sjokolade | 3.2 |
| Gráfíkjur | 6.7 |
| Rúsínur | 14.5 |
| Hrísgrjón | 97.3 |
| Neftóbak | 20.9 |
| Kardustóbak | 0.1 |
| Vindlar | 11.3 |
| Salt | 9.2 |
| Járn | 18.2 |
| Stórviður | 32.5 |
| Spírur | 8.0 |
| Skinn, sútuð | 3.7 |
| Indigó | 10.0 |
| Litunartrè | 69.4 |
| Korkur | 2.8 |
| Látún | 175.3 |
| Pottar | 15.1 |
| Hestajárn | 16.1 |
| Sagarblöð | 217.5 |
| Lásar | 115.6 |
| Bandprjónar | 180.6 |
| Hnappar | 0.1 |
| Rokkar | 18.7 |

| | |
|---|---|
| Lèrept . . . . . . . . . . . | 5. 5 |
| Boldáng. . . . . . . . . . . | 8. 9 |
| Herðaklútar . . . . . . . . . . | 31. 2 |
| Ullarkambar . . . . . . . . . | 5. 3. |

---

þessu næst er að taka skýrsluna B yfir vörur fluttar frá Íslandi árið 1866 til yfirvegunar, og skulu þá við hana gjörðar þessar athugasemdir.

Af fiski (saltfiski og hörðum fiski) var árið 1866 flutt frá Íslandi alls 11,179 skippund. Eins og að undanförnu var lángmest af þessari vörutegund flutt frá Suður-umdæminu, nefnilega 7479 skippund (einkum frá Reykjavíkur kaupstað og frá Gullbríngu sýslu; frá þeim nefnilega 6597 skippund, eða rúmur helmíngur alls þess sem fluttist frá öllu Íslandi), og svo frá Vestur-umdæmiuu 3616 skippund (þaðan einkum frá Ísafjarðar sýslu, eða 2600 skippund); þar á móti er það lítið, sem af þessari vöru var flutt frá Norður- og Austur-umdæminu, nefnilega ekki nema 84 skippund (mest af því frá Suður-Múla sýslu, eða 54 skippund). Söltuð hrogn hafa eins og að undanförnu eingaungu verið flutt frá Suður-umdæminu, einkum frá Reykjavíkur kaupstað, eða þaðan 395 tunnur eða rúmur helmíngur af þeim 770 tunnum, sem á þessu ári alls fluttust frá Íslandi. Söltuð síld hefir ekki verið flutt út á þessu ári, heldur en tvö næst undanfarin ár, og útflutníngur þessarar vörutegundar hefir einnig á seinni árum varla verið teljandi, t. a. m. árið 1862 einar 3 tunnur frá öllu landinu. Af söltuðum laxi er á þessu ári flutt út 672 lísipund alls, og er mest af þessu flutt frá Norður- og Austur-umdæminu, nefnilega 476 lísipund (einkum frá Húnavatns sýslu, eða 420 lísipund).

Af lýsi (og er þar talið allskonar lýsi, bæði þorskalýsi, hvallýsi, hákarlslýsi og selslýsi) hefir á þessu ári verið flutt frá Íslandi alls 8952 tunnur. Lángmestur hefir útflutníngurinn verið frá Norður- og Austur-umdæminu (einkum frá Norður-Múla og Eyjafjarðar sýslum), nefnilega 4580 tunnur, eða rúmlega eins mikið og frá báðum

hinum umdæmunum að samtöldu. Útflutníngurinn frá hinum umdæmunum var líkur, nefnilega frá Suður-umdæminu 2054 tunnur, og frá Vestur-umdæminu 2318 tunnur.

Um saltað kjöt er líkt að segja og að undanförnu, að lángmest hefir af því verið flutt frá Norður- og Austur-umdæminu. Af þeim 2206 tunnum, sem á þessu ári voru fluttar alls frá Íslandi, koma nefnilega 1752 tunnur á Norður- og Austur-umdæmið, 351 tunna á Suður-umdæmið, og 103 tunnur á Vestur-umdæmið.

Hvað útflutníng af tólg snertir árið 1866, þá skarar Norður- og Austur-umdæmið eins og hin fyrri árin lángt fram úr hinum umdæmunum að þessu. Frá öllu landinu fluttust nefnilega á þessu ári alls 411,147 pund, en af því var flutt frá Norður- og Austur-umdæminu einu 291,435 pund, eða ríflega tvöfalt meira en frá hinum báðum umdæmunum að samtöldu; því frá Suður-umdæminu fluttust 93,043 pund, og frá Vestur-umdæminu einúngis 26,669 pund. Að öðru leyti er það merkilegt, að frá Ísafjarðar sýslu er ekki neitt talið að út hafi verið flutt af þessari vöru, og frá Barðastrandar sýslu er einúngis talið það lítilræði 256 pund.

Af ullu (og er hèr talin bæði hvít ull, svört ull og mislit), fluttust á þessu ári alls 1,550,410 pund frá öllu landinu. Hèr kemur einnig að hinu sama, nefnilega að lángmest hefir verið flutt út af þessari vörutegund frá Norður- og Austur-umdæminu. þannig fluttust frá þessu umdæmi einu 864,136 pund ullar, eða rúmur helmíngur þess, sem út hefir verið flutt frá öllu landinu; frá Suður-umdæminu voru flutt 460,857 pund, en frá Vestur-umdæminu ekki nema 225,417 pund, eða tæpur helmíngur þess sem fluttist frá Suðurlandi.

Eins og að undanförnu hefir tóvara þetta ár mest og að kalla má eingaungu verið flutt frá Norður- og Austur-umdæminu, einkum frá Eyjafjarðar sýslu; lítið eitt af eingirnis prjónlesi og sjóvetlíngum þó frá hinum umdæmunum. þannig hefir á þessu ári verið flutt frá Norður- og Austur-umdæminu: af peisum: 50 pör (en ekkert frá hinum umdæmunum), af sokkum 37,703 pör af 37,834 pörum, og af sjóvetlíngum 22,679 pör af 26,904 pörum.

þarámóti voru háleistar, fíngravetlíngar og vaðmál á þessu ári eingaungu flutt frá Norður- og Austur-umdæminu.

Af æðardún fluttist á þessu ári, eins og að undanförnu, lángmest frá Vestur-umdæminu, eða nær því eins mikið og frá báðum hinum umdæmunum að samtöldu, það er að skilja 2832 pund af 5872 pundum, sem alls fluttust frá öllu landinu; frá Suður-umdæminu fluttust 1006 pund, en frá Norður- og Austur-umdæminu 2034 pund, og verður þá hlutfallið milli þessara beggja umdæma nokkuð á aðra leið en áður hefir verið (smbr. I., bls. 576, III., bls. 593 og IV., bls. 100). Af fiðri hefir einnig á þessu ári eins og að undanförnu verið flutt lángmest úr Vestmannaeyjum, nefnilega 15,120 pund af þeim 23,600 pundum sem fluttust frá öllu landinu; frá Vestur-umdæminu fluttust þó 6979 pund, en frá Norður- og Austur-umdæminu ekki nema 182 pund. Af álptarfjöðrum fluttist á þessu ári mest frá Suður-umdæminu, nefnilega 14,900 tals af 21,600 tals frá öllu landinu, og er það nokkuð ólíkt og næst undanfarið ár (smbr. IV, bls. 100).

Útflutníngur af skinnavöru hefir á þessu ári verið mjög ólíkur frá umdæmum landsins. þannig hefir af söltuðum sauðskinnum og af lambskinnum mest verið flutt frá Norður- og Austur-umdæminu; tóubelgir hafa að kalla má eingaungu verið fluttir frá Vestur-umdæminu (nefnilega 166 af 186 frá öllu landinu); álptarhamir flestir frá Suður-umdæminu (114 af 164 frá öllu landinu), og hafurstökur, það lítið sem flutt var, eingaungu frá Norður- og Austur-umdæminu.

Lifandi hestar hafa á þessu ári eins og að undanförnu lángflestir verið fluttir frá Reykjavíkur kaupstað, nefnilega tals 507 af 628 sem fluttust frá öllu landinu; frá Vestur-umdæminu fluttust að eins 6, en frá Norður- og Austur-umdæminu þó 113. þar á móti hefir af lifandi sauðfè á þessu ári verið flutt töluvert út frá Suður-Múla sýslu, nefnilega 2174 tals, en frá Reykjavíkur kaupstað ekki nema einar 11 kindur.

þá er eptir, eins og gjört var hèr að framan um aðfluttar vörur, einnig að bera saman útfluttar vörur á þeim tveim árum

1865 og 1866, og verður þá útflutníngurinn frá öllu landinu á þessum tveim árum á þá leið, að út var flutt:

| | árið 1865. | árið 1866. |
|---|---|---|
| Saltfiskur, skippund | 8287 | 10952 |
| Harður fiskur, — | 39 | 227 |
| Söltuð hrogn, tunnur | 452 | 770 |
| Söltuð síld, — | » | » |
| Saltaður lax, lísipund | 208 | 672 |
| Lýsi, tunnur | 9520 | 8952 |
| Saltað kjöt, — | 716 | 2206 |
| Tólg, pund | 419267 | 411147 |
| Söltuð sauðskinn, tals | 2870 | 11552 |
| Lambskinn, — | 31649 | 30729 |
| Tóubelgir, — | 338 | 186 |
| Álptarhamir, — | 44 | 164 |
| Álptarfjaðrir, — | 26450 | 21600 |
| Æðardún, pund | 7017 | 5872 |
| Fiður, — | 25796 | 23600 |
| Rjúpur, tals | 8776 | 15600 |
| Hvít ull, pund | 1266510 | 1406518 |
| Svört ull, — | 19871 | 23533 |
| Mislit ull, — | 105674 | 120359 |
| Peisur, tvíbands, tals | 143 | 50 |
| Peisur, eingirnis, — | » | » |
| Sokkar, tvíbands, pör | 34347 | 37422 |
| Sokkar, eingirnis, — | 298 | 412 |
| Háleistar, — | 37101 | 10930 |
| Sjóvetlíngar, — | 14736 | 26904 |
| Fíngravetlíngar, — | 1325 | 744 |
| Vaðmál, álnir | 824 | 374 |
| Bein, lísipund | 249 | 1800 |
| Háfsroð, tals | » | » |
| Hross, lifandi, tals | 365 | 628 |
| Sauðfé, lifandi, — | 29 | 2185 |
| Hafurstökur, pund | 80 | 60 |

þar sem það hèr að framan sýndi sig um aðflutníng til landsins á þessum tveim árum, að hann hafði verið minni árið 1866 en árið 1865 á töluvert fleiri vörutegundum, þá á það gagnstæða sèr stað um vörur fluttar frá landinu á þessum árum. Til þess að skýra þetta betur, skal hèr sýna hversu mikið útflutníngur af hverri vörutegund hafi aukizt eða minkað að tiltölu af hverju hundraði, og lætur það sig þá í ljósi, að útflutníngur hefir verið meiri á þessum 17 vörutegundum, nefnilega:

| | af 100. |
|---|---|
| Saltfiskur | 32.2 |
| Harður fiskur | 482.1 |
| Söltuð hrogn | 70.4 |
| Saltaður lax | 223.1 |
| Saltað kjöt | 208.1 |
| Söltuð sauðskinn | 302.5 |
| Álptarhamir | 272.7 |
| Rjúpur | 77.7 |
| Hvít ull | 11.1 |
| Svört ull | 18.4 |
| Mislit ull | 13.9 |
| Sokkar, tvíbands | 8.9 |
| Sokkar, eingirnis | 38.3 |
| Sjóvetlíngar | 82.6 |
| Bein | 622.9 |
| Hross, lifandi | 72.1 |
| Sauðfè, lifandi | 7434.5. |

þar á móti hefir útflutníngurinn verið minni árið 1866 en árið 1865 á þeim 12 vörutegundum sem nú skal telja, nefnilega á þenna hátt:

| | af 100. |
|---|---|
| Lýsi | 6.0 |
| Tólg | 1.9 |
| Lambskinn | 2.9 |
| Tóubelgir | 45.0 |

| | af 100. |
|---|---|
| Álptarfjaðrir | 18. 3 |
| Æðardún | 16. 3 |
| Fiður | 8. 5 |
| Peisur, tvíbands | 65. 0 |
| Háleistar | 70. 5 |
| Fíngravetlíngar | 43. 8 |
| Vaðmál | 54. 6 |
| Hafurstökur | 25. 0. |

---

Vèr höfum nú nokkurnveginn útlistað um vörur fluttar til Íslands og frá Íslandi á þeim tveim árum 1865 og 1866, en ekki mun þykja ófróðlegt að sýna, að hve miklu leyti vöruflutníngar bæði til landsins og frá landinu hafi aukizt eða mínkað á því tímabili, sem liðið er frá því að verzlunarskýrslur fyrst voru prentaðar í ritum þessum. Í þessu skyni skal þá taka þau tvö árin 1849 og 1866, og sýna hversu mikið á hvoru þessara ára hafi bæði verið innflutt og útflutt af hinum helztu vörutegundum. Af útlendum vörum var þannig flutt til Íslands:

| | árið 1849. | árið 1866. |
|---|---|---|
| Rúgur, tunnur | 23128 | 31869 |
| Bygg, — | 274 | 229 |
| Baunir, — | 2028 | 4481 |
| Bánkabygg, — | 7635 | 16479 |
| Rúgmjöl, — | 3849 | 6099 |
| Brauð[1], pund | 186800 | 249001 |
| Brennivín, pottar | 257212 | 529426 |
| Önnur ölfaung[2], pottar | 39790 | 124940 |
| Kaffebaunir[3], pund | 293833 | 538733 |

---

[1]) Hèr er talið hveitibrauð og svartabrauð.
[2]) Hèr er talið: vín, romm, púnsextrakt, kryddvín, mjöður og bjór.
[3]) Árið 1866 er hèr einnig talin kafferót með.

| | árið 1849. | árið 1866. |
|---|---|---|
| Sykur[1], pund . . . . . . . . . | 272702 | 514451 |
| Sírop, — . . . . . . . . . | 16587 | 12990 |
| Tóbak[2], — . . . . . . . . . | 79967 | 130927 |
| Salt, tunnur . . . . . . . . . | 17069 | 11243 |
| Tjara, — . . . . . . . . . | 533 | 568 |
| Steinkol, tunnur . . . . . . . | 3479 | 17797 |
| Járn, pund . . . . . . . . . | 108137 | 137452 |
| Hampur, pund . . . . . . . . | 38100 | 18402 |
| Færi, tals . . . . . . . . . . | 10587 | 13883 |
| Viður, stærri, tals . . . . . . . | 4101 | 11366 |
| Borð og plánkar, tals . . . . . | 84581 | 76719. |

Yfirlit þetta sýnir nú að vísu mismuninn á sèrhverri vörutegund á þessu tímabili að tölunni til, en til þess að skýra þetta atriði betur, þá skal sýna hversu aðflutníngurinn á hverri einstakri af þeim hèr töldu vörutegundum hefir aukizt eða mínkað á hinu sama tímabili að tiltölu af hverju hundraði, og er til aðgreiníngar sett merkið (+) fyrir framan töluna, þegar aðflutníngurinn hefir aukizt, en merkið (÷) þegar mínkað hefir. Vöruflutníngar til landsins á tímabilinu frá 1849 til 1866 hafa þá aukizt eða mínkað á þenna hátt:

| | | af 100. |
|---|---|---|
| Rúgur . . . . . . . . . . . . . | + | 37.8 |
| Bygg . . . . . . . . . . . . . | ÷ | 16.4 |
| Baunir . . . . . . . . . . . . | + | 120.9 |
| Bánkabygg . . . . . . . . . . | + | 115.8 |
| Rúgmjöl . . . . . . . . . . . | + | 58.5 |
| Brauð . . . . . . . . . . . . | + | 33.3 |
| Brennivín . . . . . . . . . . | + | 105.8 |
| Önnur ölfaung . . . . . . . . . | + | 214.0 |

---

[1]) Allskonar sykur er hèr talið, nefnilega hvítasykur, kandissykur og púðursykur.

[2]) Hèr er einnig talið allskonar tóbak, það er að skilja: blaðatóbak, neftóbak, munntóbak og kardustóbak.

| | | af 100. |
|---|---|---|
| Kaffebaunir | + | 83. 3 |
| Sykur | + | 88. 6 |
| Sírop | ÷ | 21. 7 |
| Tóbak | + | 63. 7 |
| Salt | ÷ | 34. 1 |
| Tjara | + | 6. 6 |
| Steinkol | + | 411. 6 |
| Járn | + | 27. 1 |
| Hampur | ÷ | 51. 7 |
| Færi | + | 31. 1 |
| Viður, stærri | + | 177. 1 |
| Borð og plánkar | ÷ | 9. 3. |

það lætur sig glögglega í ljósi af þessu, að aðflutníngurinn hefir farið vaxandi á nær því öllum helztu útlendum vörum á tímabili því, sem hèr ræðir um. Í yfirliti þessu eru nefnilega taldar 20 vörutegundir, og hefir á tímabilinu frá 1849 til 1866 einúngis mínkað á 5 þeirra, það er að skilja á byggi, síropi, salti, hampi og borðum og plönkum. þar á móti hefir aðflutníngurinn farið vaxandi á öllum hinum vörutegundunum, og á sumum þeirra mjög svo mikið, t. a. m. á steinkolum. Mest hefir aðflutníngurinn á þessu tímabili aukizt á óþarfavörum, það er að skilja allskonar ölfaung, kaffe, sírop og tóbak, en minna á þarfavöru (rúgi, byggi, baunum, bánkabyggi og rúgmjöli), og lætur þetta sig einnig í ljósi, þegar menn bera aðflutnínginn á þessum árum saman við fólksfjöldann í landinu á sömu árum, því þá kemur fram, að á hvern mann í landinu komu:

| | | árið 1849. | árið 1866. |
|---|---|---|---|
| af brennivíni | pottar | 4. 35 | 7. 70 |
| - öðrum ölfaungum | — | 0. 67 | 1. 82 |
| - kaffebaunum | pund | 4. 96 | 7. 84 |
| - sykri | — | 4. 61 | 7. 50 |
| - tóbaki | — | 1. 35 | 1. 90 |
| - kornvöru | tunnur | 0. 63 | 1. 10. |

Taki maður þar næst útfluttar vörur til yfirvegunar, þá hafa á árunum 1849 og 1866 þessar vörur verið fluttar frá Íslandi, nefnilega:

| | árið 1849. | árið 1866. |
|---|---|---|
| Saltfiskur, skippund . . . . . | 16400 | 10952 |
| Harður fiskur, — . . . . . . . | 3244 | 227 |
| Söltuð hrogn, tunnur . . . . | 308 | 770 |
| Saltaður lax, lísipund . . . . | 330 | 672 |
| Lýsi, tunnur . . . . . . . . . | 3259 | 8952 |
| Saltað kjöt, tunnur . . . . . | 1235 | 2206 |
| Tólg, pund . . . . . . . . . | 646874 | 411147 |
| Ull[1], — . . . . . . . . . | 1397148 | 1550410 |
| Peisur[2], tals . . . . . . . . | 8405 | 50 |
| Sokkar[2], pör . . . . . . . . | 91145 | 48764 |
| Sjóvetlíngar, pör . . . . . . | 78962 | 26904 |
| Vaðmál, álnir . . . . . . . . | 5802 | 374 |
| Sauðskinn, söltuð, tals . . . . | 3745 | 11552 |
| Lambskinn, tals . . . . . . . | 13405 | 30729 |
| Tóubelgir, — . . . . . . . | 396 | 186 |
| Álptarhamir, — . . . . . . . | 94 | 164 |
| Álptarfjaðrir, — . . . . . . . | 21875 | 21600 |
| Æðardún, pund . . . . . . . | 3991 | 5872 |
| Fiður, — . . . . . . . . | 19268 | 23600. |

Sýnir þetta að vísu mismuninn á sérhverri vörutegund á þessum árum að tölunni til, en eins og gjört var við aðfluttar vörur, skal hèr einnig sýna hversu mikið útflutníngurinn hefir aukizt eða mínkað á tímabilinu frá 1849 til 1866 að tiltölu af hverju hundraði, og eru hèr brúkuð hin sömu merki, til að tákna með vöxt og mínkun, og brúkuð voru við aðfluttar vörur. Á þessu tímabili hafa þá vöruflutníngar frá landinu aukizt eða mínkað á þann hátt, sem nú skal segja, nefnilega:

[1]) Hèr er talin hvít, svört og mislit ull.

[2]) Af þessu prjónlesi er bæði talið eingirnis- og tvinnabands-les, og eru með sokkum einnig taldir háleistar.

| | | af 100. |
|---|---|---|
| Saltfiskur . . . . . . . . . . | ÷ | 33. 2 |
| Harður fiskur . . . . . . . . . | ÷ | 93. 0 |
| Söltuð hrogn . . . . . . . . . | + | 150. 0 |
| Saltaður lax . . . . . . . . . | + | 103. 6 |
| Lýsi . . . . . . . . . . . . | + | 174. 4 |
| Saltað kjöt . . . . . . . . . . | + | 78. 6 |
| Tólg . . . . . . . . . . . . | ÷ | 36. 2 |
| Ull . . . . . . . . . . . . . | + | 13. 1 |
| Peisur . . . . . . . . . . . . | ÷ | 99. 4 |
| Sokkar . . . . . . . . . . . | ÷ | 46. 5 |
| Sjóvetlíngar . . . . . . . . . . | ÷ | 65. 9 |
| Vaðmál . . . . . . . . . . . | ÷ | 93. 6 |
| Sauðskinn, söltuð . . . . . . . . | + | 208. 5 |
| Lambskinn . . . . . . . . . . | + | 129. 2 |
| Tóubelgir . . . . . . . . . . | ÷ | 53. 0 |
| Álptarhamir . . . . . . . . . . | + | 74. 5 |
| Álptarfjaðrir . . . . . . . . . | ÷ | 1. 3 |
| Æðardún . . . . . . . . . . | + | 46. 6 |
| Fiður . . . . . . . . . . . . | + | 22. 5. |

Eptir þessu kemur það þá fram, að af þeim 19 vörutegundum, sem taldar eru í yfirliti þessu, hefir útflutníngurinn farið vaxandi á tímabilinu á 10 þeirra, en mínkandi á 9. Mest hefir útflutníngurinn aukizt á söltuðum sauðskinnum, nefnilega að tiltölu 208. 5 af hundraði, eða með öðrum orðum, að árið 1866 hefir af þeim verið flutt út rúmlega þrefalt við það, sem út var flutt árið 1849; þessu næst hefir útflutníngur á lýsi einnig aukizt mikið á þessu tímabili, nefnilega að tiltölu 174. 4 af hundraði, eða nær því þrefalt meira en árið 1849. Aptur á hinn bóginn hefir útflutníngurinn á sama tímabili mínkað mest á peisum og svo vaðmáli og hörðum fiski, nefnilega á hverri þessari vörutegund meir enn 90 af hundraði að tiltölu, eða með öðrum orðum, að árið 1866 hafi nær því ekkert verið flutt út af þeim í samanburði við það sem flutt var árið 1849.

Í skýrslunni A hèr að framan er talið sèr hversu mikið af hverri vörutegund hafi verið flutt frá Danmörku til Íslands árið 1866, og hversu mikið frá öðrum löndum en Danmörku; þetta sama er og einnig gjört um vörur fluttar frá Íslandi á sama ári. Skýrslurnar bera það nú að vísu sjálfar með sèr, að Danmörk enn þá á mestan beinlínis part í verzluninni á Íslandi, en til þess samt að skýra þetta atriði betur, skal hèr sýna hlutfall það, sem á þessu ári var milli vöruflutníngs bæði til landsins frá Danmörku og öðrum löndum, og svo frá Íslandi til Danmerkur og annara landa.

Taki maður þá fyrst aðflutnínginn, þá kemur það fram, að árið 1866 fluttist af sèrhverri vörutegund, sem talin er í skýrslunni A, að tiltölu af hundraði:

| | frá Danmörku. | frá öðrum löndum. |
|---|---|---|
| Rúgur . . . . . . . . . | 75.0 | 25.0 |
| Bygg . . . . . . . . . | 98.3 | 1.7 |
| Hafrar . . . . . . . . | 98.1 | 1.9 |
| Bánkabygg . . . . . . | 99.6 | 0.4 |
| Baunir . . . . . . . . | 99.8 | 0.2 |
| Bygggrjón . . . . . . | 99.0 | 1.0 |
| Rúgmjöl . . . . . . . | 98.0 | 2.0 |
| Hveitimjöl . . . . . . | 77.6 | 22.4 |
| Hveitibrauð . . . . . . | 97.0 | 3.0 |
| Svartabrauð . . . . . . | 96.7 | 3.3 |
| Jarðepli . . . . . . . | 90.4 | 9.6 |
| Brennivín . . . . . . | 99.3 | 0.7 |
| Romm . . . . . . . . | 73.3 | 26.7 |
| Púnsextrakt . . . . . | 100.0 | » |
| Vín . . . . . . . . . | 78.3 | 21.7 |
| Kryddvín . . . . . . | 73.0 | 27.0 |
| Mjöður . . . . . . . . | 100.0 | » |
| Bjór . . . . . . . . . | 85.1 | 14.9 |
| Edik . . . . . . . . . | 80.9 | 19.9 |
| Kaffebaunir . . . . . . | 82.5 | 17.5 |

| | frá Danmörku. | frá öðrum löndum. |
|---|---|---|
| Kafferót . . . . . . . . | 58.6 | 41.4 |
| Sjokolade . . . . . . . | 91.5 | 8.5 |
| Tegras . . . . . . . . | 72.0 | 28.0 |
| Kandis-sykur . . . . . | 80.9 | 19.1 |
| Hvítt sykur . . . . . . | 81.6 | 18.4 |
| Púður-sykur . . . . . | 61.7 | 38.3 |
| Sírop . . . . . . . . . | 60.6 | 39.4 |
| Gráfíkjur . . . . . . . | 81.1 | 18.9 |
| Steinfíkjur . . . . . . . | 77.3 | 22.7 |
| Rúsínur . . . . . . . . | 80.2 | 19.8 |
| Hrísgrjón . . . . . . . | 84.0 | 16.0 |
| Blaðatóbak . . . . . . . | 100.0 | » |
| Neftóbak . . . . . . . | 98.6 | 1.4 |
| Munntóbak . . . . . . . | 99.4 | 0.6 |
| Kardustóbak . . . . . . | 91.2 | 8.8 |
| Vindlar . . . . . . . | 86.3 | 13.3 |
| Salt . . . . . . . . . . | 14.1 | 85.9 |
| Steinkol . . . . . . . . | 12.7 | 87.3 |
| Tjara . . . . . . . . . | 97.2 | 2.8 |
| Járn . . . . . . . . . | 85.4 | 14.6 |
| Stál . . . . . . . . . | 90.6 | 9.4 |
| Stórviður . . . . . . . | 24.5 | 75.5 |
| Plánkar . . . . . . . . | 57.8 | 42.2 |
| Borð . . . . . . . . . | 64.2 | 35.8 |
| Spírur . . . . . . . . | 98.3 | 1.7 |
| Hampur . . . . . . . . | 97.3 | 2.7 |
| Hör . . . . . . . . . . | 90.8 | 9.2 |
| Færi . . . . . . . . . | 79.5 | 20.5 |
| Seglgarn . . . . . . . . | 71.7 | 28.3 |
| Kaðlar . . . . . . . . . | 87.6 | 12.4 |
| Skinn, sútuð . . . . . . | 85.9 | 14.1 |
| Skinn, ósútuð . . . . . . | 100.0 | » |

| | frá Danmörku. | frá öðrum löndum. |
|---|---|---|
| Korkur . . . . . . . . | 100.0 | » |
| Indigó . . . . . . . . | 81.7 | 18.3 |
| Litunartrè . . . . . . . | 91.9 | 8.1 |
| Álún . . . . . . . . . | 53.1 | 46.9 |
| Sápa . . . . . . . . . | 89.0 | 11.0 |
| Pappír . . . . . . . . | 90.3 | 9.7 |
| Púður . . . . . . . . | 93.3 | 6.7 |
| Blý og högl . . . . . | 75.2 | 24.8 |
| Látún . . . . . . . . | 49.3 | 50.7 |
| Hverfusteinar . . . . . | 99.9 | 0.1 |
| Brýni . . . . . . . . . | 98.6 | 1.4 |
| Pottar . . . . . . . . | 90.7 | 9.3 |
| Katlar . . . . . . . . | 94.4 | 5.6 |
| Naglar . . . . . . . . | 96.2 | 3.8 |
| Hnífar . . . . . . . . | 77.1 | 22.9 |
| Skæri . . . . . . . . | 93.0 | 7.0 |
| þjalir . . . . . . . . . | 83.9 | 16.1 |
| Hestajárn . . . . . . . | 78.1 | 21.9 |
| Skóflur . . . . . . . . | 100.0 | » |
| Sagarblöð . . . . . . . | 90.1 | 9.9 |
| Lásar . . . . . . . . | 52.7 | 47.3 |
| Bandprjónar . . . . . | 44.7 | 55.3 |
| Hnappar . . . . . . . | 82.8 | 17.2 |
| Leirker . . . . . . . . | 71.3 | 28.7 |
| Rokkar . . . . . . . . | 100.0 | » |
| Speglar . . . . . . . . | 100.0 | » |
| Höfuðkambar . . . . . | 54.4 | 45.6 |
| Almanök . . . . . . . | 100.0 | » |
| Klæði . . . . . . . . . | 76.2 | 23.8 |
| Lèrept . . . . . . . . | 76.2 | 23.8 |
| Dúkur . . . . . . . . | 76.0 | 24.0 |
| Boldáng . . . . . . . . | 72.2 | 27.8 |

| | frá Danmörku. | frá öðrum löndum. |
|---|---|---|
| Herðaklútar . . . . . . | 66.8 | 33.2 |
| Lèreptsklútar . . . . . | 91.7 | 8.3 |
| Silkiklútar . . . . . . | 95.6 | 4.4 |
| Ullarkambar . . . . . | 96.0 | 4.0 |
| Aunglar . . . . . . . . | 72.0 | 28.0 |
| Silkitvinni . . . . . . | 86.5 | 13.5 |
| Hörtvinni . . . . . . | 80.7 | 19.3 |
| Hattar . . . . . . . . | 86.2 | 13.8 |
| Húfur . . . . . . . . | 90.6 | 9.4. |

Yfirlit þetta sýnir hið sama og áður hefir verið sagt, nefnilega að vöruflutníngar til Íslands beinlínis frá öðrum löndum en Danmörku ennþá eru litlir, því af þeim 93 vörutegundum, sem taldar eru í þessum samjöfnuði, eru 9, sem ekkert hefir verið flutt af frá öðrum löndum, en af einum 6 tegundum hefir meira að tiltölu verið flutt frá öðrum löndum en Danmörku, en þessar tegundir eru: salt, steinkol, stórviður, látún og bandprjónar. Af velflestum hinum öðrum vörutegundum er það, sem flutt hefir verið beinlínis frá öðrum löndum, svo lítið, að það varla er teljandi.

Skoði maður þessu næst útflutnínginn, þá sýnir það sig, að árið 1866 fluttist af sèrhverri vörutegund, sem talin er í skýrslunni B, að tiltölu af hundraði:

| | til Danmerkur. | til annara landa. |
|---|---|---|
| Saltfiskur . . . . . . | 33.8 | 66.2 |
| Harður fiskur . . . . | 91.6 | 8.4 |
| Söltuð hrogn . . . . | » | 100.0 |
| Saltaður lax . . . . . | 81.2 | 18.8 |
| Lýsi . . . . . . . . . | 63.3 | 36.7 |
| Saltað kjöt . . . . . . | 77.9 | 22.1 |
| Tólg . . . . . . . . | 89.1 | 10.9 |
| Söltuð sauðskinn . . . | 58.1 | 41.9 |

| | til Danmerkur. | til annara landa. |
|---|---|---|
| Tóubelgir . . . . . . | 100. 0 | » |
| Álptarhamir . . . . . | 100. 0 | » |
| Álptarfjaðrir . . . . . | 100. 0 | » |
| Æðardún . . . . . . | 96. 2 | 3. 8 |
| Fiður . . . . . . . . | 100. 0 | » |
| Rjúpur . . . . . . | 91. 0 | 9. 0 |
| Hvít ull . . . . . . | 50. 7 | 49. 3 |
| Svört ull . . . . . . | 82. 4 | 17. 6 |
| Mislit ull . . . . . . | 66. 2 | 33. 8 |
| Peisur, tvíbands . . . | 100. 0 | » |
| Sokkar, tvíbands . . . | 100. 0 | » |
| Sokkar, eingirnis . . . | 100. 0 | » |
| Háleistar . . . . . . | 100. 0 | » |
| Sjóvetlíngar . . . . . | 100. 0 | » |
| Vaðmál . . . . . . | 100. 0 | » |
| Bein . . . . . . . . | 50. 0 | 50. 0 |
| Hross, lifandi . . . . | 21. 0 | 79. 0 |
| Sauðfè, lifandi . . . . | » | 100. 0. |

Samjöfnuður þessi sýnir, að af þeim 26 vörutegundum, sem hèr eru taldar, eru það einúngis 4 tegundir, að meir hefir að tiltölu á þessu ári verið flutt af til annara landa en Danmerkur, en þær eru: saltfiskur, söltuð hrogn, lifandi hross og lifandi sauðfè (hrogn og sauðfè hefir eingaungu verið flutt til annara landa). Þar á móti er af öllum hinum vörutegundunum meira flutt til Danmerkur, og þar á meðal skinnavara, fiður og tóvara eingaungu þángað.

---

Eitt hið merkilegasta atriði í verzlun sèrhvers lands, er þessu næst að skýra frá verðlagi bæði á innlendum og útlendum kaupeyri, þeim sem hafður er til verzlunar, því fyrst þegar þetta er kunnugt, geta menn gjört sèr áreiðanlega og greinilega hugmynd um, hvort

verzlunin sè landsmönnum í hag eður ekki. Því er nú verr og miður, að vèr hvergi nærri getum skýrt þetta mikilvæga atriði svo vel og fullkomlega, sem þörf væri á og vèr vildum á kjósa, eða eins og áður hefir verið gjört í ritum þessum; því þó sýslumönnum á Íslandi sè af stjórninni skipað, á ári hverju, ásamt verzlunarskýrslunum, að senda henni skýrslur um verðlag á helztu bæði innfluttum og útfluttum vörum, þá vantar svo mikið á að þeir gjör þetta, þrátt fyrir ítrekaðar áminníngar, að fyrir árið 1866 hafa þessháttar skýrslur t. a. m. til þessa tíma einúngis komið frá Snæfellsness og Vestmannaeyja sýslum. Til þess það samt ekki verði sagt, að með öllu hafi verið gengið fram hjá þessu atriði, og þar sem þó mun mega álíta það sem óyggjandi, að verðlagið ekki hafi verið svo fjarska ólíkt í hinum öðrum hèruðum landsins, sem vèr ekki höfum fengið skýrslur frá, þá skal hèr taka meðaltöluna af verðlaginu í báðum hinum fyrr nefndu sýslum árið 1866, og skal þarhjá til samanburðar setja meðalverðið um allt land á sömu vörutegundum árið 1849.

Á hinum helztu útlendum vörum, sem fluttust til Íslands, var meðalverðlagið á þassum tveim árum þá þannig:

| | árið 1849. | | árið 1866. | |
|---|---|---|---|---|
| | rd. | sk. | rd. | sk. |
| Rúgur, tunna . . . . | 7. | » | 9. | 12 |
| Rúgmjöl, — . . . . | 7. | » | 9. | 12 |
| Bánkabygg, tunna . . | 9. | 48 | 11. | 72 |
| Baunir, -- . . . . | 7. | 10 | 10. | 72 |
| Salt, — . . . | 3. | 80 | 2. | 38 |
| Steinkol, — . . . | 2. | 64 | 2. | 42 |
| Tjara, — . . . | 11. | 16 | 12. | » |
| Hveitibrauð, pund . . | » | 10 | » | 12 |
| Svartabrauð, — . . . | » | 7 | » | 8 |
| Járn, — . . . | » | 9 | » | 11 |
| Hampur, — . . . | » | 24 | » | 36 |
| Munntóbak, — . . . | „ | 48 | „ | 80 |
| Kaffebaunir, — . . . | „ | 23 | „ | 34 |

| | árið 1849. | | árið 1866. | |
|---|---|---|---|---|
| | rd. | sk. | rd. | sk. |
| Kandissykur, pund . . | „ | 23 | „ | 23 |
| Púðursykur, -- . . | „ | 19 | „ | 19 |
| Brennivín, pottur . . . | „ | 18 | „ | 18. |

þar á móti var meðalverðlagið á innlendum vörum, sem fluttar voru frá Íslandi, á þessa leið:

| | árið 1849. | | árið 1866. | |
|---|---|---|---|---|
| | rd. | sk. | rd. | sk. |
| Saltfiskur, skippund . . . . . | 14. | 42 | 29. | „ |
| Harður fiskur, — . . . . . . . | 12. | 48 | 36. | „ |
| Lýsi, tunna . . . . . . . . . | 17. | 48 | 25. | 54 |
| Saltað kjöt, lísipund . . . . . | „ | 70 | 1. | 35 |
| Söltuð sauðskinn, hvert . . . . | „ | 52 | 1. | 16 |
| Lambskinn, — . . . . . . . | „ | 7 | „ | 7 |
| Tóubelgir, hver . . . . . . | 1. | 68 | 3. | 60 |
| Álptarhamir, — . . . . . . . | „ | 36 | „ | 88 |
| Tólg, pund . . . . . . . . | „ | 16 | „ | 20 |
| Æðardún, — . . . . . . . . | 2. | 86 | 6. | 16 |
| Fiður, — . . . . . . . . . | „ | 24 | „ | 32 |
| Hvít ull, — . . . . . . . . | „ | 17 | „ | 48 |
| Mislit ull, — . . . . . . . . | „ | 14 | „ | 36 |
| Peisur eingirnis, hver . . . . | „ | 60 | „ | „ |
| — tvíbands, — . . . . . . | „ | 80 | „ | „ |
| Sokkar eingirnis, par . . . . | „ | 18 | „ | „ |
| — tvíbands, — . . . . . . | „ | 23 | „ | „ |
| Sjóvetlíngar, — . . . . . . | „ | 7 | „ | 6 |
| Vaðmál, alin . . . . . . . . | „ | 31 | „ | 72 |
| Söltuð hrogn, tunna . . . . . | 5. | „ | 6. | „. |

Strax við fyrstu skoðan sýna yfirlit þessi, að þó verðlagið árið 1866 hafi verið mun hærra en árið 1849 á velflestum útlendum varníngi, þeim sem hèr er talinn, þá hefir samt á hinn bóginn verðlagið á innlendri vöru hækkað miklu meir að tiltölu um hið

hèruðum landsins, eins árið 1866 og að undanförnu, og skal því hèr segja frá önduðum á árunum 1865 og 1866 í hverri sýslu og í hverju umdæmi á landinu, og svo frá fólkstölunni í árslokin 1864 og 1865, og síðan bera hvorttveggja saman. Skýrsla þessi verður þá þannig:

| | Fólkstala | | Dánir | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | við árslokin 1864. | við árslokin 1865. | 1865. tals. | 1865. af 100. | 1866. tals. | 1866. af 100. |
| Skaptafells sýsla . . . . . | 3626 | 3701 | 72 | 2.0 | 143 | 3.9 |
| Vestmannaeyja . . . . . . | 507 | 509 | 17 | 3.4 | 34 | 6.7 |
| Rángárvalla . . . . . . . | 5315 | 5383 | 156 | 2.9 | 205 | 3.8 |
| Árness . . . . . . . . . | 5647 | 5778 | 94 | 1.7 | 264 | 4.6 |
| Gullbríngu- og Kjósar . . . | 5058 | 5075 | 161 | 3.2 | 277 | 5.5 |
| Reykjavíkur bær . . . . . | 1459 | 1478 | 46 | 3.2 | 72 | 4.9 |
| Borgarfjarðar sýsla . . . . | 2363 | 2403 | 79 | 3.3 | 126 | 5.2 |
| Mýra- og Hnappadals . . . | 2793 | 2802 | 101 | 3.6 | 154 | 5.5 |
| Snæfellsness . . . . . . . | 2812 | 2813 | 110 | 3.9 | 186 | 6.6 |
| Dala . . . . . . . . . . | 2291 | 2278 | 102 | 4.5 | 123 | 5.4 |
| Barðastrandar . . . . . . | 2681 | 2705 | 83 | 3.1 | 81 | 3.0 |
| Ísafjarðar . . . . . . . . | 4773 | 4797 | 152 | 3.2 | 229 | 4.8 |
| Stranda . . . . . . . . . | 1625 | 1659 | 44 | 2.7 | 103 | 6.2 |
| Húnavatns . . . . . . . . | 4879 | 4867 | 217 | 4.4 | 185 | 3.8 |
| Skagafjarðar . . . . . . . | 4420 | 4419 | 166 | 3.8 | 210 | 4.8 |
| Eyjafjarðar. . . . . . . . | 4654 | 4714 | 121 | 2.6 | 147 | 3.1 |
| Þíngeyjar . . . . . . . . | 5666 | 5749 | 139 | 2.5 | 206 | 3.6 |
| Norður-Múla . . . . . . . | 4089 | 4118 | 143 | 2.5 | 213 | 5.2 |
| Suður-Múla . . . . . . . | 3426 | 3493 | 97 | 2.8 | 137 | 3.9 |
| Suður-umdæmið . . . . . | 23975 | 24327 | 625 | 2.6 | 1121 | 4.6 |
| Vestur-umdæmið . . . . . | 16975 | 17054 | 592 | 3.5 | 876 | 5.1 |
| Norður- og Austur-umd. . . | 27134 | 27360 | 883 | 3.2 | 1098 | 4.0 |
| á öllu Íslandi . . . . . | 68084 | 68741 | 2100 | 3.1 | 3095 | 4.5 |

Samkvæmt yfirliti þessu hefir manndauðinn 1865 verið að tiltölu mestur í Dala sýslu og þá í Húnavatns sýslu, en minnstur í Árness sýslu og þá í Skaptafells sýslu. Aptur á hinn bóginn hefir

hann árið 1866 að tiltölu verið mestur í Vestmannaeyja sýslu og þá í Snæfellsness sýslu, en minnstur í Barðastrandar sýslu og þá í Eyjafjarðar sýslu. Beri maður þessi tvö ár saman sín á milli, þá hefir manndauðinn árið 1866 verið meiri að tiltölu en árið 1865 í öllum sýslum landsins, að frá skildum þó Barðastrandar og Húnavatns sýslum, hvar hann að tiltölu hefir verið minni árið 1866 en árið 1865. Mestur munurinn á manndauðanum á þessum tveim árum er í Stranda sýslu, en minnstur í Barðastrandar sýslu.

2. Kyn andaðra. Árið 1866 dóu 1564 karlar og 1531 konur, og hafa þá á því ári af hverju 1000 dáinna andazt 505 karlar en 495 konur, og er þetta nokkuð líkt því, sem áður hefir átt sèr stað, að frá skildu þó árinu 1862, því þá önduðust fleiri konur en karlar (smbr. III., bls. 389, 639, 751, og IV. bls. 165). Híngað til, að frá teknu þó árinu 1865, hefir það optast átt sèr stað, að tala kvenna hefir aukizt nokkuð á hverju ári, en á ári því, sem hèr ræðir um, er þetta þó gagnstætt, því tala þeirra hefir mínkað nokkuð. Árið 1866 fæddust nefnilega 68 fleiri sveinbörn en meybörn, en á sama ári dóu aptur á móti einúngis 33 fleiri karlar en konur, og ætti því eptir þessu að vera 35 færra af kvennfólki að sínu leyti í landinu 1. janúar 1867 en 1. janúar 1866.

Að hlutfall þetta að öðru leyti sè býsna ólíkt í hèruðum landsins er eðlilegt, og skal það nú sýnt. Árið 1866 voru nefnilega af hverju 100 dáinna í:

| | karlar. | konur. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . . . | 55 | 45 |
| Vestmannaeyja s. . . . . . . . . | 53 | 47 |
| Rángárvalla s. . . . . . . . | 40 | 60 |
| Árness s. . . . . . . . . . | 51 | 49 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . . . | 54 | 56 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . . . | 37 | 63 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . . . | 57 | 43 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . . | 52 | 48 |
| Snæfellsness s. . . . . . . . | 45 | 55 |
| Dala s. . . . . . . . . . . | 51 | 49 |
| Barðastrandar s. . . . . . . . . | 46 | 54 |

| | karlar. | konur. |
|---|---|---|
| Ísafjarðar sýslu . . . . . . | 57 | 43 |
| Stranda s. . . . . . . . . . | 43 | 57 |
| Húnavatns s. . . . . . . . . | 54 | 46 |
| Skagafjarðar s. . . . . . . | 52 | 48 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . . | 49 | 51 |
| þíngeyjar s. . . . . . . . . | 49 | 51 |
| Norður-Múla s. . . . . . . | 55 | 45 |
| Suður-Múla s. . . . . . . | 48 | 52 |
| Suður-umdæminu . . . . . | 50 | 50 |
| Vestur-umdæminu . . . . . | 50 | 50 |
| Norður- og Austur-umd. . . . | 51 | 49. |

þó nú eptir þessu fleiri karlmenn en konur að tiltölu hafi á þessu ári andazt í velflestum sýslum á Íslandi, þá hefir þó hið gagnstæða átt sèr stað í þeim 7 sýslum landsins, nefnilega: Rángárvalla, Snæfellsness, Barðastrandar, Stranda, Eyjafjarðar, þíngeyjar og Suður-Múla sýslum, og svo í Reykjavíkur bæ. þar sem að öðru leyti á þessu ári hafa andazt fleiri karlar en konur, þá hefir munurinn á því hlutfalli verið mestur í Borgarfjarðar og Ísafjarðar sýslum, og þá í Skaptafells og Norður-Múla sýslum, en minnstur hefir hann verið í Árness og Dala sýslum, og þá í Mýra- og Hnappadals og í Skagafjarðar sýslum.

3. Hjúskaparstètt andaðra. Árið 1866 hafa andazt samtals á öllu Íslandi 461 karlar kvæntir og 317 konur giptar, og eru þá á því ári 787 hjónabönd slitin. Á þessu sama ári voru þar á móti einúngis gefin saman 431 hjón, og á því að vera 356 hjón færri eptir en áður. þetta er mjög svo ólíkt því, sem hefir verið næst undanfarin 11 ár, þar sem á sumum af þessum árum hafa verið fleiri hjón eptir en áður, en á engu þeirra eins mikill munur og þetta hið síðasta árið (smbr. III., bls. 224, 389, 639, 751, og IV., bls. 166). þessu til frekari skýríngar skal hèr geta þess, að á 11 ára bilinu 1856—66 hafa af hverju 1000 dáinna karlmanna andazt:

| | kvæntir. | ókvæntir. | ekklar. |
|---|---|---|---|
| árið 1856 . . . | 206 | 704 | 90 |
| — 1857 . . . | 193 | 744 | 63 |
| — 1858 . . . | 209 | 722 | 69 |
| — 1859 . . . | 262 | 655 | 83 |
| — 1860 . . . | 226 | 713 | 61 |
| — 1861 . . . | 207 | 730 | 63 |
| — 1862 . . . | 280 | 629 | 91 |
| — 1863 . . . | 310 | 580 | 110 |
| — 1864 . . . | 240 | 690 | 70 |
| — 1865 . . . | 209 | 697 | 94 |
| — 1866 . . . | 295 | 601 | 104; |

en af hverju 1000 dáinna kvenna voru á sama tímabili:

| | giptar. | ógiptar. | ekkjur. |
|---|---|---|---|
| árið 1856 . . . | 151 | 687 | 162 |
| — 1857 . . . | 133 | 751 | 116 |
| — 1858 . . . | 152 | 714 | 134 |
| — 1859 . . . | 159 | 690 | 151 |
| — 1860 . . . | 152 | 720 | 128 |
| — 1861 . . . | 135 | 752 | 113 |
| — 1862 . . . | 226 | 585 | 189 |
| — 1863 . . . | 192 | 624 | 184 |
| — 1864 . . . | 158 | 673 | 169 |
| — 1865 . . . | 186 | 660 | 154 |
| — 1866 . . . | 207 | 573 | 220. |

Beri maður nú þessi 11 ár saman, þá sýnir það sig fyrst hvað karlmenn snertir, að meðal þeirra hafa að tiltölu flestir kvæntir andazt árið 1863 (nær því þriðjúngur allra á því ári dáinna karlmanna); ókvæntir flestir árið 1857 (nær því þrír fjórðu hlutar þá dáinna karlmanna), en ekklar flestir einnig árið 1863. Hvað þar á móti konur snertir, þá hafa flestar giptar konur að tiltölu andazt árið 1862 (nær því fjórði hluti á því ári dáinna kvenna); ógiptar flestar árið 1861 (þrír fjórðu hlutar), en ekkjur lángflestar árið 1866.

Skoði maður þar á móti þetta sama atriði í hverju einstöku hèraði í landinu, þá verða hlutföll þau, sem vèr hèr höfum tekið til yfirvegunar, töluvert á annan veg; því teli maður ekkla með ókvæntum karlmönnum, og ekkjur með ógiptum konum, þá kemur það fram, að árið 1866 voru af hverju 100 andaðra, bæði karla og kvenna í:

| | af körlum | | af konum | |
|---|---|---|---|---|
| | kvæntir. | ókvæntir. | giptar. | ógiptar. |
| Skaptafells sýslu . . . . | 34 | 66 | 22 | 78 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 39 | 61 | 6 | 94 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 24 | 76 | 23 | 77 |
| Árness s. . . . . . . . | 21 | 79 | 20 | 80 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . | 20 | 80 | 21 | 79 |
| Reykjavíkur bæ . . . . | 22 | 78 | 27 | 73 |
| Borgarfjarðar s. . . . . | 40 | 60 | 26 | 74 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 40 | 60 | 23 | 77 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 39 | 61 | 19 | 81 |
| Dala s. . . . . . . . . | 33 | 67 | 10 | 90 |
| Barðastrandar s. . . . . | 24 | 76 | 23 | 77 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 35 | 65 | 16 | 84 |
| Stranda s.. . . . . . . | 30 | 70 | 12 | 88 |
| Húnavatns s. . . . . . | 18 | 82 | 21 | 79 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 26 | 74 | 20 | 80 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . | 33 | 67 | 21 | 79 |
| Þíngeyjar s. . . . . . | 38 | 62 | 28 | 72 |
| Norður-Múla s. . . . . | 26 | 74 | 22 | 78 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 32 | 68 | 20 | 80 |
| Suður-umdæmið . . . . | 26 | 74 | 22 | 78 |
| Vestur-umdæmið . . . . | 35 | 65 | 17 | 83 |
| Norður- og Austur-umd. . | 28 | 72 | 22 | 78. |

Samkvæmt yfirliti þessu lætur það sig í ljósi, að árið 1866 hafa að tiltölu flestir kvæntir karlmenn og fæstir ókvæntir andazt í Borgarfjarðar sýslu og í Mýra- og Hnappadals sýslu og þá í Snæ-

fellsness og Vestmannaeyja sýslum, en fæstir kvæntir og flestir ókvæntir í Húnavatns sýslu og þá í Gullbríngu- og Kjósar sýslum; aptur á hinn bóginn hafa á þessu sama ári flestar giptar konur og fæstar ógiptar andazt í þíngeyjar sýslu og þá í Reykjavíkur bæ, en fæstar giptar og flestar ógiptar í Vestmannaeyja sýslu og þá í Dala sýslu. Yfirlit þetta sýnir einnig hið sama, sem optar hefir verið drepið á, nefnilega að það mun mega álíta sem almenna reglu, að í flestum hèruðum á Íslandi andist af giptu fólki að tiltölu miklu fleiri karlar en konur, og af ógiptu fólki aptur á móti fleiri konur en karlar, því á ári því, sem hèr ræðir um, hefir hið gagnstæða einúngis átt sèr stað í Gullbríngu- og Kjósar sýslu, í Húnavatns sýslu og svo í Reykjavíkur bæ.

4. Aldur andaðra. Frá þessu atriði er greinilega sagt í skýrslunum C. 4 og C. 5 hèr að framan. það þykir samt rètt til hægra yfirlits að skipta önduðum niður í flokka, og svo sýna hversu margir úr hverjum flokki um sig hafi andazt á Íslandi þrjú hin síðustu árin. það kemur þá fram, að af hverju 100 af öllum dánum voru:

| | árið 1864. | árið 1865. | árið 1866. |
|---|---|---|---|
| 1 árs og ýngri . . . | 35.1 | 33.1 | 25.7 |
| milli 1 og 3 ára . . | 7.3 | 8.3 | 6.7 |
| — 3 - 5 — . . | 3.2 | 3.7 | 2.8 |
| — 5 - 10 — . . | 3.2 | 4.4 | 3.0 |
| — 10 - 15 — . . | 2.0 | 2.5 | 1.8 |
| — 15 - 20 — . . | 2.0 | 2.0 | 2.1 |
| — 20 - 40 — . . | 15.8 | 12.8 | 12.6 |
| — 40 - 60 — . . | 11.8 | 12.9 | 15.2 |
| — 60 - 80 — . . | 16.8 | 17.3 | 26.5 |
| yfir 80 ára . . . . | 2.8 | 3.0 | 3.6 |

Af þessu sýnir það sig þá, að úngbarnadauðinn, það er að skilja á fyrsta árs aldrinum og ýngri, hefir árið 1866 verið töluvert minni en tvö næst undanfarin ár, og miklu minni en hann var að meðaltali um 6 ára bilið 1850—55, því þá var hann 39.0 af hundraði (smbr. I., bls. 386). Af börnum á aldrinum milli 1 og 10 ára

hafa einnig árið 1866 dáið nokkru færri að tiltölu en tvö næst undanfarin ár, og jafnvel færri en að meðaltölu um 6 ára bilið 1850—1855; því á þessum aldri dóu árið 1864: 13.7, 1865: 16.4 og 1866: einúngis 12.5 af hverju hundraði, en meðaltalan á þessum aldri um 6 ára bilið 1850—1855 var 14.4 af hverju 100 dáinna (smbr. I., bls. 386 og 640). Á aldrinum frá 10—40 ára hafa árið 1866 dáið lítið eitt færri að tiltölu en á hverju hinna tveggja áranna sem hèr ræðir um, en nokkru fleiri en að meðaltölu um 6 ára bilið 1850—1855, því árið 1864 dóu á þessum aldri 19.8, árið 1865: 17.3 og árið 1866: 16.5 af hundraði, en árin 1850—1855 að meðaltölu einúngis 13.6 af hundraði. Þar á móti hafa árið 1866 dáið á rosknum aldri, eða frá 40—80 ára, töluvert fleiri að tiltölu en tvö næst undanfarin ár, og miklu fleiri en að meðaltölu um 6 ára bilið 1850—55, því árið 1864 önduðust á þessum aldri 28.6 af hundraði, árið 1865: 30.2 af hundraði, og árið 1866: 41.7 af 100; en á tímabilinu frá 1850—1855 önduðust á þessum aldri að meðaltölu einúngis 27.6 af hverju 100 dáinna. Loks hefir af gamalmennum, eða af fólki yfir 80 ára, andazt nokkuð lítið fleiri árið 1866 en tvö næst undanfarin ár, en þó færri en að meðaltölu um 6 ára bilið 1850—55, því á þessu tímabili dó á þessum aldri að meðaltali 5.5 af hverju hundraði.

Töluvert á annan veg verða þó hlutföll þau, sem hèr ræðir um, þegar maður skoðar þetta atriði eptir kynferði andaðra, því þá telst svo til, að á þeim hinum síðustu þrem árum hafi af hverju 100 dáinna karlmanna andazt:

| | árið 1864. | árið 1865. | árið 1866. |
|---|---|---|---|
| 1 árs og ýngri . . . | 35.8 | 35.0 | 28.3 |
| milli 1 og 3 ára . . | 6.4 | 8.1 | 6.1 |
| — 3 - 5 — . . | 3.5 | 2.8 | 2.7 |
| — 5 - 10 — . . | 2.3 | 4.9 | 3.2 |
| — 10 - 15 — . . | 2.2 | 2.1 | 2.0 |
| — 15 - 20 — . . | 2.5 | 2.4 | 1.9 |
| — 20 - 40 — . . | 19.9 | 14.3 | 13.4 |
| — 40 - 60 — . . | 11.6 | 13.3 | 16.6 |

| | árið 1864. | árið 1865. | árið 1866. |
|---|---|---|---|
| milli 60 og 80 ára . . | 14.2 | 15.5 | 23.2 |
| yfir 80 ára . . . . | 1.6 | 1.6 | 2.6; |

en af hverju 100 dáinna kvennmanna önduðust.

| | árið 1864. | árið 1865. | árið 1866. |
|---|---|---|---|
| 1 árs og ýngri . . . | 35.1 | 30.9 | 23.0 |
| milli 1 og 3 ára . . | 8.3 | 8.6 | 7.4 |
| — 3 - 5 — . . | 2.8 | 4.8 | 2,9 |
| — 5 - 10 — . . | 4.2 | 3.9 | 2.7 |
| — 10 - 15 — . . | 1.6 | 2.9 | 1.5 |
| — 15 - 20 — . . | 1.4 | 1.5 | 2.2 |
| — 20 - 40 — . . | 10.8 | 11.2 | 11.8 |
| — 40 - 60 — . . | 11.9 | 12.5 | 13.9 |
| — 60 - 80 — . . | 19.8 | 19.3 | 29.9 |
| yfir 80 ára . . . . | 4.1 | 4.4 | 4.7. |

Meðal annars sýna þessi tvö yfirlit, að af úngbörnum, það er að skilja 1 árs og ýngri, hafa að tiltölu á öllum þessum árum andazt fleiri sveinbörn en meybörn; en af börnum á aldrinum frá 1—10 ára eru hlutföllin mjög svo lík. Sömuleiðis hafa á aldrinum frá 10—40 ára á þessum árum, eins og líka að undanförnu, að tiltölu dáið fleiri karlar en konur. Aptur á hinn bóginn á hið gagnstæða sèr stað um fólk á rosknum aldri frá 40—80 ára, því á öllum þessum árum hefir að tiltölu andazt fleiri konur en karlar, og þetta sama á sèr einnig stað um gamalmenni yfir 80 ára, og hefir jafnvel af þeim á þessum þrem árum andazt meir eða nærfelt tvöfalt fleiri konur en karlar; en þetta er meðal annars eitt til sönnunar fyrir því, að konur á Íslandi, eins og í öðrum löndum, verða eldri eða lifa lengur en karlar almennt.

það gefur samt að skilja, að hlutföll þessi milli andaðra eptir aldri þeirra, hljóta að vera nokkuð ólík í hinum sèrstöku hèruðum landsins. það er nú að vísu í skýrslunni C. 5 sagt greinilega frá tölu dáinna árið 1866 í hverju prófastsdæmi eptir aldri, en til þess að skýra betur það sem þar er sagt, skal hèr sýna hversu margir að tiltölu hafi andazt á þessu sama ári á 5 aldursbilum, og kemur það þá fram, að árið 1866 voru af hverju 100 dáinna:

| | 1 árs og yngri. | frá 1—15 ára. | frá 15—40 ára. | frá 40—70 ára. | yfir 70 ára. |
|---|---|---|---|---|---|
| Skaptafells sýsla .... | 32.0 | 9.8 | 15.6 | 30.1 | 12.5 |
| Vestmannaeyja s. .... | 8.8 | 11.8 | 32.4 | 38.2 | 8.8 |
| Rángárvalla s. ..... | 33.7 | 5.3 | 7.8 | 33.7 | 19.5 |
| Árness s. ........ | 27.3 | 22.3 | 11.0 | 24.6 | 14.8 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. | 20.9 | 17.3 | 17.0 | 34.3 | 10.5 |
| Reykjavíkur bær .... | 19.4 | 30.6 | 12.5 | 22.2 | 15.3 |
| Borgarfjarðar s. .... | 25.4 | 9.5 | 12.7 | 37.3 | 15.1 |
| Mýra- og Hnappadals s.. | 26.0 | 9.7 | 18.8 | 27.3 | 18.2 |
| Snæfellsness s. ..... | 21.0 | 10.7 | 15.6 | 34.4 | 18.3 |
| Dala s. ......... | 35.0 | 10.6 | 8.1 | 26.0 | 20.3 |
| Barðastrandar s. .... | 30.8 | 11.1 | 18.5 | 22.3 | 17.3 |
| Ísafjarðar s. ...... | 24.9 | 9.2 | 21.0 | 31.4 | 13.5 |
| Stranda s. ........ | 28.2 | 13.6 | 4.8 | 38.8 | 14.6 |
| Húnavatns s. ...... | 29.7 | 15.1 | 14.1 | 30.3 | 10.8 |
| Skagafjarðar s. ..... | 32.3 | 13.8 | 14.8 | 26.7 | 12.4 |
| Eyjafjarðar s. ...... | 23.1 | 14.3 | 6.1 | 36.8 | 19.7 |
| Þíngeyjar s. ...... | 14.6 | 18.0 | 15.0 | 30.1 | 22.3 |
| Norður-Múla s. ..... | 23.0 | 21.1 | 17.8 | 27.7 | 10.4 |
| Suður-Múla s. ..... | 23.4 | 15.3 | 23.4 | 24.1 | 13.8 |
| Suður- umdæmið .... | 26.4 | 15.2 | 13.4 | 31.0 | 14.2 |
| Vestur-umdæmið .... | 26.6 | 10.5 | 15.5 | 30.6 | 16.8 |
| Norður- og Austur-umd. | 24.4 | 16.5 | 15.2 | 29.1 | 14.8 |

Eptir þessu lýsir það sèr þá, að æði mikill munur er í þessu efni á hèruðum landsins. Árið sem hèr ræðir um hafa þannig af úngbörnum á fyrsta ári að tiltölu andazt flest í Dala sýslu (35.0 af hundraði, eða rúmur þriðjúngur allra þar dáinna) og þá í Rángárvalla sýslu, 33.7 af 100, en fæst í Vestmannaeyja sýslu (ekki nema tólfti hluti allra þar dáinna), og þá í Þíngeyjar sýslu (ekki nema hèrumbil sjöundi hluti allra þar dáinna). Börn á aldrinum frá 1—15 ára önduðust að tiltölu flest í Reykjavíkur bæ (nefnilega 30.6 af 100, eða tæpur þriði hluti þar dáinna) og þá í Árness sýslu, en

lángfæst í Rángárvalla sýslu (ekki nema 5.3 af 100 eða hèrumbil tuttugasti hluti), og þá í Ísafjarðar sýslu (9.2 af hundraði). Af fólki á bezta aldri, eður á aldrinum frá 15—40 ára, hafa á þessu ári flestir andazt að tiltölu í Vestmannaeyja sýslu (nefnilega 32.4 af 100 eða hèrumbil þriði hluti þar dáinna) og þá í Suður-Múla sýslu, en lángfæstir í Stranda sýslu (ekki nema 4.8 af 100 eða tæpur tuttugasti hluti) og þá í Eyjafjarðar sýslu. Á rosknum aldri aptur á móti, eður frá 40—70 ára, hefir fólk á þessu ári að tiltölu andazt flest í Stranda sýslu (nefnilega 38.8 af 100) og þá í Vestmannaeyja sýslu (38.2 af 100), en fæst í Reykjavíkur bæ og þá í Barðastrandar sýslu. Loks hafa gamalmenni yfir 70 ára andazt flest að tiltölu í Þíngeyjar sýslu (22.3 af hundraði, eða rúmur fimti hluti) og þá í Dala sýslu, en lángfæst í Vestmannaeyja sýslu (ekki nema 8.8 af 100 þar dáinna) og þá í Norður-Múla sýslu. Skoði maður hlutföllin í hverjum aldursflokki sín á milli, þá er mestur munurinn á þeim í flokkinum frá 15—40 ára, nefnilega frá 32.4 til 4.8 af 100 (árið 1865 átti þetta sèr stað í flokkinum frá 1—15 ára, smbr. IV., bls. 173), en minnstur er munurinn í flokkinum yfir 70 ára, nefnilega frá 22.3 til 8.8 af 100.

5. Ártíð andaðra. Frá þessu atriði er sagt í skýrslunni C. 4 hèr að framan; en þar býsna mikill munur, eins og gefur að skilja, getur verið á þessu á ári hverju, þá skal hèr sýna hversu margt fólk að tiltölu hafi andazt í hverjum mánuði á þeim síðustu fjórum árum 1863—1866. Það kemur þá fram, að af hverju 100 dáinna önduðust:

| | árið 1863. | árið 1864. | árið 1865. | árið 1866. |
|---|---|---|---|---|
| janúar . . . | 11.1 | 5.1 | 7.2 | 7.1 |
| febrúar . . | 6.8 | 5.4 | 6.9 | 5.7 |
| marz . . . | 8.9 | 8.2 | 7.3 | 6.2 |
| apríl . . . | 8.5 | 8.4 | 8.8 | 4.4 |
| maí . . . | 9.9 | 7.6 | 8.9 | 21.2 |
| júní . . . | 11.3 | 7.9 | 8.6 | 18.6 |
| júlí . . . | 9.8 | 17.4 | 9.2 | 11.5 |
| ágúst . . . | 7.9 | 11.6 | 7.5 | 6.1 |

| | árið 1863. | árið 1864. | árið 1865. | árið 1866. |
|---|---|---|---|---|
| september . | 6.7 | 8.1 | 7.4 | 4.7 |
| október . . | 7.8 | 6.5 | 10.7 | 5.5 |
| nóvember. . | 6.2 | 6.1 | 9.4 | 4.6 |
| desember . | 5.1 | 7.7 | 8.1 | 4.4. |

Af þessum fjórum árum hefir manndauði verið lángjafnastur í landinu árið 1865, nefnilega mestur í október mánuði (10.7 af hundraði eða rúmur tíundi hluti dáinna) og minnstur í febrúar mánuði (6.9 af 100). En á hinn bóginn hefir manndauðinn í landinu verið mest ójafn árið 1866, nefnilega mestur í maí mánuði (21.2 af 100 eða rúmur fimti hluti allra á því ári dáinna) og minnstur í apríl og desember mánuðum (í hverjum þeirra 4.4 af 100 eða hèrumbil tuttugasti og þriði hluti dáinna).

6. Dauðdagi andaðra. Árið 1866 dóu á Íslandi 2979 á sóttarsæng, og eru þar með einnig talin andvana fædd börn, en af slysförum bæði á sjó og landi dóu á sama ári einúngis 116, og eru með þeim taldir þeir, sem rèðu sjálfum sèr bana; hafa þá á þessu ári af 1000 dáinna andazt 962.5 á sóttarsæng, og 37.5 af slysförum. En af þeim, sem dóu af slysförum á þeim fjórum árum 1863—1866, voru af hverju 1000 dáinna:

| | árið 1863. | árið 1864. | árið 1865. | árið 1866. |
|---|---|---|---|---|
| sjálfsmorðíngjar . . | 1.4 | 2.5 | 1.4 | 1.6 |
| drukknaðir . . . | 53.4 | 90.0 | 35.7 | 27.8 |
| af öðrum slysum . | 8.1 | 5.0 | 6.7 | 8.1 |

Eptir þessu hafa slysfarir manna árið 1866 verið miklu færri að tiltölu en þrjú næst undanfarin ár, og er það einkum á árinu 1864 að þær hafa verið mjög tíðar.

---

Að endíngu skal hèr, eins og gjört var næst undanfarið ár, skýra fra fólkstölu þeirri í hverju hèraði á Íslandi, sem eptir skýrslunum ætti að vera í árslokin 1866.

Taki maður þá fólksfjöldann í hverri sýslu og í hverju umdæmi á Íslandi, eins og hann var þegar fólkið var síðast talið 1. október

1860 (smbr. III., bls. 140—153), og bæti maður þarvið eða dragi frá því þann viðauka, eða þá fækkun á fólki, sem eptir skýrslum presta um fædda og dauða hefir átt sèr stað í hverju hèraði í landinu á því tímabili, sem síðan er liðið, þá telst svo til, að fólkstalan í árslokin 1866 hefði átt að vera:

| | karlar | konur | samtals |
|---|---|---|---|
| Skaptafells sýsla | 1735 | 1955 | 3690 |
| Vestmannaeyja s. | 215 | 274 | 489 |
| Rángárvalla s. | 2500 | 2882 | 5382 |
| Árness s. | 2727 | 2994 | 5721 |
| Gullbringu- og Kjósar s. | 2400 | 2595 | 4995 |
| Reykjavíkur bær | 671 | 790 | 1461 |
| Borgarfjarðar s. | 1152 | 1228 | 2380 |
| Mýra- og Hnappadals s. | 1345 | 1418 | 2763 |
| Snæfellsness s. | 1257 | 1472 | 2729 |
| Dala s. | 1040 | 1218 | 2258 |
| Barðastrandar s. | 1279 | 1437 | 2716 |
| Ísafjarðar s. | 2171 | 2578 | 4749 |
| Stranda s. | 791 | 839 | 1630 |
| Húnavatns s. | 2328 | 2588 | 4916 |
| Skagafjarðar s. | 2108 | 2318 | 4426 |
| Eyjafjarðar s. | 2286 | 2452 | 4738 |
| Þíngeyjar s. | 2787 | 2926 | 5713 |
| Norður-Múla s. | 1992 | 2073 | 4065 |
| Suður-Múla s. | 1676 | 1811 | 3487 |
| Suður-umdæmið | 11400 | 12718 | 24118 |
| Vestur-umdæmið | 7883 | 8962 | 16845 |
| Norður- og Austur-umdæmið | 13177 | 14168 | 27345 |
| á öllu Íslandi | 32460 | 35848 | 68308 |

Beri maður þessar tölur saman við fólkstölu þá, sem taldist 1. október 1860, þá sýnir það sig að vísu í fljótu yfirliti, að þar sem tala karla og kvenna hefir á þessu tímabili, sem síðan er liðið, fjölgað í flestum hèruðum landsins, þá hefir hún samt í einstökum þeirra farið mínkandi. En til þess að útskýra þetta betur, þá skal

sýna muninn á þessu hvorutveggja, og kemur það þá fram, að tala karlmanna frá 1. október 1860 og til ársloka 1866 hefir aukizt eða mínkað af hverju 100 á þenna hátt:

| | aukizt um | mínkað um |
|---|---|---|
| Skaptafells sýsla . . . . | 6.1 | » |
| Vestmannaeyja s. . . . . | » | 6.1 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 9.1 | » |
| Árness s. . . . . . . . | 7.5 | » |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | » | 2.4 |
| Reykjavíkur bær . . . . . | 0.6 | » |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 4.4 | » |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 5.0 | » |
| Snæfellsness s. . . . . . | » | 5.7 |
| Dala s. . . . . . . . . | 0.3 | » |
| Barðastrandar s. . . . . . | 0.2 | » |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | » | 3.4 |
| Stranda s. . . . . . . . | 2.6 | » |
| Húnavatns s. . . . . . . | 3.5 | » |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 0.2 | » |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . | 2.2 | » |
| Þíngeyjar s. . . . . . . | 3.7 | » |
| Norður-Múla s. . . . . . | » | 2.9 |
| Suður-Múla s. . . . . . | » | 2.4 |
| Suður-umdæmið . . . . . | 4.4 | » |
| Vestur-umdæmið . . . . . | » | 0.8 |
| Norður- og Austur-umd. . . | 1.4 | » |
| á öllu Íslandi . . . . . . | 1.9 | »; |

en aptur á hinn bóginn hefir á sama tímabili tala kvenna breyzt þannig, að af hverju 100 hefir:

| | aukizt um | mínkað um |
|---|---|---|
| Skaptafells sýsla . . . . . | 4.9 | » |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 1.5 | » |

| | aukizt um | mínkað um |
|---|---|---|
| Ráng árvalla s. . . . . . . | 5.1 | » |
| Árness s. . . . . . . . . | 4.2 | » |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 2.0 | » |
| Reykjavíkur bær . . . . . . | 1.7 | » |
| Borgarfjarðar s. . . . . . . | 7.0 | » |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 2.6 | » |
| Snæfellsness s. . . . . . . | » | 7.7 |
| Dala s. . . . . . . . . . | 2.7 | » |
| Barðastrandar s. . . . . . . | » | 1.0 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . . | » | 1.3 |
| Stranda s. . . . . . . . . | » | 0.9 |
| Húnavatns s. . . . . . . . | 4.6 | » |
| Skagafjarðar s. . . . . . . | 1.5 | » |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . . | 1.7 | » |
| Þíngeyjar s. . . . . . . . | 4.1 | » |
| Norður-Múla . . . . . . . | » | 2.8 |
| Suður-Múla s. . . . . . . | 1.8 | » |
| Suður-umdæmið . . . . . . | 4.1 | » |
| Vestur-umdæmið . . . . . . | » | 0.6 |
| Norður- og Austur-umd. . . | 2.0 | » |
| á öllu Íslandi . . . . . . . | 2.1 | » |

Yfirlit þessi sýna, að þar sem tala karlmanna á tímabili því, sem hèr ræðir um, hefir fækkað í sex sýslum á landinu, þa hefir tala kvenna þar á móti ekki fækkað nema í fimm sýslum. En skoði maður fjölgunina, þá hafa karlar að tiltölu fjölgað mest á þessu tímabili í Rángárvalla sýslu og þá í Skaptafells sýslu, en minnst í Barðastrandar sýslu og þá í Dala sýslu; aptur á móti hafa konur að tiltölu fjölgað mest í Borgarfjarðar sýslu og þá í Rángárvalla sýslu, en minnst í Vestmannaeyja og Skagafjarðar sýslum og þá í Reykjavíkur bæ og í Eyjafjarðar sýslu.

# UM FJÁRHAG ÍSLANDS

fra 1. apríl 1868 til 31. marz 1869.

---

FJÁRHAGSLÖG Danmerkur ríkis fyrir árið frá 1. apríl 1868 til 31. marz 1869 eru að vísu að mestu leyti fullrædd á ríkisþínginu, en konúngur hefir samt ennþá ekki lagt samþykki sitt á þau. Þar sem nú svo lítur út, að fáar sem engar breytíngar hèðanaf muni verða gjörðar í þessu efni af þíngsins hálfu, þá viljum vèr, eins og áður um fleiri undanfarin ár hefir verið gjört í ritum þessum, hèr auglýsa ágrip af fjárhagslögum þessum, að svo miklu leyti þau snerta tekjur og útgjöld þau, sem talin eru Íslandi. Þess skal þó getið, að þar fjárhagslögin sjálf ekki til greina nema aðaltekjur og aðalútgjöld ríkisins, þá er ágrip það, sem hèr ræðir um, ekki samið beinlínis eptir lögum þessum sjálfum, heldur eptir frumvarpi því til nefndra laga, sem stjórnin lagði fyrir ríkisþíngið, og svo eptir breytíngaratkvæðum þeim, sem af stjórninni hafa verið gjörð við frumvarpið, eptir að það var lagt fyrir þíngið, og sem það hefir fallizt á. Þarhjá höfum ver tekið athugasemdir þær, bæði við tekjurnar og útgjöldin, sem í nefndu frumvarpi voru gjörðar, og svo í breytíngaratkvæðunum.

Vèr látum nú fylgja nýnefnt ágrip ásamt athugasemdunum, en skulum síðan skýra nokkur atriði, sem þar að lúta.

---

Ágrip af fjárhagslögum Danmerkur ríkis fyrir árið frá 1. apríl 1868 til 31. marz 1869, að svo miklu leyti þau snerta tekjur og útgjöld Íslands.

| Tekjur. | | rd. | sk. | rd. | sk. |
|---|---|---|---|---|---|
| I. Almennar tekjur. | | | | | |
| 1. erfðaskattur og gjald af fasteigna sölu. . . . | | 1480. | » | | |
| 2. fyrir leyfisbréf og veitíngabréf . . . . . . . | | 480. | » | | |
| 3. nafnbótaskattur . . . . . . . . . . . . . . | | 500. | » | 2460. | » |
| II. Einstaklegar tekjur. | | | | | |
| 1. tekjur af lènssýslum: | | | | | |
| af Húnavatns sýslu . . . . . . . . . | 300 rd. | | | | |
| - Rángárvalla s. . . . . . . . . . . | 300 - | | | | |
| - Árness s. . . . . . . . . . . . . | 300 - | | | | |
| - Norður-Múla . . . . . . . . . . | 280 - | | | | |
| - Skaptafells s. . . . . . . . . . | 250 - | | | | |
| - Þíngeyjar s.. . . . . . . . . . . | 250 - | | | | |
| - Suður-Múla . . . . . . . . . . | 200 - | | | | |
| - Eyjafjarðar s. . . . . . . . . . | 200 - | | | | |
| - Skagafjarðar s.. . . . . . . . . | 100 - | | | | |
| - Mýra- og Hnappadals s. . . . . | 100 - | | | | |
| - Snæfellsness s. . . . . . . . . . | 80 - | | | | |
| - Dala s. . . . . . . . . . . . . | 80 - | | | | |
| - Borgarfjarðar s. . . . . . . . . | 70 - | | | | |
| - Ísafjarðar s. . . . . . . . . . . | 60 - | | | | |
| - Barðastrandar s. . . . . . . . . | 60 - | | | | |
| - Kjósar s. . . . . . . . . . . . | 20 - | | | | |
| - Stranda s.. . . . . . . . . . . . | 10 - | | | | |
| | | 2660. | » | | |
| 2. lögþíngisskrifaralaun . . . . . . . . . . . | | 32. | 6 | | |
| 3. tekjur af umboðssýslum . . . . . . . . . | | 870. | » | | |
| 4. konúngstíundir . . . . . . . . . . . . | | 3775. | » | | |
| 5. lögmannstollur. . . . . . . . . . . . . . | | 370. | » | | |
| 6. skipagjald eptir lögum 15. apríl 1854 . . . | | 13772. | » | | |
| 7. tekjur af konúngsjörðum . . . . . . . . . | | 11570. | » | | |
| 8. eptirgjöld . . . . . . . . . . . . . . . | | 94 | » | | |
| yfir um . . . | | 33143. | » | 2460. | » |

| | rd. | sk. | rd. | sk. |
| --- | --- | --- | --- | --- |
| handan að . . . | 33143. | 6 | 2460. | » |
| 9. afgjöld af jörðunni Belgsholti o. fl. . . . . . | 100. | » | | |
| 10. óvissar tekjur . . . . . . . . . . . . . | 800. | » | 34043. | 6 |
| **III. Gjöld uppí andvirði seldra jarða og annara eigna, og leigur af ógoldnu andvirði.** | | | | |
| 1. leigur . . . . . . . . . . . . . . . . . | 190. | » | | |
| 2. uppí andvirði . . . . . . . . . . . . . | 80. | » | 270. | » |
| **IV. Gjöld uppí skyndilán.** | | | | |
| 1. uppí alþingiskostnað . . . . . . . . . . . | 6930. | » | | |
| 2. – skyndilán . . . . . . . . . . . . . . | 972. | 15 | 7902. | 15 |
| Tekjur alls . . . | . . . . . | | 44675. | 21 |

## Útgjöld.

A. Útgjöld, sem snerta dómsmálastjórnina.

I. Laun embættismanna:

1. stiptamtmaður á Íslandi . . 3400 rd. » sk.
2. amtmaður í vesturamtinu:
   laun . . . . . 2000 rd.
   í stað bústaðar 200 –
   2200 – » –
3. amtmaður í norður og austuramtinu . . . . . . . . . . 2600 – » –
4. landfógetinn á Íslandi:
   laun.. . . . . . 1000 rd.
   í stað bústaðar . . 150 –
   1150 – » –
5. bæjarfógeti í Reykjavík. . . 300 – » –
6. bæjarfógeti í Akureyri. . . 200 – » –
7. bæjarfógeti á Ísafirði . . . 200 – » –
8. sýslumaður í Vestmannaeyjum 300 – » –
9. sýslumaður í Gullbringu s. . 235 – » –
10. justitiarius í landsyfirréttinum 2400 – » –

yfir um . . . 12985 rd. » sk.

| | | | rd. | sk. | rd. | sk. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | þaðan að . . . | 12985 rd. » sk. | | | | |
| 11. | fyrsti assessor í yfirréttinum | 1800 - » - | | | | |
| 12. | annar assessor í yfirréttinum | 1400 - » - | | | | |
| 13. | tveir lögregluþjónar í Reykjavík, hver þeirra 150 rd. . . | 300 - » - | | | | |
| 14. | landlæknir á Íslandi:<br>laun . . . . . . . 1400 rd.<br>húsaleiga . . . . 150 - | 1550 - » - | | | | |
| 15. | læknir í eystra umdæmi suðuramtsins . . . . . . . . . | 1000 - » - | | | | |
| 16. | læknir í Vestmannaeyjum:<br>laun . . . . . . . 600 rd.<br>fyrir jarðnæði . . 30 - | 630 - » - | | | | |
| 17. | læknir í syðra umdæmi vesturamtsins:<br>laun . . . . . . . 600 rd.<br>fyrir jarðnæði . . 25 - | 625 - » - | | | | |
| 18. | læknir í nyrðra umdæmi vesturamtsins:<br>laun . . . . . 700 rd.<br>fyrir jarðnæði . . 25 - | 725 - » - | | | | |
| 19. | læknir í Húnavatns og Skagafjarðar s. . . . . . . . . . | 1000 - » - | | | | |
| 20. | læknir í Eyjafjarðar og Þingeyjar s. . . . . . . . . . | 600 - » - | | | | |
| 21. | læknir í austuramtinu . . . | 600 - » - | | | | |
| 22. | húsaleigustyrkur til lyfsölumanns í Reykjavík . . . . | 150 - » - | | | | |
| 23. | tvær ljósmæður í Reykjavík, hver 50 rd. . . . . . . . | 100 - » - | | | | |
| 24. | aðrar ljósmæður á Íslandi . | 100 - » - | 23565. | » - | | |

| | | rd. sk. | rd. sk. |
|---|---|---|---|
| handan að . . . | | 23565. » | |
| II. Launaviðbót eptir kornverði . . . . . . | | 2781. 48. | |
| III. Skrifstofugjöld, o. fl. | | | |
| 1. borðfè til stiptamtmanns á Íslandi . . . . . . . . . . . . | 400 rd. | | |
| 2. skrifstofugjald til stiptamtmannsins á Íslandi . . . . . . | 1200 - | | |
| 3. — til amtmannsins í vesturamtinu . . . . . . | 550 - | | |
| 4. — til amtmannsins í norður- og austur-amtinu | 600 - | | |
| 5. — til landfógeta á Íslandi | 500 - | | |
| | | 3250. » | |
| IV. Önnur útgjöld. | | | |
| 1. styrkur í notum spítalans, sem fyrrum var á Gufunesi . . . . . . . | 96 rd. » - | | |
| 2. póstgaungur á Íslandi . . . | 1000 - - » | | |
| 3. styrkur til kálgarðaræktar o. fl. | 300 - » - | | |
| 4. til útbýtingar á læknismeðölum handa fátækum . . . . . | 400 - » - | | |
| 5. styrkur til hins íslenzka bókmentafèlags til prentunar á landshagsskýrslum . . . . | 400 - » - | | |
| 6. styrkur til að prenta lagasafn handa Íslandi . . . . . . . | 933 - 32 - | | |
| | | 3129. 32 | |
| | | | 32725. 80 |
| B. Útgjöld, sem snerta kirkju- og kennslustjórnina. | | | |
| I. Laun embættismanna: | | | |
| 1. biskupinn yfir Íslandi: laun . . . . . 2800 rd. í stað bústaðar . 200 - | 3000 rd. » sk. | | |
| yfir um 3000 rd. » sk. | | | 32725. 80. |

| | | | rd. | sk. | rd. | sk. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| handan að . . . | | | . . . . . | | 32725. | 80 |
| 2. dómkirkjuprestnrinn í Reykjavík: | | | | | | |
| í stað bústaðar . 150 rd. | | | | | | |
| viðbót eptir lögum | | | | | | |
| 19. jan. 1863. . 250 - | 400 - | » - | | | | |
| 3. forstöðumaður prestaskólans: | | | | | | |
| laun . . . . . . 1600 rd. | | | | | | |
| húsaleiga . . . . 150 - | 1750 - | » - | | | | |
| 4. fyrsti kennari við prestaskólann | 800 - | » - | | | | |
| 5. annar kennari við sama . . | 1000 - | » - | | | | |
| 6. rektor við hinn lærða skóla . | 2200 - | » - | | | | |
| 7. yfirkennari við sama . . . | 1200 - | » - | | | | |
| 8. fyrsti kennari við sama: | | | | | | |
| laun . . . . . 900 rd. | | | | | | |
| húsaleiga. . . . 100 - | 1000 - | » - | | | | |
| 9. annar kennari við sama: | | | | | | |
| laun. . . . . . 900 rd. | | | | | | |
| húsaleiga. . . . 100 - | 1000 - | » - | | | | |
| 10. þriði kennari við sama: | | | | | | |
| laun. . . . 858 rd. 32 sk. | | | | | | |
| húsaleiga . . 100 - » - | 958 - | 32 - | | | | |
| 11. fjórði kennari við sama . . | 800 - | » - | 14108. | 32 | | |
| II. Launaviðbót eptir kornverði . . . . | | | 1860. | 16 | | |
| III. Aðstoðarfè, ætlað til launa nokkrum embættismönnum við skólann: | | | | | | |
| 1. til umsjónarmanns . . . . 300 rd. | | » sk. | | | | |
| 2. til annara . . . . . . . . 800 - | | » - | 1100. | » | | |
| IV. Viðbót eptir kornverði . . . . . . | | | 112. | » | | |
| yfir um . . . | | | 17180. | 48 | 32725. | 80. |

| | | | rd. | sk. | rd. | sk. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | handan að . . . | | 17180. | 48 | 32725. | 80 |
| V. | Önnur útgjöld til klerkastèttarinnar: | | | | | |
| 1. | skrifstofugjald til biskups . . | 400 rd. » sk. | | | | |
| 2. | til fátækustu brauða í landinu | 318 - 72 - | | | | |
| 3. | til nokkurra brauða í hinu fyrrveranda Hóla stipti . . | 300 - » - | | | | |
| 4. | til ekkna og barna presta á Íslandi . . . . . . . . | 400 - » - | | | | |
| 5. | styrkur handa uppgjafa-prestum og prestsekkjum á Íslandi . . | 500 - » - | 1918. | 72 | | |
| VI. | Önnur útgjöld til skólanna. | | | | | |
| 1. | fyrir húsrúm til prestaskólans. . . | 270 rd. | | | | |
| 2. | húsaleiga handa 10 lærisveinum við prestaskólann, 40 rd. handa hverjum | 400 - | | | | |
| 3. | til bókakaupa við sama . . . . . | 200 - | | | | |
| 4. | fyrir tímakennslu við sama . . . . | 100 - | | | | |
| 5. | til ýmislegra útgjalda við sama . . | 100 - | | | | |
| 6. | til bókakaupa við latínuskólann . . | 500 - | | | | |
| 7. | til ljósa og eldiviðar. . . . . . . | 750 - | | | | |
| 8. | til skólahússins . . . . . . . . . | 600 - | | | | |
| 9. | fyrir tímakennslu í skólanum . . . | 530 - | | | | |
| 10. | ölmusur við skólann . . . . . . . | 4000 - | | | | |
| 11. | fyrir að semja reikninga skólans. . | 100 - | | | | |
| 12. | fyrir skriptir við skólann . . . . . | 100 - | | | | |
| 13. | fyrir prestsverk við skólann. . . . | 24 - | | | | |
| 14. | kaup læknis sömuleiðis . . . . . | 30 - | | | | |
| 15. | til ýmislegra útgjalda sömuleiðis . . | 400 - | 8104. | » | | |
| | | | | | 27203. | 23 |
| C. | Ýmisleg óviss útgjöld . . . . . . . . | | | | 4000. | » |
| | Útgjöld alls . . . | | . . . . . | | 63929. | 8. |

Við tekjur Íslands voru í frumvarpinu til fjárhagslaganna fyrir áminnzt ár gjörðar þessar athugasemdir:

Við I. 1. og 2. «Tekjur þessar eru hèr taldar eins og þær hafa verið að meðaltali um þau 5 fjárhagsár $18^{62}/_{63}$—$18^{66}/_{67}$.»

Við I. 3. «Eptir reikníngunum fyrir fjárhagsárið $18^{66}/_{67}$ er álitið rèttast að telja þessa tekjugrein eins og hèr er gjört með 500 rd.»

Við II. 1. «Tekjur þessar eru taldar eins og í fjárhagslögunum fyrir $18^{67}/_{68}$, og skal þarhjá skýrskotað til athugasemdanna við frumvarp fjárhagslaganna fyrir árið $18^{66}/_{67}$.»

Við II. 2. «Tekjur þessar eru einnig taldar eins og í fjárhagslögunum fyrir $18^{67}/_{68}$, og má sömuleiðis skýrskota til athugasemdanna við frumvarp fjárhagslaganna fyrir árið $18^{66}/_{67}$.»

Við II. 3. «Tekjur þessar eru hèr taldar eins og þær hafa verið að meðaltali um þau 5 fjárhagsár $18^{62}/_{63}$—$18^{66}/_{67}$, og eru þær þessar:

| | |
|---|---|
| af Gullbríngu sýslu . . . . . . . . | 750 rd. |
| - Reykjavíkur bæ . . . . . . . . | 100 - |
| - Vestmannaeyja sýslu . . . . . . . | 20 - |
| samtals . . . | 870 rd. |

Að öðru leyti skal skýrskotað til athugasemdanna við frumvarp fjárhagslaganna fyrir árið $18^{66}/_{67}$.»

Við II. 4. «Tekjur þessar eru taldar eins og þær hafa verið að meðaltölu um þau 5 fjárhagsár $18^{62}/_{63}$—$18^{66}/_{67}$, og eru þær þessar:

| | |
|---|---|
| af Skaptafells sýslu . . . . . . . . | 230 rd. |
| - Rángárvalla s. . . . . . . . . . | 415 - |
| - Árness s. . . . . . . . . . . | 300 - |
| - Barðastrandar s. . . . . . . . . | 195 - |
| - Ísafjarðar s. . . . . . . . . . | 245 - |
| - Húnavatns s. . . . . . . . . . | 500 - |
| - Skagafjarðar s. . . . . . . . . | 390 - |
| - Eyjafjarðar s. . . . . . . . . | 395 - |
| - Þíngeyjar s. . . . . . . . . . | 410 - |
| - Norður-Múla s. . . . . . . . . | 400 - |
| - Suður-Múla s. . . . . . . . . . | 295 - |
| samtals . . . | 3775 rd. |

Að öðru leyti skal skýrskotað til athugasemdanna við frumvarp fjárhagslaganna fyrir árið $18^{66}/_{67}$.»

Við II. 5. «Hvað tekjur þessar snertir, sem taldar eru hèr eins og þær hafa verið að meðaltali um þau 5 fjárhagsár $18^{62}/_{63}$—$18^{66}/_{67}$, þa skal hèr skýrskotað til athugasemdanna við frumvarp fjárhagslaganna fyrir árið $18^{66}/_{67}$.»

Við II. 6. «Skipagjöld þau, sem hèr eru talin, hafa um þau 5 fjárhagsár $18^{62}/_{63}$—$18^{66}/_{67}$, að meðaltali verið hèrumbil 12200 rd., og er þar ekki talið skipagjald fyrir gufuskipið, sem fer póstferðir til Íslands, því þessir peníngar eru taldir sèr, þareð þeir samkvæmt athugagrein við útgjöldin undir 20. gr. VIII. A. og B. aptur verða endurgoldnir útgjörðarmönnum gufuskipsins (smbr. að öðru leyti athugasemdir við fjárhagslögin fyrir fjárhagsárið $18^{66}/_{67}$).»

Við II. 7. «Eptir meðaltali um þau 5 fjárhagsár $18^{62}/_{63}$—$18^{66}/_{67}$ má telja tekjur allar af konúngsjörðum á Íslandi á ári hèrumbil

15730 rd.

Frá þessu gánga þessi útgjöld:

1. Laun umboðsmanna, hèrumbil . . . . 2620 rd.
   Umboðsmönnum er nefnilega veittur $^1/_6$ hluti tekja þeirra, sem þeir heimta; en umboðsmaður Bjarnaness umboðs tekur ekki umboðslaun í peníngum.
2. Prestmötur, hèrumbil . . . . . . . . 980 -
   Afgjald af jörðum þeim, sem liggja undir klausturkirkjurnar, rennur inn í ríkissjóðinn en af leigunum eptir innstæðu á þessum jörðum ber prestinum helmíngur, eins og af öðrum jörðum, sem liggja undir bændakirkjur.
3. Alþíngisskattur og önnur ýmisleg útgjöld 560 -

4160 -

Hreinar tekjur verða þá eins og talið er . . . . . 11570 rd.

það er að skilja:

| | | |
|---|---|---|
| af Gullbríngu- og Kjósar sýslu jörðum . | 395 | rd. |
| - Kirkjubæjar klaustri og Flögu jörðum . | 815 | - |
| - þykkvabæjar klaustri . . . . . . . | 775 | - |
| - Vestmannaeyja jörðum . . . . . . | 735 | - |
| - Arnarstapa umboði . . . . . . . . | 1560 | - |
| - Skógarstrandar umboði . . . . . . | 140 | - |
| - Stranda sýslu jörðum . . . . . . | 390 | - |
| - Barðastrandar og Álptafjarðar jörðum . | 85 | - |
| - þíngeyra klaustri . . . . . . . . . | 1400 | - |
| - Reynistaðar klaustri . . . . . . . | 920 | - |
| - Möðruvalla klaustri . . . . . . . . | 1420 | - |
| - Múnkaþverár klaustri, vestara hluta . . | 780 | - |
| - — — nyrðra hluta . . | 560 | - |
| - Skriðu klaustri . . . . . . . . . . | 730 | - |
| - Eyjafjarðar jörðum . . . . . . . . | 360 | - |
| - Reykjadals jörðum og hálfri Flatey . . | 250 | - |
| - Norður sýslu jörðum . . . . . . | 140 | - |
| - Suðurmúla sýslu jörðum . . . . . | 60 | - |
| - Bjarnaness umboði . . . . . . . . | 55 | - |
| samtals . . . | 11570 | rd.» |

Við II. 8. «Í þessari tekjugrein er talið:

| | | |
|---|---|---|
| 1. eptirgjald af eyjunni Lundey . . . . . . . . . | 74 | rd. |
| 2. — af silfurbergsnámunum í Helgustaða fjalli . . . . . . . . . . . . . . . | 20 | - |
| samtals . . . | 94 | rd. |

Um leið og skýrskotað er til athugasemdanna við frumvarpið til fjárhagslaganna fyrir árið 18$^{66}/_{67}$, skal þarhjá geta þessa: Í Helgustaða fjalli í landareign jarðarinnar Helgustaða í Suður-Múla sýslu eru silfurbergsnámur, og er $^{1}/_{4}$ hluti þeirra konúngs eign. þessi hluti hefir híngað til verið leigður kaupmanni Tulinius á Eskjufirði um 5 ár, frá 1. janúar 1863, móti 100 rd. eptirgjaldi á ári; en nú hefir Tulinius sent dómsmálastjórninni beiðni um, að sèr yrði leigðar þessar námur aptur um 5 ár, frá 1. janúar 1868, móti

20 rd. eptirgjaldi á ári. Samkvæmt skýrslum þeim, sem gefnar hafa verið um þetta efni, geta menn ekki vonazt eptir að nokkur vili leigja námur þessar móti hærra afgjaldi, og stjórnarráðið hefir því gengið að þessum kjörum og leigt honum námurnar móti 20 rd. eptirgjaldi á ári, en þó ekki um lengri tíma en 2 ár frá 1. janúar 1868.»

Við II. 9. «Samkvæmt konúngsúrskurði 28. júní 1867 hefir verið haft skipti á jörðunni Bessastöðum fyrir jörðina Belgsholt með Belgsholtskoti í Borgarfjarðar sýslu. Jörðin Bessastaðir hefir um nokkur ár verið byggð með 60 rd. afgjaldi á ári, og þó með þeim skilmálum, að ábúandi skyldi kauplaust fá tjöru þá, sem með þyrfti til þaksins á íbúðarhúsinu þar; en afgjaldið af Belgsholti með kotinu eru hèrumbil 80 rd. á ári. Hèr eru því taldir þessir 80 rd. og nokkrar aðrar smátekjur, en um þær skal skýrskotað til athugasemdanna við frumvarpið til fjárhagslaganna fyrir fjárhagsárið $18^{66}/_{67}$.»

Við II. 10. «Í þessum óvissu tekjum er innibundið erfíngjalaust fè, undirgjafir undir sendifè, tekjur af ströndudu gózi o. s. fr.; en tekjur þessar eru hèr taldar eins og þær hafa verið að meðaltali um þau hin síðustu 5 fjárhagsár: $18^{62}/_{63}$—$18^{66}/_{67}$».

Við III. 1 og 2. «Í söluskilmálunum fyrir konúngsjörðum þeim, sem öðru hverju hafa verið seldar á Íslandi samkvæmt leyfi konúngs, sem til þess hefir verið fengið í hvert skipti, hefir meðal annars verið ákveðið, að þegar í stað skyldi greiða ⅓ hluta kaupverðsins, en að hinir ⅔ hlutar þess mættu standa inni hjá kaupanda móti veði, með fyrsta forgángsrètti í jörðunum, og skyldi þarhjá gjalda á ári 4 af hundraði í leigur af hinu ógoldna andvirði. Í veðskuldabrèfunum fyrir tèðum jörðum er því ekki tiltekin nein viss borgun á ári uppí skuldina, en þegar skuldari hefir beiðzt þess, hefir honum jafnan verið leyft að borga uppí skuldina, móti kvittun á skuldabrèfið. Eptir skýrslu, sem samin er við lok fjárhagsársins $18^{65}/_{66}$, stóðu þá í eptir ógoldnir 4729 rd. af andvirði seldra konúngsjarða, og leigur af þessari upphæð, og eptir meðaltali um hin síðustu 5 ár hèrumbil 80 rd. borgun uppí það, sem eptir stendur, er það sem hèr er talið með 270 rd.»

Við IV. 1. „Eptir skýrslum þeim, sem stjórnarráðið hefir undir höndum, stóð eptir óendurgoldið við lok fjárhagsársins $18^{66}/_{67}$ af alþíngiskostnaðinum 18499 rd. 85 sk. Verði nú á fjárhagsárinu $18^{67}/_{68}$ borgaðir þeir 11570 rd., sem taldir eru undir tekjugrein IV. 1 í fjárhagslögunum fyrir nýnefnt ár, þá ættu við lok þess fjárhagsárs að standa eptir óendurgoldnir hèrumbil 6930 rd. Eptirstöðvar þessar er þá það, sem menn geta vonazt eptir að endurgoldið verði á fjárhagsárinu $18^{68}/_{69}$ samkvæmt opnu brèfi 18. júlí 1848, og er þetta því hèr talið með 6930 rd.»

Við IV. 2. „Í þessari tekjugrein eru talin þau gjöld, sem nú skal segja, nefnilega:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1. | uppí lán til aðgjörðar á stiptamtmannshúsinu í Reykjavík : . . . . . . . . . . | 269 rd. | 15 sk. |
| 2. | — lán til að byggja kirkju á Eyri . . . . | 108 - | » - |
| 3. | — skyndilán vegna fjárkláðans á Íslandi . . | 500 - | » - |
| 4. | — skuld fyrrum sýslumanns Baumanns . . | 95 - | » - |
| | samtals . . . | 972 rd. | 15 sk. |

Að öðru leyti skal þess getið:

1. Hvað lánið til aðgjörðar á stiptamtmannshúsinu í Reykjavík snertir, þá skal skýrskotað til athugasemdanna við fjárhagslagafrumvarpið fyrir $18^{55}/_{56}$, smbr. fjárhagslögin fyrir árið $18^{66}/_{67}$.

2. Um lánið til að byggja kirkju á Eyri í Ísafjarðar sýslu í Vestur-umdæmi Íslands, skal hèr skýrskota til athugasemdanna við fjárhagslagafrumvarpið fyrir árið $18^{66}/_{67}$.

3. Samkvæmt fjárhagslögunum fyrir fjárhagsárið $18^{67}/_{68}$ ber að skoða þá 500 rd., sem hèr eru taldir, eins og borgun fyrir þriðja árið uppí hið leigulausa lán, að upphæð 6000 rd., sem í lögum 30. desember 1858, um viðbót við fjárhagslögin fyrir árið $18^{58}/_{59}$, var veitt Suður-umdæminu í tilefni af fjárkláðanum á Íslandi; smbr. að öðru leyti athugasemdirnar við fjárhagslagafrumvarpið fyrir fjárhagsárið $18^{67}/_{68}$.

4. «Hvað skuld fyrrum sýslumanns Baumanns snertir, þá skal um það skýrskota til athugasemdanna við fjárhagslagafrumvarpið fyrir árið $18^{66}/_{67}$."

Við útgjöld Íslands voru í fjárhagslaga frumvarpinu gjörðar þessa athugasemdir, sem nú skal segja:

Við A. I. 1. „Stiptamtmaðurinn á Íslandi hefir embættisbústað og jörð til frjálsrar brúkunar afgjaldslaust."

Við A. I. 3. „Amtmaðurinn í Norður- og Austur-umdæminu hefir einnig embættisbústað og jörð til frjálsrar brúkunar afgjaldslaust."

Við A. I. 4. „Landfógetinn á Íslandi hefir jörð til frjálsrar brúkunar afgjaldslaust".

Við A. I. 19. „Samkvæmt frumvarpi því til laga um laun ymsra embættismanna á Íslandi, sem lagt var fyrir hið 14. ríkisþíng Dana, ætti læknirinn í Húnavatns og Skagafjarðar sýslum, sem er skipaður í þetta embætti 31. marz 1856, að fá í laun frá 1. apríl 1868 á ári 1000 rd., í stað þess að hann nú ekki fær nema 900 rd. á ári. Það má nú af umræðunum á ríkisþínginu um nýnefnt lagafrumvarp gjöra ráð fyrir, að það hafi verið meiníng þíngsins, að embættismönnum þeim, sem eptir frumvarpinu áttu rètt á að fá launaviðbót eptir embættisaldri á komandi fjárhagsárum, ekki yrði neitað um þessa launaviðbót, þrátt fyrir breytíngu þá, er gjörð var á frumvarpinu af þínginu og sem konúngur staðfesti 19. janúar 1863, og hefir þessari reglu einnig verið fylgt í fjárhagslögunum fyrir árin 18⁶⁴/₆₅, 18⁶⁵/₆₆, 18⁶⁶/₆₇ og 18⁶⁷/₆₈ um aðra embættismenn, sem líkt hefir staðið á fyrir. Samkvæmt því, sem nú hefir verið sagt, eru því laun þessa embættismanns hèr talin 1000 rd."

Við A. I. 20. „Lækni þeim, sem híngað til hefir gegnt læknisembættinu í Eyjafjarðar og Þíngeyjar sýslum, var 30. marz 1867 veitt hèraðslæknisembættið í Örsteð á Jótlandi, og hinu fyrstnefnda embættinu var því slegið upp sem lausu með launum þeim, sem áður voru lögð hverjum þeirra þriggja yngstu af hèraðslæknunum á Íslandi, nefnilega 500 rd., og var þess um leið getið, að dómsmálastjórnin hefði í hyggju í fjárhagslögunum fyrir í hönd faranda fjárhagsár að útvega manni þeim, sem kynni að verða skipaður í þetta embætti, þá sömu launaviðbót, sem í lögum 19. janúar 1863 var veitt embættismönnum þeim á Íslandi, sem um

þær mundir voru í embættum eða settir yrði í embætti þau, sem þá væru laus; en samkvæmt frumvarpi því til nefndra laga, sem lagt var fyrir ríkisþíngið, var launaviðbót þessi talin þannig, að laun lækna skyldi í upphafi vera 600 rd. á ári, og skyldi þau hækka með 100 rd. fyrir hver 3 ár, sem þeir væri í embætti, unz 1000 rd. væru komnir. Samkvæmt þessu eru laun þessa embættis hèr talin með 600 rd., og skal þess þarhjá hèr getið, að launahækkun sú, sem hèr er stúngið uppá, er nauðsynleg til þess að geta gjört sèr nokkrar vonir um að þetta embætti, sem enginn ennþá hefir sókt um, verði skipað. Ennfremur má geta þess, að í fjárhagslögunum fyrir árið $18^{65}/_{66}$ var gjörð lík ákvörðun um læknisembættið í syðri hluta vestur-umdæmisins, og í fjárhagslögunum fyrir árið $18^{66}/_{67}$ um læknisembættið á Vestmannaeyjum."

Við A. I. 15—21. „Hèraðslæknum öllum á Íslandi, að fráskildum lækninum í Húnavatns og Skagafjarðar sýslum, er annaðhvort lagt jarðnæði, eða þá í þess stað peníngaupphæð sú, sem hèr er talin."

Að öðru leyti en því, sem hèr að framan segir, eru laun embættismanna þeirra, sem taldir eru í frumvarpinu undir A. I., talin eins og í fjárhagslögunum fyrir árið $18^{67}/_{68}$.

Við A. II. Samkvæmt lögum 19. febrúar 1861 er launaviðbót sú, sem hèr ræðir um, reiknuð eptir meðalverði verðlagsskránna á þeim fjórum korntegundum saman lögðum, nefnilega hveiti, rúgi, byggi og höfrum, samt eptir reglum þeim, sem settar eru fyrir þessu í nefndu lagaboði. Í frumvarpinu til fjárhagslaganna fyrir árið $18^{68}/_{69}$ er viðbót þessi talin eptir meðaltölu af verðlaginu fyrir 10 síðustu ár á þessa leið:

| | | |
|---|---|---|
| stiptamtmaðurinn[1] . . . . . . . . . . . . | 200 rd. | » sk. |
| amtmaðurinn í Vesturamtinu . . . . . . . . . | 228 - | » - |
| amtmaðurinn í Norður- og Austuramtinu . . . | 228 - | » - |
| landfógetinn á Íslandi og bæjarfógeti í Reykjavík . | 208 - | » - |
| justitiarius í landsyfirrèttinum . . . . . . . | 228 - | » - |
| yfir um . . . | 1092 rd. | » sk. |

[1]) Samkvæmt því sem segir í 1. gr. laga 19. febrúar 1861, er launaviðbót eptir kornverði handa stiptamtmanni einúngis taldir 200 rd.

| | að upphæð. | | tiltals af hundraði. |
|---|---|---|---|
| | rd. | sk. | |
| Ær mylk . . . . . . . | 1. | 33 | 64.5 |
| Púlshestar . . . . . . | 3. | 42 | 13.9 |
| Hryssa . . . . . . . | 2. | 92 | 26.7 |
| Hvít ull . . . . . . . . | » | 30 | 157.9 |
| Mislit ull . . . . . . . | » | $19^1/_2$ | 118.2 |
| Smjör . . . . . . . . | » | $8^1/_2$ | 51.5 |
| Tólg . . . . . . . . | » | $1^1/_2$ | 9.7 |
| Hespugarn . . . . . . . | » | 11 | 36.7 |
| Eingirnis sokkar . . . . | » | 11 | 64.7 |
| Tvíbands sokkar . . . . | » | 17 | 68.0 |
| Sjóvetlíngar . . . . . . | » | $3^1/_2$ | 53.8 |
| Eingirnis peisa . . . . | » | 40 | 76.9 |
| Tvíbands peisa . . . . | » | 44 | 50.6 |
| Vaðmál . . . . . . . . | » | 24 | 75.0 |
| Einskepta . . . . . . . | » | 17 | 70.8 |
| Saltaður fiskur . . . . | 1. | 60 | 44.3 |
| Harður fiskur . . . . . . | 1. | 44 | 37.1 |
| þyrsklíngur . . . . . . | 1. | 43 | 39.6 |
| Hákall hertur . . . . . | 1. | 61 | 57.7 |
| Ísa . . . . . . . . . . | 1. | 1 | 30.8 |
| Hvalslýsi . . . . . . . | » | 23 | 19.5 |
| Hákallslýsi . . . . . . . | » | 55 | 43.7 |
| Selslýsi . . . . . . . . | » | 42 | 34.1 |
| þorskalýsi . . . . . . . | » | 36 | 31.4 |
| Nautskinn . . . . . . . | » | 93 | 21.5 |
| Kýrskinn . . . . . . . | 1. | 5 | 30.3 |
| Hrossskinn . . . . . . . | 1. | 11 | 43.3 |
| Sauðskinn . . . . . . . | » | 66 | 33.7 |
| Ærskinn . . . . . . . . | » | 54 | 45.4 |
| Selskinn . . . . . . . | 1. | 31 | 47.0 |
| Lambskinn . . . . . . | » | 1 | 16.6 |

| | að upphæð. | | tiltals af hundraði. |
|---|---|---|---|
| *Æðardún hreinsaður . . | 2. | 90 | 82.0 |
| Æðardún óhreinsaður . . | » | 38 | 65.5 |
| Fuglafiður . . . . . . . | » | 69 | 31.4 |
| Fjallagrös . . . . . . . | » | 19 | 26.4 |
| Dagsverk . . . . . . . | » | 17 | 23.0 |
| Lambsfóður . . . . . . | » | 53 | 52.5 |

Á þessum 20 árum, það er að skilja frá $18^{46}/_{47}$ til $18^{65}/_{66}$, hefir því verðlagið eptir meðaltölu, um allt Ísland, að tiltölu hækkað mest á ullu, bæði hvítri og mislitri, og þá á hreinsuðum æðardún, en minnst hefir verðlagið hækkað á tólg og þá á púlshestum.

# BÚNAÐAR-ÁSTAND Á ÍSLANDI

í fardögum 1867.

---

Öllum kemur saman um það, að mjög svo áríðandi og fróðlegt er að hafa sem greinilegastar skýrslur um búnaðar-ástand sèrhvers lands, og þessvegna hefir í ritum þessum optar verið skýrt frá þessari grein hagfræðinnar á Íslandi á ýmsum árum, (smbr. I., bls. 58—73, 118—123, 480—87, II., bls. 31—220, 544—559, 852—891, III., bls. 227—273, 393—445, 644—697, 760—819, IV. bls. 179—239 og 271—333). Þessu til framhalds skal því hèr einnig skýra frá búnaðar-ástandi á Íslandi eins og það er talið að hafa verið í fardögum 1867.

Skýrslur þær, sem vèr nú látum fylgja um þetta efni, eru eins og að undanförnu samdar eptir skýrslum þeim, sem sýslumenn á Íslandi semja um það á ári hverju og senda amtmönnum, en þeir aptur hinni íslenzku stjórnardeild, en tilhögunin á þeim er að öllu hin sama og verið hefir um síðustu undanfarin ár, og er í þeim til hægara samanburðar sagt frá tölu nautpeníngs og sauðfènaðar í hverjum hrepp og hverri sýslu í fardögum 1866. Eins og áður í skýrslum þessum hefir verið gjört, höfum vèr hèr einnig sleppt að skýra frá tölu býla og þeirra sem tíunda, og kemur það til af því, að þessi tvö atriði, sem þó ekki eru svo lítils áríðandi þegar um búnaðar-ástand landsins er að ræða, eru í skýrslum sýslumanna mjög svo ósamkvæm eða þá með öllu gengið fram hjá þeim, og á þetta síðast nefnda sèr stað í skýrslunum úr Vestmannaeyja, Gullbríngu- og Kjósar, Skagafjarðar, Eyjafjarðar, Norðurmúla og Suðurmúla sýslum. Einnig eru skýrslur amtmanna um bæði þessi atriði nokkuð ólíkar og sjálfum sèr ósamkvæmar, sem nú skal sýnt verða. Þannig er í fardögum 1867 tala „býla" í Suður-umdæminu sögð að vera 2478 (í fardögum 1866 voru þau talin 2035, en aptur

á móti 2754 í fardögum 1865, smbr. IV., bls. 271, og er ekki hægt að gjöra sèr hugmynd um hvað muni valda þessum mikla mismun), en tala „gripaeigenda" er á sama ári sögð 3030 (í fardögum 1866 voru þar á móti taldir 2424 „búendur"); í Vesturumdæminu er munurinn á þessu hvorutveggja miklu minni, því þar er tala „býla" í fardögum 1867 sögð 1545 (í fardögum 1866 voru þau talin 1554) og tala „þeirra sem gripi framtelja" sögð að vera 1990 (en þeir voru í fardögum 1866 taldir 1974); og loks eru í skýrslunni frá Norður- og Austur-umdæminu tala „byggðra jarða" í fardögum 1867 sögð að vera 2526 (í fardögum 1866 voru þær ekki taldar nema 2448), en þeir „sem tíund gjöra" eru taldir 3695 (í fardögum 1866 var tala þeirra sögð 3710).

Vèr látum nú talað út um þetta, en áður en vèr látum skýrslurnar sjálfar fylgja, viljum vèr skoða hvert höfuðatriði í þeim sèr, og gjöra við sèrhvert þeirra nokkrar athugasemdir og samanburð við undanfarin ár.

---

## I. NAUTPENÍNGUR.

Næst undanfarið fardagaár fór tala nautgripa á Íslandi lítið eitt vaxandi (smbr. IV., bls. 272), en þrjú næstu ár þar fyrir hafði tala þeirra farið mínkandi á ári hverju (smbr. III., bls. 645, 761 og IV., bls. 180). Á þessu ári, sem hèr ræðir um, hefir tala nautgripa einnig farið mínkandi, því í fardögum 1866 var tala nautpeníngs á öllu Íslandi nefnilega 20357, en samkvæmt skýrslunum hèr á eptir er tala nautgripa í fardögum einúngis sögð að vera 19003, og hefir því fækkun þeirra á þessu eina ári verið 1354 tals, eða að tiltölu 6.6 af hverju hundraði; þetta er að tiltölu talsvert meira en fardagaárið 1864—65, því þá var það einúngis 2.5 af hundr., en nokkru minna en fardagaárið 1863—64, þegar það var 7.4 af hundr.

Fækkun þessi á nautpeníngi, sem nú var sýnd að átt hafi sèr stað á fardagaárinu 1866—67, verður nokkuð á ymsa leið í umdæmum landsins, því þá kemur fram að nautgripir hafa fækkað í:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Suður-umdæminu . . . . . . . . | 295 | 3.5 |
| Vestur-umdæminu . . . . . . . . | 290 | 6.5 |
| Norður- og Austur-umd. . . . . . | 769 | 10.2 |

og hefir þá fækkunin verið lángmest í Norður- og Austur-umdæminu, en minnst í Suður-umdæminu.

það gefur samt að skilja, að munurinn á þessu muni vera miklu meiri þegar skoðað er hvert hèrað í landinu sèr, því beri maður saman tölu nautpeníngs í fardögum 1866 við tölu hans í fardögum 1867, þá sýnir það sig, að tala nautpeníngs á þessu ári þó hefir fjölgað í þessum sýslum, nefnilega í:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Árness sýslu . . . . . . . . | 79 | 3.1 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . . . | 7 | 13.2 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . . . . | 1 | 0.1; |

en aptur á móti hefir tala nautpeníngs á þessu sama ári fækkað á þessa leið í þessum sýslum, nefnilega:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . . . | 44 | 3.2 |
| Vestmannaeyja s. . . . . . | 4 | 10.5 |
| Rángárvalla s. . . . . . . . . . | 119 | 5.5 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . . . | 96 | 8.2 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . . . . | 118 | 12.2 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . . . | 119 | 11.1 |
| Snæfellsness s. . . . . . . . . | 26 | 4.1 |
| Dala s. . . . . . . . . . . . | 58 | 8.1 |
| Barðastrandar s. . . . . . . . | 46 | 5.8 |
| Stranda s. . . . . . . . . . . | 42 | 12.6 |
| Húnavatns s. . . . . . . . . . | 151 | 10.7 |
| Skagafjarðar s. . . . . . . . . | 162 | 10.4 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . . . . | 146 | 9.0 |
| þíngeyjar s. . . . . . . . . . | 116 | 10.8 |
| Norður-Múla s. . . . . . . . . | 141 | 14.8 |
| Suður-Múla s. . . . . . . . . | 53 | 5.8. |

Að Vestmannaeyja sýslu og Reykjavíkur bæ frá töldum, sem hvort um sig ekki getur talizt nema hreppur, þá hefir nautpeníngur á þessu ári að tiltölu fækkað mest í Norður-Múla sýslu og þá í Stranda sýslu, en minnst hefir fækkað að tiltölu í Skaptafells sýslu og þá í Snæfellsness sýslu.

Á þessu ári, sem hèr ræðir um, hefir veturgamall nautpeníngur, sem hið undanfarna ár hafði fjölgað töluvert (nefnilega um 314 tals eða 15.6 af hundr.), fækkað mest að tiltölu, það er að skilja um 568 eða 24.4 af hundraði; þessu næst hafa griðúngar og geldneyti eldri en veturgömul fækkað töluvert, nefnilega um 119 eða 10.9 af hundraði (næst undanfarið ár fjölguðu þau þar á móti um 158 eða 16.9 af hundr.); en minnst hafa kýr og kelfdar kvígur fækkað að tiltölu á þessu ári, nefnilega um 667 eða einúngis 4.0 af hundr., (árið næst á undan höfðu þær einnig fækkað nokkuð, nefnilega um 415 tals eða 2.4 af hundraði).

Skýrslurnar bera það að vísu sjálfar með sèr, hversu margt sè í hverjum hrepp og í hverri sýslu á landinu bæði af kúm, geldneytum og veturgömlum nautpeníngi; en til þess að hafa hægara yfirlit yfir þetta á einum stað, þá skal hèr skýra frá hlutfalli því, sem í fardögum 1867 var milli þeirra þriggja flokka, er nú voru taldir. Af hverju 100 nautpeníngs voru nefnilega á þessu ári í:

| | kýr og kvígur. | eldri geldneyti. | veturgamalt. |
|---|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . | 80.8 | 5.6 | 13.6 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 94.7 | 0.0 | 5.3 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 91.1 | 0.7 | 8.2 |
| Árness s. . . . . . . . | 85.5 | 1.7 | 12.8 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 85.1 | 3.6 | 11.3 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . | 98.3 | 0.0 | 1.7 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 85.9 | 1.8 | 12.3 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 85.8 | 2.6 | 11.6 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 86.8 | 3.1 | 10.1 |
| Dala s. . . . . . . . . . | 84.8 | 7.6 | 7.6 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 83.5 | 7.8 | 8.7 |

| | kýr og kvígur. | eldri geldneyti. | vetur-gamalt. |
|---|---|---|---|
| Ísafjarðar sýslu . . . . . | 84. 3 | 5. 7 | 10. 0 |
| Stranda s. . . . . . . . . | 87. 6 | 5. 5 | 6. 9 |
| Húnavatns s. . . . . . . | 89. 0 | 4. 6 | 6. 4 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 87. 6 | 6. 6 | 5. 8 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . | 88. 4 | 6. 2 | 5. 4 |
| þíngeyjar s. . . . . . . | 87. 9 | 4. 8 | 7. 3 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 77. 0 | 15. 0 | 8. 0 |
| Suður-Múla s. . . . . . . | 74. 9 | 15. 1 | 10. 0 |
| Suður-umdæminu . . . . | 86. 3 | 2. 3 | 11. 4 |
| Vestur-umdæminu . . . . | 85. 2 | 5. 3 | 9. 5 |
| Norður- og Austur-umd. . . | 85. 2 | 8. 3 | 6. 5 |
| á öllu Íslandi . . . . . . | 85. 7 | 5. 1 | 9. 2. |

það sýnir sig þá eptir þessu, þegar Vestmannaeyja sýslu og Reykjavíkur bæ er sleppt, að af jafnmörgum nautpeníngi eru kýr og kelfdar kvígur á þessu ári flestar í Rángárvalla sýslu og fæstar í Suður-Múla sýslu; griðúngar og geldneyti, eldri en veturgömul, eru aptur á móti flest í Suður-Múla sýslu og fæst í Rángárvalla sýslu; og loks er veturgamall nautpeníngur flestur í Skaptafells sýslu en fæstur í Eyjafjarðar sýslu. Að öðru leyti eru hlutföll þessi nokkuð lík því, sem átti sèr stað næst undanfarin tvö ár (smbr. IV., bls. 182—183 og 274—275).

Beri maður enn fremur tölu nautgripa á þessu ári saman við tölu þeirra á eldri tímum, og taki maður til þessa samanburðar árið 1853, sem er það ár, þá skýrslum þessum var fyrst hagað á þann hátt sem nú er, þá lýsir það sèr, að nautpeníngur á þeim 14 árum, sem síðan eru liðin, hefir fækkað ekki svo lítið í landinu. Í fardögum 1853 var nefnilega tala nautgripa á öllu Íslandi 23663, en í fardögum 1867 er hún ekki talin nema 19003; fækkun nautgripa á þessum 14 árum hefir því verið 4660 tals eða 19. 7 af hverju hundraði á öllu landinu. Mest hefir fækkunin að tölunni til verið í Suður-umdæminu, nefnilega 2346, eða að tiltölu 22. 6 af hundraði

(eða rúmur fimti hluti), og eins hefir að tiltölu fækkað í Vesturumdæminu, þó fækkunin þar að tölunni til ekki hafi verið meiri en 1223, en í Norður- og Austur-umdæminu hefir einúngis fækkað um 1091 tals, eða að tiltölu 13.9 af hundr. Eptir eðli sínu hlýtur þó stærri mismunur á þessu að koma fram í hinum sèrstöku hèruðum landsins á þessu sama tímabili, því beri maður árin 1853 og 1867 saman, þá hefir tala nautgripa um þessi 14 ár fjölgað eða fækkað á þann hátt, sem nú skal sýnt.

Fjölgað hefir nefnilega einúngis í:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Reykjavíkur bæ . . . . . | 9 | 17.6 |
| en aptur á móti hefir fækkað í: | | |
| Skaptafells sýslu . . . . . | 395 | 22.9 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 14 | 26.9 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 700 | 25.3 |
| Árness s. . . . . . . . | 505 | 16.1 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 292 | 21.5 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 449 | 34.6 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 364 | 27.7 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 282 | 31.4 |
| Dala s. . . . . . . . . | 154 | 19.0 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 125 | 14.2 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 174 | 15.7 |
| Stranda s. . . . . . . . | 124 | 29.9 |
| Húnavatns s. . . . . . . | 388 | 23.5 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 185 | 11.7 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . | 250 | 15.0 |
| þíngeyjar s. . . . . . . | 109 | 10.2 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 88 | 9.8 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 71 | 7.6 |

Sleppi maður einnig hèr Vestmannaeyja sýslu og Reykjavíkur bæ, þá hefir fækkun nautpeníngs að tiltölu á þessu 14 ára tímabili verið mest í Borgarfjarðar sýslu (rúmur þriðjúngur) og þá í

Snæfellsness sýslu, en minnst hefir fækkað í Suður-Múla sýslu (hèrumbil þrettándi hluti) og þá í Norður-Múla sýslu.

Á þessu tímabili er það einkum veturgamall nautpeníngur, sem að tiltölu hefir fækkað mest, því kýr og kelfdar kvígur hafa fækkað einúngis um 15.9 af hundraði, en griðúngar og geldneyti eldri en veturgömul hafa fækkað um 29.4 af hundraði, og veturgamall nautpeníngur um 40.0 af hundraði.

---

## II. SAUÐFÈNAÐUR.

Skýrslurnar fyrir nokkur undanfarin ár bera það með sèr, að tala sauðfjárins á Íslandi, sem er aðalbjargræðisstofn landsmanna og sem á árunum 1856—1859 gekk svo mjög af sèr sökum hins skaðvænlega fjárkláða, hafi á seinni árum, eða frá því um fardaga 1859, tekið ekki svo litlum framförum, að fráskildu þó fardagaárinu 1862—63, þá tala þess fækkaði nokkuð (smbr. III., bls. 648). En því miður er ekki þessu að fagna á fardagaári því, sem hèr ræðir um, þar sem fjártalan nefnilega á því hefir fækkað töluvert. Eptir skýrslunum taldist nefnilega svo til, að í fardögum 1865 væri fjártalan á öllu landinu 381,578, en um sama leyti 1866 var tala fjárins orðin 393,295, og hafði því sauðfè á því ári fjölgað um 11,717 tals eða að tiltölu 3.1 af hundraði (smbr. IV., bls. 277); en á þessu ári, sem hèr ræðir um, hefir fjártalan aptur á móti fækkað svo mjög, að hún í fardögum 1867 er ekki sögð að vera nema 368,591 á öllu landinu, og hefir þá sauðpeníngur á þessu ári fækkað um 24,704 tals eða að tiltölu 6.3 af hundraði. Munurinn á þessari fækkun er að öðru leyti svo töluverður í hinum sèrstöku hèruðum og sveitum landsins, þar sem fjártalan þó hefir aukizt í nokkrum þeirra, að tilhlýðilegt mun þykja að skoða þetta atriði nokkuð ítarlegar.

Taki maður þá fyrst hvert umdæmi í landinu sèr, þá kemur það fram, að sauðfè á þessu ári þó hefir fjölgað í einu þeirra, nefnilega í:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Vestur-umdæminu . . . . | 1406 | 1.9; |

en aptur á móti fækkað í:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Suður-umdæminu . . . . | 3276 | 3.3 |
| Norður- og Austur-umd. . | 22834 | 10.3, |

og er þetta gagnstætt því sem átti sèr stað næst undanfarið ár, því þá hafði fækkað í Vestur-umdæminu, en þar á móti fjölgað í hinum tveim umdæmunum; að öðru leyti er fækkunin einkum töluverð í Norður- og Austur-umdæminu, þar sem fè hefir fækkað þar um rúman tíunda hluta.

Skoði maður aptur á hinn bóginn hverja sýslu í landinu sèr, þá verður þetta þó nokkuð á annan hátt, því þá kemur það fram, að sauðfènaður hefir á þessu ári þó fjölgað í:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Vestmannaeyja sýslu . . . | 90 | 11.7 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 1901 | 7.6 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 2 | 0.01 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 452 | 6.1 |
| Dala s. . . . . . . . . . | 469 | 3.2 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 499 | 4.5 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 426 | 3.9; |

en aptur hefir hann fækkað í:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . | 2154 | 9.4 |
| Árness s. . . . . . . . . | 4 | 0.01 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 2847 | 39.4 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . | 42 | 30.9 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 220 | 1.7 |
| Stranda s. . . . . . . . . | 442 | 6.2 |
| Húnavatns s. . . . . . . . | 2461 | 5.0 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 2841 | 8.3 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . | 1818 | 6.1 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . . | 2655 | 6.9 |
| Norður-Múla s. . . . . . . | 4476 | 11.4 |
| Suður-Múla s. . . . . . . | 8583 | 28.5. |

þegar Vestmannaeyja sýsla og Reykjavíkur bær eru frá talin, þá hefir eptir þessu sauðfènaður bæði tals og að tiltölu fjölgað mest í Rángárvalla sýslu (um rúman fjórtánda hluta), en minnst hefir fjölgað í Mýra- og Hnappadals sýslu, nefnilega ekki nema um 2 tals, og er það varla teljanda. Aptur á hinn bóginn hefir fækkunin að vísu að tölunni til verið mest í báðum Múla sýslunum, en að tiltölu hefir hún verið lángmest í Gullbríngu- og Kjósar sýslu (rúmur þriði hluti; og mun það einkum vera að kenna þeim hinum mikla niðurskurði, sem þar var við hafður í nokkrum sveitum veturinn 1866 til að útrýma eptirstöðvum fjárkláðans, og kvað svo mikið að því, að í fardögum 1867 er í einum hrepp í sýslunni ekki talin nokkur sauðkind) og þá í Suður-Múla sýslu (rúmur fjórði hluti); en minnst og varla teljanda hefir fækkað í Árness sýslu (að tiltölu ekki nema 1 af hverju 1000), og þá í Borgarfjarðar sýslu.

Mestur verður þó munurinn bæði á fjölgun og fækkun sauðfjárins í hreppum landsins, því á þessu ári hefir tala fjárins fjölgað í þessum 65 hreppum og á þann hátt sem nú skal segja, nefnilega:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| í Skaptafells sýslu: | | |
| Dyrhóla hrepp . . . . . | 649 | 17.1 |
| í Rángárvalla sýslu: | | |
| Holtamanna . . . . . . | 589 | 11.7 |
| Landmanna . . . . . . | 129 | 5.2 |
| Rángárvalla . . . . . . | 210 | 5.1 |
| Hvol . . . . . . . . . . | 147 | 8.5 |
| Fljótshlíðar . . . . . . . | 178 | 6.0 |
| Vesturlandeyja . . . . . | 128 | 5.6 |
| Austurlandeyja . . . . . | 109 | 4.7 |
| Eyjafjalla . . . . . . . . | 411 | 10.2 |
| í Árness sýslu: | | |
| Villíngaholts hrepp . . . . | 313 | 19.7 |
| Hraungerðis . . . . . . . | 235 | 12.6 |
| Sandvíkur . . . . . . . . | 307 | 39.7 |

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Gaulverjabæjar hrepp . . . | 199 | 15.5 |
| Stokkseyrar . . . . . . . | 318 | 27.0 |
| þíngvalla . . . . . . . . | 21 | 1.0 |
| Biskupstúngna . . . . . | 548 | 10.0 |
| Hrunamanna . . . . . . . | 455 | 11.6 |
| Gnúpverja . . . . . . . . | 207 | 12.9 |
| Skeiða . . . . . . . . . | 24 | 1.3 |
| í Gullbríngu- og Kjósar sýslu: | | |
| Hafnar hrepp . . . . . . | 17 | 5.8 |
| í Borgarfjarðar sýslu: | | |
| Akraness hrepp . . . . . | 201 | 34.2 |
| Skilmanna . . . . . . . . | 28 | 5.0 |
| Skorradals . . . . . . . | 29 | 2.1 |
| í Mýra- og Hnappadals sýslu: | | |
| þverárhlíðar hrepp . . . . | 90 | 6.6 |
| Stafholtstúngna . . . . . | 45 | 1.6 |
| Borgar . . . . . . . . . | 232 | 7.2 |
| Álptaness . . . . . . . . | 58 | 2.3 |
| Kolbeinsstaða . . . . . . | 75 | 3.6 |
| Miklaholts . . . . . . . . | 82 | 6.0 |
| í Snæfellsness sýslu: | | |
| Skógarstrandar hrepp . . . | 176 | 10.4 |
| Helgafellssveit . . . . . . | 67 | 3.4 |
| Eyrar hrepp . . . . . . . | 207 | 25.5 |
| Ness hrepp innra . . . . | 13 | 2.6 |
| Ness hrepp ytra . . . . . | 5 | 1.0 |
| Staðarsveit . . . . . . . . | 68 | 5.8 |
| í Dala sýslu: | | |
| Haukadals hrepp . . . . . | 23 | 2.1 |
| Laxárdals . . . . . . . . | 416 | 20.9 |
| Hvamms . . . . . . . . . | 141 | 8.3 |
| Fellsstrandar . . . . . . . | 195 | 12.5 |
| Skarðstrandar . . . . . . | 39 | 1.5 |

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| í Barðastrandar sýslu: | | |
| Geiradals hrepp . . . . . | 66 | 9.5 |
| Reykhóla . . . . . . . . | 256 | 15.1 |
| Gufudals . . . . . . . . | 164 | 12.5 |
| Barðastrandar . . . . . . | 159 | 11.5 |
| Rauðasands . . . . . . . | 3 | 0.2 |
| Tálknafjarðar . . . . . . | 52 | 6.8 |
| Dala . . . . . . . . . . | 128 | 15.8 |
| Suðurfjarða . . . . . . . | 19 | 2.3 |
| í Ísafjarðar sýslu: | | |
| Auðkúlu hrepp . . . . . | 67 | 9.8 |
| þíngeyrar . . . . . . . . | 124 | 16.8 |
| Mosvalla . . . . . . . . | 25 | 1.9 |
| Suðureyrar . . . . . . . . | 26 | 4.8 |
| Hóls . . . . . . . . . . | 151 | 39.5 |
| Reykjarfjarðar . . . . . . | 89 | 4.9 |
| Nauteyrar . . . . . . . . | 304 | 17.4 |
| Snæfjalla . . . . . . . . | 39 | 6.4 |
| í Stranda sýslu: | | |
| Kirkjubóls hrepp . . . . . | 163 | 24.4 |
| í Húnavatns sýslu: | | |
| Torfalækjar hrepp . . . . | 214 | 6.1 |
| í Skagafjarðar sýslu: | | |
| Viðvíkur hrepp . . . . . | 163 | 7.6 |
| Sauðár . . . . . . . . . | 12 | 0.6 |
| í Eyjafjarðar sýslu: | | |
| Hrafnagils hrepp . . . . . | 31 | 1.0 |
| Grímseyjar . . . . . . . . | 11 | 6.7 |
| í þíngeyjar sýslu: | | |
| Húsavíkur hrepp . . . . . | 14 | 0.6 |
| Helgastaða . . . . . . . . | 46 | 0.8 |
| í Norður-Múla sýslu: | | |
| Fljótsdals hrepp . . . . . | 152 | 2.5 |

En aptur á hinn bóginn hefir fjártalan fækkað í þessum 102 hreppum og á þenna hátt:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| í Skaptafells sýslu: | | |
| Bæjar hrepp | 333 | 19.3 |
| Bjarnaness | 72 | 3.2 |
| Borgarhafnar | 450 | 42.9 |
| Kleifa | 1187 | 16.6 |
| Hofs | 54 | 3.0 |
| Leiðvalla | 707 | 13.7 |
| í Árness sýslu: | | |
| Selvogs hrepp | 657 | 91.9 |
| Ölfus | 1429 | 70.2 |
| Grímsness | 545 | 9.6 |
| í Gullbríngu- og Kjósar sýslu: | | |
| Grindavíkur hrepp | 93 | 44.1 |
| Rosmhvalaness | 455 | 87.3 |
| Vatnsleysustrandar | 754 | 100.0 |
| Álptaness | 429 | 89.7 |
| Seltjarnarness | 489 | 79.8 |
| Mosfellssveit | 494 | 47.9 |
| Kjalarness hrepp | 120 | 11.8 |
| Kjósar | 30 | 1.3 |
| í Borgarfjarðar sýslu: | | |
| Strandar hrepp | 134 | 7.9 |
| Leirár og Mela | 26 | 1.5 |
| Andakíls | 94 | 4.9 |
| Lundareykjadals | 38 | 2.7 |
| Hálsa | 25 | 2.2 |
| Reykholtsdals | 161 | 6.6 |
| í Mýra- og Hnappadals sýslu: | | |
| Hvítársíðu hrepp | 192 | 10.2 |
| Norðurárdals | 204 | 12.0 |
| Hraun | 114 | 4.6 |

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Eyja hrepp . . . . . . . | 70 | 8.4 |
| í Snæfellsness sýslu: | | |
| Breiðuvíkur hrepp . . . . | 84 | 10.8 |
| í Dala sýslu: | | |
| Saurbæjar hrepp . . . . . . | 206 | 10.3 |
| Hörðudals . . . . . . . . . | 92 | 7.3 |
| Miðdala . . . . . . . . . . | 47 | 2.1 |
| í Barðastrandar sýslu: | | |
| Múla hrepp . . . . . . . | 39 | 5.1 |
| Flateyjar . . . . . . . . | 309 | 30.1 |
| í Ísafjarðar sýslu: | | |
| Mýra hrepp . . . . . . . | 73 | 4.6 |
| Eyrar . . . . . . . . . . | 118 | 10.7 |
| Súðavíkur . . . . . . . . | 53 | 5.0 |
| Ögur . . . . . . . . . . . | 65 | 5.9 |
| Grunnavíkur . . . . . . . | 74 | 20.6 |
| Slèttu . . . . . . . . . . | 16 | 3.6 |
| í Stranda sýslu: | | |
| Bæjar hrepp . . . . . . . | 115 | 6.0 |
| Broddaness . . . . . . . | 56 | 5.3 |
| Hrófbergs . . . . . . . . | 99 | 9.6 |
| Kaldrananess . . . . . . . | 62 | 5.0 |
| Árness . . . . . . . . . . | 273 | 22.8 |
| í Húnavatns sýslu: | | |
| Vindhælis hrepp . . . . . . | 694 | 14.5 |
| Engihlíðar . . . . . . . . | 93 | 3.3 |
| Bólstaðarhlíðar . . . . . . | 243 | 4.4 |
| Svínavatns . . . . . . . . | 256 | 4.5 |
| Sveinstaða . . . . . . . . | 147 | 3.5 |
| Áss . . . . . . . . . . . | 51 | 1.4 |
| Þorkelshóls . . . . . . . | 264 | 5.8 |
| Þverár . . . . . . . . . . | 22 | 0.6 |
| Kirkjuhvamms . . . . . . . | 44 | 1.5 |

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Torfastaða hrepp . . . . . | 631 | 10.3 |
| Staðar . . . . . . . . . | 230 | 13.7 |
| í Skagafjarðar sýslu: | | |
| Holts hrepp . . . . . . . | 215 | 7.8 |
| Fells . . . . . . . . . . | 205 | 21.9 |
| Hofs . . . . . . . . . . | 148 | 6.1 |
| Hóla . . . . . . . . . . | 257 | 8.5 |
| Akra . . . . . . . . . . | 408 | 8.0 |
| Lýtíngstaða . . . . . . . | 1176 | 19.0 |
| Seilu . . . . . . . . . . | 86 | 2.6 |
| Staðar . . . . . . . . . | 78 | 3.1 |
| Skefilstaða . . . . . . . . | 419 | 21.1 |
| Rípur . . . . . . . . . | 24 | 1.4 |
| í Eyjafjarðar sýslu: | | |
| Aungulstaða hrepp . . . . | 94 | 2.8 |
| Saurbæjar . . . . . . . . | 458 | 7.9 |
| Glæsibæjar . . . . . . . . | 394 | 10.7 |
| Skriðu . . . . . . . . . | 308 | 6.6 |
| Arnarness . . . . . . . . | 149 | 4.4 |
| Vallna . . . . . . . . . | 108 | 2.8 |
| þóroddstaða . . . . . . . | 249 | 30.5 |
| Hvanneyrar . . . . . . . . | 100 | 10.2 |
| í þíngeyjar sýslu: | | |
| Sauðaness hrepp . . . . . | 455 | 13.5 |
| Svalbarðs . . . . . . . . | 776 | 27.1 |
| Presthóla . . . . . . . . | 303 | 20.4 |
| Skinnastaða . . . . . . . | 466 | 15.6 |
| Kelduness . . . . . . . . | 85 | 4.3 |
| Skútustaða . . . . . . . . | 93 | 3.0 |
| Ljósavatns . . . . . . . . | 18 | 0.3 |
| Háls . . . . . . . . . . | 475 | 9.9 |
| Grýtubakka . . . . . . . | 39 | 1.4 |
| Svalbarðsstrandar . . . . | 5 | 0.4 |

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| í Norðurmúla sýslu: | | |
| Fellna hrepp . . . . . . | 246 | 6.5 |
| Túngu . . . . . . . . . | 323 | 23.3 |
| Jökulsdals og Hlíðar . . . | 555 | 7.6 |
| Vopnafjarðar . . . . . . | 327 | 4.5 |
| Skeggjastaða . . . . . . | 526 | 30.1 |
| Hjaltastaðar . . . . . . | 490 | 12.0 |
| Borgarfjarðar . . . . . . | 1016 | 38.9 |
| Loðmundarfjarðar . . . . | 180 | 18.4 |
| Seyðisfjarðar . . . . . . | 365 | 23.9 |
| í Suður-Múla sýslu: | | |
| Geithellna hrepp . . . . . | 1241 | 51.7 |
| Beruness . . . . . . . . | 443 | 23.8 |
| Breiðdals . . . . . . . . | 1565 | 29.2 |
| Fáskrúðsfjarðar . . . . . | 1227 | 44.2 |
| Reyðarfjarðar . . . . . . | 1783 | 43.0 |
| Norðfjarðar . . . . . . . | 1020 | 46.7 |
| Mjóafjarðar . . . . . . . | 509 | 43.5 |
| Eyða . . . . . . . . . . | 519 | 18.8 |
| Vallna . . . . . . . . . | 106 | 2.1 |
| Skriðdals . . . . . . . . | 170 | 7.1. |

Samkvæmt því, sem nú hefir verið sýnt, hefir sauðpeníngur á þessu ári að tiltölu fjölgað mest í Sandvíkur hrepp í Árness sýslu og í Hóls hrepp í Ísafjarðar sýslu (39.7 og 39.5 af hundraði eða nær því um tvo fimtu hluti) og þá í Akraness hrepp í Borgarfjarðar sýslu (34.2 af hundraði, eða um rúman þriðja hluta), en minnst hefir fjölgunin að tiltölu verið í Rauðasands hrepp í Barðastrandar sýslu (ekki nema 0.2 af hundraði eður hèrumbil 2 af 1000) og þá í Húsavíkur hrepp í þíngeyjar sýslu (ekki nema 0.6 af hundraði eður hèrumbil 6 af 1000). Aptur á hinn bóginn hefir tala sauðfjárins á þessu sama ári að tiltölu, — þegar Vatnsleysustrandar hreppur í Gullbríngu- og Kjósar sýslu er fráskilinn, hvar

sauðfè hefir fækkað um 100.0 af hundr., eða með öðrum orðum, að þar er engin sauðkind eptir, — fækkað mest í Selvogs hrepp í Árness sýslu (91.9 af hundraði eða rúmlega um níu tíundu hluta) og þá í Álptaness hrepp í Gullbríngu- og Kjósar sýslu (87.3 af hundraði); en minnst hefir fækkað í Ljósavatns hrepp í þíngeyjar sýslu (ekki nema 0.3 af hundraði eða hèrumbil 3 af 1000) og þá í Svalbarðsstrandar hrepp í þíngeyjar sýslu (0.4 af hundraði).

Næst undanfarið ár, eða árið til fardaga 1866, voru það einúngis gemlíngar sem höfðu fækkað, þar sem ær, bæði með lömbum og geldar, eins og einnig sauðir höfðu fjölgað (smbr. IV., bls. 285), en á þessu ári, sem hèr ræðir um, er þetta töluvert á annan veg. Beri maður nefnilega árin 1866 og 1867 saman, þá hafa fjölgað: geldar ær um 4947 tals eða að tiltölu 16.5 af hundraði, og sauðir og hrútar eldri en veturgamlir um 1768 eða 2.6 af hundraði; en á hinn bóginn hafa fækkað: ær með lömbum um 17499 tals eða að tiltölu 9.9 af hundraði, og gemlíngar um 13920 eða 11.8 af hundraði.

þessu næst skal sýna hlutfall það, sem í hverju hèraði á landinu var í fardögum 1867 milli þeirra fjögra flokka, sem sauðfènaði í skýrslunum er skipt í, og kemur það þá fram, að af hverju 100 sauðpeníngs var á þessu ári þannig skipt:

| | ær með lömbum. | ær geldar. | sauðir og hrútar. | gemlíngar. |
|---|---|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . | 35.2 | 12.0 | 22.1 | 30.7 |
| Vestmannaeyja s. . . . | 40.3 | 13.8 | 16.9 | 29.0 |
| Rángárvalla s. . . . . | 44.7 | 4.7 | 12.9 | 37.7 |
| Árness s. . . . . . . . | 46.0 | 3.1 | 13.7 | 37.2 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . | 53.9 | 3.1 | 5.0 | 38.0 |
| Reykjavíkur bæ . . . . | 68.1 | » | » | 31.9 |
| Borgarfjarðar s. . . . . | 50.5 | 6.5 | 9.9 | 33.1 |
| Mýra- og Hnappadals s. . | 47.6 | 8.3 | 15.0 | 29.1 |
| Snæfellsness s. . . . . | 55.3 | 7.3 | 8.3 | 29.1 |
| Dala s. . . . . . . . . | 53.4 | 5.3 | 13.1 | 28.2 |

| | ær með lömbum. | ær geldar. | sauðir og hrútar. | gemlíngar. |
|---|---|---|---|---|
| Barðastrandar s. . . . . . | 50.4 | 5.7 | 10.9 | 33.0 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 53.5 | 3.7 | 9.9 | 32.9 |
| Stranda s. . . . . . . . | 63.4 | 7.5 | 6.6 | 22.5 |
| Húnavatns s. . . . . . . | 43.7 | 8.6 | 26.5 | 21.2 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 42.9 | 7.1 | 27.6 | 22.4 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . | 55.4 | 6.2 | 16.4 | 22.0 |
| þíngeyjar s. . . . . . . | 40.8 | 12.7 | 20.5 | 26.0 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 25.8 | 20.6 | 25.9 | 27.7 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 21.8 | 22.0 | 30.1 | 26.1 |
| Suður-umdæminu . . . . | 44.2 | 6.2 | 14.4 | 35.2 |
| Vestur-umdæminu . . . . | 52.4 | 6.3 | 11.6 | 29.7 |
| Norður- og Austur-umd. . | 39.2 | 12.3 | 24.4 | 24.1 |
| á öllu Íslandi . . . . . . | 43.2 | 9.5 | 19.2 | 28.1. |

Yfirlit þetta sýnir, að Vestmannaeyja sýslu og Reykjavíkur bæ frá skildum, að af jafnmörgu sauðfè eru ær með lömbum, á þessu ári eins og næst undanfarið ár, lángflestar í Stranda sýslu (nær því tveir þriðju hlutar alls fjárins þar) og fæstar í Suður-Múla sýslu (rúmur fimti hluti fjárins); geldar ær aptur á móti eru flestar í Suður-Múla sýslu (einnig rúmur fimti hluti fjárins þar), en fæstar í Árness og Gullbríngu- og Kjósar sýslum (ekki nema 3.1 af hverju 100 sauðfènaðar); þá eru sauðir og hrútar, eldri en veturgamlir, flestir í Suður-Múla sýslu (nær því þriði hluti alls fjárins þar), en fæstir í Gullbríngu- og Kjósar sýslu (rèttur tuttugasti hluti fjárins þar); og loks eru gemlíngar flestir í Gullbríngu- og Kjósar sýslu (hèrumbil tveir fimtu hlutar fjárins), en fæstir í Húnavatns sýslu (rúmur fimti hluti).

Eptir því sem optar að undanförnu hefir verið sýnt í ritum þessum (smbr. einkum II., bls. 855—860, III., bls., 405, 656, IV., bls. 195 og 287), og eptir því sem hèr að framan er frá skýrt, þá gefur það að skilja, að æði mikið muni vanta á að tala sauðfjárins

á Íslandi ennþá hafi náð sèr, til þess sem hún var talin að hafa verið í fardögum 1853, þegar byrjað var að haga skýrslum þessum á þann hátt sem nú er. Beri maður nefnilega skýrslurnar fyrir þessi tvö ár saman, þá kemur það fram, að í fardögum 1853 taldist svo til, að á öllu Íslandi væri alls 516853 fjár, en í fardögum 1867 er fjártalan í landinu ekki nema 368591; sauðfènaður hefir því á þeim 14 árum, sem síðan eru liðin, fækkað á öllu landinu um 148262 tals, eða að tiltölu um 28.7 af hundraði (nálægt þrír tíundu hlutar). Að tiltölu kveður mest að þessari fækkun í Suður-umdæminu, hvar fækkað hefir um 48261 tals eða 33.5 af hundraði (rèttur þriðjúngur), þá í Vestur-umdæminu, hvar fækkunin hefir verið 30876 tals eða 29.2 af hundraði (hèrumbil þrír tíundu hlutar), og minnst að tiltölu í Norður- og Austur-umdæminu, hvar þó tals hefir fækkað mest eða 69125, en að tiltölu ekki nema 25.9 af hundraði (rúmur fjórði hluti). Eðli hlutarins gefur að öðru leyti að skilja, að töluverður munur hljóti að vera á þessu í hinum sèrstöku hèruðum landsins, og það kemur einnig fram, að á þessum umgetnu 14 árum hefir fjártalan þó hækkað í Vestmannaeyja sýslu einni, nefnilega um 100 tals eða 13.1 af hundraði, en þar á móti hefir hún fækkað í öllum hinum sýslum landsins á þann hátt, sem nú skal sýnt, nefnilega í:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . | 8360 | 28.7 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 11806 | 30.5 |
| Árness s. . . . . . . . | 16484 | 35.4 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . | 7591 | 63.4 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . | 10 | 9.6 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 4110 | 24.5 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 7224 | 26.3 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 5051 | 39.1 |
| Dala s. . . . . . . . . | 3970 | 21.0 |
| Barðastrandar s. . . . . | 5371 | 31.8 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 5830 | 29.5 |
| Stranda s. . . . . . . . | 3430 | 34.0 |

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Húnavatns sýslu . . . . | 10383 | 18.2 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 7339 | 19.0 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . | 8365 | 23.1 |
| þíngeyjar s. . . . . . . | 14229 | 28.6 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 14475 | 29.3 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 14334 | 40.0. |

Samkvæmt yfirliti þessu hefir fjárfækkunin, þegar Reykjavíkur bær er frá skilinn, á þessu 14 ára tímabili að vísu að tölunni til verið mest í Árness sýslu og minnst í Stranda sýslu, en að tiltölu hefir hún verið mest í Gullbríngu- og Kjósar sýslu (63.4 af hundraði, eða nær því tveir þriðju hlutar) og þá í Suður-Múla sýslu (40.0 af hundraði eða rèttir tveir fimtu hlutar). þar á móti hefir fækkunin á þessu sama tímabili verið minnst í Húnavatns sýslu (18.2 af hundr., eða rúmlega sjötti hluti), og þá í Skagafjarðar sýslu (19.0 af hundr. eða tæpur fimti hluti).

þó að nú fjártalan hafi mínkað svo töluvert á þessu tímabili, eins og nú hefir verið sýnt, þá hafa þó geldar ær fjölgað lítið eitt um þessi ár, nefnilega um 485 tals eða að tiltölu 1.4 af hundraði; þar á móti hafa ær með lömbum fækkað að tiltölu um 28.9 af hundraði, sauðir og hrútar eldri en veturgamlir um 33.0 af hundraði (eða hèrumbil um þriðjúng), og gemlíngar um 32.1 af hundraði.

---

## III. GEITFÈ.

Geitfè á Íslandi hefir einnig á fardagaári því, sem hèr ræðir um, eins og undanfarin ár, farið mínkandi. Í fardögum 1866 er nefnilega talið að verið hafi á öllu Íslandi 287 geitfjár, en um sama leyti 1867 er ekki talið nema 226, og hefir það því á þessu eina ári fækkað um 61 tals, eða að tiltölu um 21.3 af hundraði, og er það rúmlega tvöfalt meira en næst undanfarið ár (smbr. IV., bls. 289). Sè fækkun geitfjárins í landinu miðuð við árið 1853, þá

gefur það samt að skilja, að hún verður miklu meiri, því í fardögum 1853 taldist nefnilega 914 geitfjár á öllu landinu, og hefir það því á þessum 14 árum, sem síðan eru liðin, fækkað um 688 tals, eða að tiltölu um 75.3 af hundraði. Þó er mikill munur á þessu í hèruðum landsins þeim, sem geitfè er talið í á þessum árum, því geitfè er nefnilega talið á þenna hátt:

| | árið 1853. | árið 1867. |
|---|---|---|
| Gullbríngu- og Kjósar sýslu . | 8 | » |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 4 | » |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | » | 1 |
| Dala s. . . . . . . . . . | 44 | 24 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 21 | » |
| Húnavatns s. . . . . . . . | 16 | » |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 32 | » |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . | 51 | » |
| Þíngeyjar s. . . . . . . | 732 | 197 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 6 | 4. |

Þetta sýnir meðal annars, að bæði er geitfè talið í miklu færri sýslum árið 1867 en árið 1853, og sömuleiðis að tala þess hefir farið mínkandi í sèrhverri sýslu, en þó mest í Þíngeyjar sýslu, þar sem það á þessu 14 ára tímabili þar hefir fækkað um 535 tals, eða að tiltölu um 73.1 af hverju hundraði. Að öðru leyti er geitfè varla teljandi nema í Þíngeyjar sýslu, því af öllu geitfè á Íslandi í fardögum 1867 voru að tiltölu 87.2 af hverju hundraði í henni einni.

---

## IV. HROSS.

Eins og næst undanfarin fjögur ár, þá hefir tala hrossa á Íslandi einnig á ári því, sem hèr ræðir um, farið mínkandi (smbr. III., bls. 658, 778, IV., bls. 198 og 290). Í fardögum 1866 var tala hrossa á öllu landinu nefnilega 35241, en um sama leyti 1867 voru þau einúngis talin 33768, og hafa því hross á þessu eina ári

fækkað um 1473 tals, eða að tiltölu um 4.2 af hundraði, og er þetta töluvert meira en næst undanfarið ár (þá var fækkun þeirra að tiltölu einúngis 0.9 af hundraði). Mjög mikill munur er samt á þessu í umdæmum landsins, þar sem fækkunin varla er teljandi í Suður-umdæminu og svo í Vestur-umdæminu, en hefir þar á móti verið töluverð í Norður- og Austur-umdæminu, og er þetta gagnstætt því sem átti sèr stað næst undanfarið fardagaár. Í Suður-umdæminu hafa þannig hross á þessu ári fækkað aðeins um 35 tals eða 0.2 að tiltölu af hundraði, og í Vestur-umdæminu einnig um 35 tals eða 0.6 af hundraði; en í Norður- og Austur-umdæminu hafa þau þar á móti fækkað um 1403 tals eða að tiltölu 9.9 af hundraði (hèrumbil um tíunda hluta).

Það gefur samt að skilja, að meiri verði munurinn á þessu þegar menn skoða hvert hèrað í landinu sèr, því þá kemur það fram, að tala hrossa hefir á þessu ári þó fjölgað í þessum fjórum sýslum á þann hátt sem nú skal sagt, nefnilega í:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Árness sýslu . . . . . . | 210 | 5.1 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 31 | 4.3 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 34 | 5.3 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 13 | 1.6; |

en aptur á hinn bóginn hefir tala hrossa fækkað í hinum 14 sýslunum landsins, og svo í Reykjavíkur bæ, á þenna hátt, nefnilega í:

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . | 57 | 2.2 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 4 | 8.7 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 61 | 1.3 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 33 | 2.1 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . | 33 | 14.2 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 57 | 2.9 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 16 | 0.8 |
| Dala s. . . . . . . . . . | 24 | 2.0 |
| Stranda s. . . . . . . . | 73 | 9.7 |
| Húnavatns s. . . . . . . . | 375 | 8.7 |

| | tals | af hundr. |
|---|---|---|
| Skagafjarðar sýslu . . . . | 308 | 9.5 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . . | 110 | 5.5 |
| þíngeyjar s. . . . . . . . | 224 | 11.9 |
| Norður-Múla s. . . . . . . | 171 | 11.1 |
| Suður-Múla s. . . . . . . | 215 | 19.0 |

Yfirlit þessi sýna, að fjölgun hrossa hefir á þessu ári, þegar Vestmannaeyja sýsla og Reykjavíkur bær eru frá talin, verið mest að tiltölu í Barðastrandar sýslu, en minnst í Ísafjarðar sýslu. þar á móti hafa hross á þessu sama ári að tiltölu fækkað lángmest í Suður-Múla sýslu (19.0 af hundraði, eða tæpur fimmti hluti), og þá í þíngeyjar sýslu (11.9 af hundraði eða rúmur tíundi hluti); en minnst hefir að tiltölu fækkað í Mýra- og Hnappadals sýslu (0.8 af hundraði eða 8 af 1000) og þá í Rángárvalla sýslu (1.3 af hundraði eða 13 af 1000).

Á þessu ári eru það einkum tamin hross, sem að tölunni til hafa fækkað töluvert, en að tiltölu er mjög jafnt um fækkun bæði á tömdum og ótömdum hrossum. því þar sem hestar og hryssur, fjögra vetra og eldri, á þessu ári hafa fækkað um 1148 tals, eða að tiltölu um 4.2 af hundraði, þá hafa á sama ári trippi, veturgömul til þriggja vetra, fækkað um 325 tals eða 4.0 af hundraði.

Hlutfall það, sem í fardögum 1867 var milli beggja þeirra flokka, sem hrossum er skipt í, var á þá leið, að af hverju 100 hrossa á þessu ári voru:

| | hestar og hryssur. | trippi. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . | 78.7 | 21.3 |
| Vestmannaeyja s. . . . . . | 92.9 | 7.1 |
| Rángárvalla s. . . . . . . | 66.2 | 33.8 |
| Árness s. . . . . . . . . | 74.5 | 25.5 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 74.4 | 25.6 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . . | 87.0 | 13.0 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . . | 64.7 | 35.3 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 74.5 | 25.5 |

| | hestar og hryssur. | trippi. |
|---|---|---|
| Snæfellsness sýslu . . . . | 83.1 | 16.9 |
| Dala s. . . . . . . . . | 82.7 | 17.3 |
| Barðastrandar s. . . . . | 85.1 | 14.9 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 90.0 | 10.0 |
| Stranda s. . . . . . . . | 90.1 | 9.9 |
| Húnavatns s. . . . . . . | 76.4 | 23.6 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 71.2 | 28.8 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . | 83.0 | 17.0 |
| þíngeyjar s. . . . . . . | 91.8 | 8.2 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 92.7 | 7.8 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 89.1 | 10.9 |
| Suður-umdæminu . . . . | 71.7 | 28.3 |
| Vestur-umdæminu . . . . | 82.1 | 17.9 |
| Norður- og Austur-umd.. . | 80.8 | 19.2 |
| á öllu Íslandi . . . . . | 77.0 | 23.0. |

þetta sýnir, þegar Vestmannaeyja sýsla og Reykjavíkur bær eru frá skilin, að af jafnmörgum hrossum hafa á þessu ári hestar og hryssur, fjögra vetra og eldri, verið flest í Norður-Múla sýslu og fæst í Borgarfjarðar sýslu, en trippi veturgömul til þriggja vetra hafa aptur á móti verið flest í Borgarfjarðar sýslu og fæst í Norður-Múla sýslu.

Beri maður þessu næst tölu hrossa í fardögum 1867 saman við tölu þeirra í fardögum 1853, þá sýnir það sig, að tala þeirra hefir fækkað töluvert á þeim 14 árum, sem síðan eru liðin. Í fardögum 1853 var nefnilega tala hrossa á öllu Íslandi 40485, en um sama leyti 1867 eru þau ekki talin nema 33768 á öllu landinu, og hafa þau því á þessu tímabili fækkað um 6717 tals, eða að tiltölu um 16.6 af hundraði (þ. e. rèttur sjötti hluti). Að tiltölu hefir fækkunin verið mest í Vestur-umdæminu, nefnilega um 19.8 af hundraði (rèttur fimmti hluti), þá í Norður- og Austur-umdæminu,

eða um 17.3 af hundraði (rúmur sjötti hluti), og minnst í Suðurumdæminu, nefnilega um 14.6 af hundraði (rúmur sjöundi hluti).

Meiri er samt munurinn á þessu í sýslum landsins, því á þessu 14 ára tímabili hefir hrossum þó fjölgað lítið eitt, eða um 6 tals eða 3.1 af hundraði að tiltölu, í Reykjavíkur bæ, en í öllum sýslum landsins hafa þau á sama tímabili fækkað meir eða minna, nefnilega í:

| | tals. | af hundr. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . | 553 | 18.1 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 7 | 14.3 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 793 | 15.0 |
| Árness s. . . . . . . . . | 499 | 10.4 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . . | 370 | 19.8 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 329 | 14.9 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 461 | 18.5 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 477 | 38.8 |
| Dala s. . . . . . . . . | 286 | 19.3 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 92 | 12.1 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 83 | 9.2 |
| Stranda s. . . . . . . . | 119 | 14.9 |
| Húnavatns s. . . . . . . . | 680 | 14.7 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 346 | 10.6 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . | 533 | 21.9 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . | 513 | 23.7 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 251 | 15.5 |
| Suður-Múla s.. . . . . . | 331 | 26.6. |

Eptir þessu hafa þá hross á þessu 14 ára tímabili, þegar Vestmannaeyja sýsla er frá talin, að tiltölu fækkað lángmest í Snæfellsness sýslu (um 38.8 af hundraði, eða nálægt um tvo fimmtu hluti), og þá í Suður-Múla sýslu (um 26.6 af hundraði, eða rúman fjórða hluta); en minnst hefir fækkunin verið að tiltölu í Ísafjarðar sýslu (um 9.2 af hundraði, eða tæpan tíunda hluta), og þá í Árness sýslu (um 10.4 af hundraði, eða rúman tíunda hluta).

Það eru einkum úng hross, sem á þessu tímabili hafa fækkað töluvert í landinu, því hestar og hryssur, fjögra vetra og eldri,

hafa að tiltölu einúngis fækkað um 11.0 af hundraði, eða um rúman tíunda hluta, en aptur á móti hafa trippi, veturgömul til þrèvetra, fækkað um 31.0 af hundraði, eða nærfelt um þriðja hluta.

---

Eins og áður hefir verið gjört er þá eptir að sýna, hvernig hin ýmsu hèruð í landinu sín á milli standa fardagaárið 1866—67, og brúkum vèr eins og að undanförnu til þessa þrennskonar aðferð, nefnilega með því, að bera gripatölu saman við fólkstölu, flatarmál hèraða, og dýrleika á jörðum. Þess má fyrirfram geta, að í samanburði þessum er brúkuð fólkstala sú, sem eptir skýrslum presta um fædda og andaða telst að hafa verið á Íslandi við árslokin 1866 (smbr. IV., bls. 454), en flatarmálið er tekið einúngis á byggðu landi (smbr. I., bls. 106), og loks er jarða dýrleikinn tekinn eptir hinni nýju jarðabók frá 1861.

Þegar maður þá fyrst tekur fólkstöluna til samanburðar, þá sýnir það sig, að í fardögum 1867 hafi í hverri sýslu, í hverju umdæmi og á öllu landinu komið á hverja 10 manns af fólkstölunni:

| | nautgripir. | sauðfè. | hross. |
|---|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . | 3.6 | 56.3 | 6.8 |
| Vestmannaeyja s. . . . . . . | 0.8 | 17.6 | 0.9 |
| Rángárvalla s. . . . . . . . | 3.8 | 49.9 | 8.3 |
| Árness s.. . . . . . . . . | 4.6 | 52.5 | 7.5 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . | 2.1 | 8.8 | 3.0 |
| Reykjavíkur bæ. . . . . . | 0.4 | 0.6 | 1.4 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 3.6 | 53.3 | 7.9 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 3.4 | 73.1 | 7.3 |
| Snæfellsness s. . . . . . . | 2.3 | 28.8 | 2.8 |
| Dala s. . . . . . . . . . | 2.9 | 66.1 | 5.3 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 2.8 | 42.4 | 2.5 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . . | 2.0 | 29.3 | 1.7 |
| Stranda s. . . . . . . . . | 1.8 | 40.9 | 4.2 |
| Húnavatns s. . . . . . . . | 2.6 | 95.0 | 8.0 |
| Skagafjarðar s. . . . . . . | 3.1 | 70.8 | 6.6 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . | 3.1 | 58.6 | 4.0 |

| | nautgripir. | sauðfè. | hross. |
|---|---|---|---|
| Þíngeyjar sýslu . . . . . . | 1.7 | 62.2 | 2.9 |
| Norður-Múla s. . . . . . . . | 2.0 | 85.9 | 3.4 |
| Suður-Múla s. . . . . . . . | 2.5 | 61.6 | 2.6 |
| Suður-umdæminu . . . . . | 3.3 | 39.7 | 6.2 |
| Vestur-umdæminu . . . . . | 2.5 | 44.6 | 3.6 |
| Norður- og Austur-umd. . . | 2.6 | 72.3 | 4.6 |
| á öllu Íslandi . . . . . . | 2.8 | 54.0 | 4.9. |

Taki maður í annan stað flatarmálið, þá koma á þessu ári á hverja □ mílu af bygðu landi:

| | nautgripir. | sauðfè. | hross. |
|---|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . | 29 | 462 | 55 |
| Vestmannaeyja s. . . . . . | 127 | 2873 | 140 |
| Rángárvalla s. . . . . . . | 45 | 584 | 97 |
| Árness s. . . . . . . . . | 44 | 501 | 72 |
| Gullbríngu- og Kjósar s.[1] . . | 49 | 195 | 74 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . . | 47 | 705 | 104 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . . | 34 | 722 | 72 |
| Snæfellsness s. . . . . . . | 31 | 393 | 38 |
| Dala s. . . . . . . . . . | 26 | 597 | 48 |
| Barðastrandar s. . . . . . | 31 | 479 | 28 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . . | 27 | 397 | 23 |
| Stranda s. . . . . . . . . | 18 | 416 | 42 |
| Húnavatns s. . . . . . . . | 26 | 953 | 80 |
| Skagafjarðar s. . . . . . . | 37 | 825 | 77 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . . | 31 | 579 | 40 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . . . | 7 | 267 | 12 |
| Norður-Múla s. . . . . . . . | 8 | 346 | 14 |
| Suður-Múla s. . . . . . . . | 16 | 391 | 17 |

[1]) Hèr er Reykjavíkur bær talinn með Gullbríngu- og Kjósar sýslu; og sama er einnig gjört í næsta yfirliti hèr á eptir.

| | nautgripir. | sauðfè. | hross. |
|---|---|---|---|
| Suður-umdæminu . . . . . | 42 | 498 | 78 |
| Vestur-umdæminu . . . . . | 28 | 501 | 41 |
| Norður- og Austur-umd.. . . | 16 | 467 | 30 |
| á öllu Íslandi . . . . . . | 25 | 482 | 44. |

Sè loks jarðadýrleikinn tekinn til samanburðar, þá koma á þessu ári á hver 100 jarðarhundruð:

| | nautgripir. | sauðfè. | hross. |
|---|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . . | 43 | 678 | 81 |
| Vestmannaeyja s. . . . . . . . | 10 | 222 | 11 |
| Rángárvalla s. . . . . . . . . | 28 | 360 | 60 |
| Árness s. . . . . . . . . . . | 31 | 349 | 50 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . . | 22 | 86 | 33 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . . . | 23 | 337 | 50 |
| Mýra- og Hnappadals s.. . . . | 22 | 473 | 47 |
| Snæfellsness s.. . . . . . . , | 19 | 241 | 23 |
| Dala s. . . . . . . . . . . | 17 | 482 | 32 |
| Barðastrandar s. . . . . . . . | 19 | 297 | 17 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . . . . | 25 | 367 | 22 |
| Stranda s. . . . . . . . . . | 19 | 429 | 44 |
| Húnavatns s. . . . . . . . . | 18 | 648 | 55 |
| Skagafjarðar s.. . . . . . . . | 18 | 362 | 34 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . . . | 19 | 351 | 24 |
| Þíngeyjar s.. . . . . . . . . | 14 | 506 | 24 |
| Norður-Múla s.. . . . . . . . | 19 | 840 | 33 |
| Suður-Múla s. . . . . . . . . | 22 | 556 | 24 |
| Suður-umdæminu . . . . . . . | 28 | 336 | 52 |
| Vestur-umdæminu. . . . . . . | 20 | 367 | 30 |
| Norður- og Austur-umd. . . . | 18 | 523 | 34 |
| á öllu Íslandi . . . . . . . . | 22 | 425 | 39. |

Skoði maður þessi þrjú yfirlit nokkuð nákvæmar, og sleppi maður þarhjá Vestmannaeyja sýslu í þeim öllum og Reykjavíkur

bæ í hinu fyrsta þeirra, þá kemur það fram, að þegar fólkstalan er tekin til samanburðar, þá hefir nautpeníngur á fardagaárinu 1866—67 verið flestur í Árness sýslu og þá í Rángárvalla sýslu (öldúngis eins og um fardagaleytið 1866, smbr. IV., bls. 297); en fæstur í þíngeyjar sýslu og þá í Stranda sýslu (eins og næst undanfarið ár); sauðfènaður hefir verið flestur í Húnavatns sýslu og þá í Norður-Múla sýslu (öldúngis eins og í fardögum 1866), en fæstur í Gullbríngu- og Kjósar sýslu og þá í Snæfellsness sýslu (árið 1866 var það í Ísafjarðar sýslu í stað Snæfellsness sýslu); en hross hafa verið flest í Rángárvalla sýslu og þá í Húnavatns sýslu (eins og næst undanfarið ár), en fæst í Ísafjarðar sýslu og þá í Barðastrandar sýslu (eins og árið 1866). Aptur á hinn bóginn, þegar flatarmálið á bygðu landi er tekið til samanburðar, þá hefir nautpeníngur verið flestur í Gullbríngu- og Kjósar sýslu og þá í Borgarfjarðar sýslu (hið gagnstæða átti sèr stað í fardögum 1866), en fæstur í þíngeyjar sýslu og þá í Norður-Múla sýslu (eins og næst undanfarið ár); sauðfènaður hefir eins og næst undanfarið ár verið flestur í Húnavatns sýslu og þá í Skagafjarðar sýslu, en fæstur hefir hann verið í Gullbríngu- og Kjósar sýslu og þá í þíngeyjar sýslu (gagnstætt því sem átti sèr stað í fardögum 1866); og loks hafa hross verið flest í Rángárvalla sýslu og þá í Húnavatns sýslu (undanfarið ár var það í Borgarfjarðar sýslu og þá í Rángárvalla sýslu), en fæst hafa þau verið, eins og í fardögum 1866, í þíngeyjar sýslu og þá í Norður-Múla sýslu. Sè loks jarðadýrleikinn tekinn til samanburðar, þá hefir nautpeníngur á þessu ári, eins og næst undanfarið ár, verið flestur í Skaptafells sýslu og þá í Árness sýslu, en fæstur í þíngeyjar sýslu og þá í Dala sýslu (eins og næst undanfarið ár); sauðfè hefir verið flest í Norður-Múla sýslu (eins og árið 1866) og þá í Skaptafells sýslu (næst undanfarið ár í Suður-Múla sýslu), en fæst í Gullbríngu- og Kjósar sýslu og þá í Snæfellsness sýslu (eins og árið 1866); og loks hafa hross, öldúngis eins og næst undanfarið ár, verið flest í Skaptafells sýslu og þá í Rángárvalla sýslu, en fæst í Barðastrandar sýslu og þá í Ísafjarðar sýslu.

---

| | frá Danmörku. | frá útlöndum. |
|---|---|---|
| Tin, pund | 30 | » |
| Tjöruskúfar, tals | 48 | 24 |
| Tóbakspípur, tals | 204 | 216 |
| Treflar, tals | 1426 | 72 |
| Tunnugjarðir, knippi | 175 | 50 |
| Tunnur, tals | » | 130 |
| Tvinnastokkar, tals | 640 | 432 |
| Vasaglös, tals | 175 | 100 |
| Vefnaður (*Manufacturvarer*), virði í rd. | 550 | » |
| Öskusalt (*Soda*), pund | 591 | ». |

Sömuleiðis er, auk þeirra vörutegunda, sem taldar eru í skýrslunni B., enn fremur talið, að árið 1867 hafi þessar vörur verið fluttar frá Íslandi, nefnilega:

| | til Danmerkur. | til útlanda. |
|---|---|---|
| Folaldaskinn, tals | 27 | » |
| Hrossatólg, pund | 5153 | » |
| Hvalshamsar, tunnur | 130 | » |
| Hvalskíði, pund | 1247 | 39158 |
| Hvalsrengi, pund | 200 | » |
| Kálfskinn, tals | 85 | » |
| Kattarbelgir, tals | 4 | » |
| Klippíngar, tals | 23 | » |
| Léreptsrýjur, pund | 765 | » |
| Rengishamsar, tunnur | 20 | » |
| Selshamsar, tunnur | 14 | » |
| Selskinn, tals | 5310 | » |
| Smjör, pund | 800 | » |
| Sundmagar, pund | » | 29686 |
| Þorskur saltaður, tunnur | 6 | 34 |
| Æðardún óhreinsaður, pund | 176 | ». |

þessu næst er að skoða skýrslurnar nokkuð ýtarlegar, og taki maður þá fyrst skýrsluna A. um aðfluttar vörur á þessu ári til yfirvegunar, þá sýnir það sig fyrst, að af kornvörum þeim (rúgur, bygg, hafrar, bánkabygg, baunir, bygg- og bóghveitigrjón og rúgmjöl) sem fluttust til Íslands árið 1867, og sem samtals voru 45,900 tunnur (þetta er töluvert minna en næst undanfarið ár 1866, þar sem það þá voru 59,570 tunnur, smbr. IV., bls. 370, og jafnvel minna en árið 1862, þegar það þó ekki voru nema 49,081 tunna), fluttust 16,331 tunna til Suður-umdæmisins, 11,530 tunnur til Vestur-umdæmisins og 18,039 tunnur til Norður- og Austur-umdæmisins; hlutfallið milli umdæmanna er því á þessu ári einnig nokkuð líkt og áður hefir verið, nefnilega að meira er flutt af kornvöru til Norður- og Austur-umdæmisins en til hvors hinna, þó ekki kveði eins mikið að þessu nú eins og að undanförnu (smbr. I., bls. 75 og 574, III., bls. 586 og IV., bls. 91 og 370). Eins og áður hefir átt sèr stað, var aðflutníngurinn á þessu ári mestur af rúgi, nefnilega 24,463 tunnur, eða rúmlega eins mikið og af öllum hinum korntegundunum samtöldum.

Af brauði (hveitibrauð allskonar og svartabrauð) fluttust á þessu ári til alls landsins samtals 239,635 pund, nefnilega til Suður-umdæmisins 93,611 pund, til Vestur-umdæmisins 64,395 pund, og til Norður- og Austur-umdæmisins 81,629 pund. Eptir þessu hefir þá á þessu ári aðflutníngurinn á brauði verið mestur í Suður-umdæminu (árið næst á undan var mest flutt til Norður- og Austur-umdæmisins, smbr. IV., bls. 370), en minnst til Vestur-umdæmisins. Aðflutníngurinn á svartabrauði í samanburði við hveitibrauð hefir á þessu, eins og á hinum síðari árum, varla verið teljandi, því af þessari síðar nefndu brauðtegund fluttust á þessu ári aðeins 17,131 pund, eða hèrumbil þrettándi hluti mót hveitibrauði.

Af allskonar ölfaungum (brennivín, romm, púnsextrakt, vín, kryddvín, mjöður og bjór), fluttust þetta ár samtals til Íslands 585,547 pottar, (árið næst á undan var það töluvert meira, nefnilega 654,366 pottar), og þar af til Suður-umdæmisins 264,499 pottar, til Vestur-umdæmisins 130,239 pottar, og til Norður- og Austur-

umdæmisins 190,809 pottar. Samkvæmt þessu hefir þá aðflutníngurinn af ölfaungum á þessu ári verið lángmestur til Suður-umdæmisins eins og að undanförnu, að frá skildu þó árinu 1865 og 1866, því þá var hann mestur til Norður- og Austur-umdæmisins (smbr. IV., bls. 370). Nokkuð líkt verður ofaná, þegar maður skoðar hverja tegund ölfánga þeirra, sem hèr eru talin, nefnilega að mest hefir verið flutt á þessu ári til Suður-umdæmisins; þó má frá þessu undan skilja púnsextrakt, því af honum fluttist lángmest til Norður- og Austur-umdæmisins, eða 6735 pottar af 14426 pottum, sem fluttust til alls landsins. Einkum er það samt bjór, sem mikið hefir verið flutt af til Suður-umdæmisins, því af þeim 29,058 pottum, sem á þessu ári fluttust til alls landsins, voru 22,643 pottar fluttir til Suður-umdæmisins, en ekki nema 1970 pottar til Norður- og Austur-umdæmisins.

Af kaffebaunum fluttust á þessu ári til alls landsins 367,128 pund, og er það töluvert minna en næst undanfarið ár (smbr. IV., bls. 371); en þar af fluttust 189,426 til Suður-umdæmisins, eða nær því eins mikið og til beggja hinna umdæmanna, en til Vestur-umdæmisins 88,449 pund og til Norður- og Austur-umdæmisins 89,253 pund. Hlutfallið milli umdæmanna er því á þessu ári mjög ólíkt því sem það hefir verið að undanförnu (smbr. IV., bls. 92 og 371). Um kafferót er sama að segja á þessu ári og næst undanfarið ár, nefnilega að lángmest er flutt af henni til Suður-umdæmisins, því af þeim 92,809 pundum, sem árið 1867 alls fluttust til Íslands, voru 55,710 pund flutt til Suður-umdæmisins (til Reykjavíkur kaupstaðar eins 45,498 pund, eða miklu meir en til beggja hinna umdæmanna að samtöldu), 20,393 pund til Vestur-umdæmisins, og ekki nema 16,706 pund til Norður- og Austur-umdæmisins. Aptur á móti hefir aðflutníngur á þessu ári, eins og næst undanfarið ár, bæði af sjókolade og tegrasi verið lángmestur til Norður- og Austur-umdæmisins, nefnilega meira af hvoru fyrir sig en til hinna beggja umdæmanna að samtöldu.

Af allskonar sykri fluttust árið 1867 samtals til alls Íslands 515,676 pund, eða nokkuð meir en næst undanfarið ár (smbr. IV. bls. 371), og þar af lángmest til Suður-umdæmisins, nefnilega

242,763 pund, en til Vestur-umdæmisins 115,126 pund og til Norður- og Austur-umdæmisins 157,787 pund; hlutfallið milli umdæmanna er því nokkuð ólíkt því, sem það hefir verið að undanförnu (smbr. I., bls. 75 og bls. 575, III. bls. 587, og IV. bls. 92 og 371). Skoði maður hverja sykurtegund sèr, þá var á þessu ári til alls landsins flutt töluvert meira kandíssykur heldur en næst undanfarið ár, en aptur á móti minna af bæði hvítasykri og púðursykri; en þar sem mest var flutt til Suður-umdæmisins bæði af kandíssykri og púðursykri, nefnilega af því fyrnefnda nær því helmíngur, og af hinu síðarnefnda rúmur helmíngur þess, sem flutt var til alls landsins, þá var þar á móti lángmest flutt til Norður- og Austur-umdæmisins af hvítasykri, eða nær því eins mikið og til beggja hinna umdæmanna að samtöldu. Síróp má einnig telja hèr; en af því fluttist lángmest á þessu ári til Vestur-umdæmisins, nefnilega 6355 pund, eða rúmur helmíngur þess sem fluttist til alls landsins, sem voru 11,000 pund, og er þetta nokkuð ólíkt því sem áður hefir átt sèr stað (smbr. IV., bls. 372), en til Norður- og Austur-umdæmisins fluttust aðeins 1256 pund.

Af allskonar tóbaki fluttust árið 1867 nokkuð minna til alls landsins en næst undanfarið ár, nefnilega samtals 107,750 pund, og þar af mest til Suður-umdæmisins eða 45,492 pund, en til Vestur-umdæmisins 28,423 pund, og til Norður- og Austur-umdæmisins 33,835 pund; en þetta er nokkuð ólíkt og það var næst undanfarið ár (smbr. IV., bls. 372). Eins og að undanförnu var aðflutníngurinn á þessu ári einnig lángmestur af neftóbaki, nefnilega 63,093 pund, eða töluvert meira en af hinum tóbakstegundunum samtöldum. Hèr má einnig telja vindla, og hefir af þeim á þessu ári verið flutt nokkuð minna til landsins en næst undanfarið ár, nefnilega 191,900 tals (árið 1866 voru það 262,800), og þar af mest til Vestur-umdæmisins eða 78,900, til Suður-umdæmisins 69,400 og til Norður- og Austur-umdæmisins 43,600 tals.

Af salti fluttust á þessu ári rúmlega tvöfalt meira til landsins en næst undanfarið ár, nefnilega 23,493 tunnur (árið 1866 voru það einúngis 11,243 tunnur, smbr. IV., bls. 372). Að vísu er sama að segja og áður hefir átt sèr stað, að mest hefir verið flutt

af salti til Suður-umdæmisins, en þó er munurinn á umdæmum landsins hvergi nærri eins mikill og hann áður hefir verið. Af aðflutníngnum fyrir árið 1867 komu nefnilega 14,941 tunna á Suður-umdæmið, 6,564 tunnur á Vestur-umdæmið og ekki nema 1,968 tunnur á Norður- og Austur-umdæmið; af kaupstöðum landsins var lángmest flutt til Reykjavíkur af þessari vörutegund, nefnilega 9,510 tunnur, og svo til Ísafjarðar.

Aðflutníngurinn af steinkolum til Íslands hefir á þessu ári verið mjög líkur því, sem hann var næst undanfarið ár, en hlutfallið milli umdæmanna nokkuð ólíkt því sem þá var. Árið 1867 var nefnilega flutt til alls landsins 17,928 tunnur steinkola, og þar af til Suður-umdæmisins 11,847 tunnur, til Norður- og Austur-umdæmisins 4,158 tunnur, en til Vestur-umdæmisins ekki nema 1,923 tunnur. Einkum hefir á þessu ári verið flutt mikið af steinkolum til Reykjavíkur (10,239 tunnur) og svo til Seyðisfjarðar verzlunarstaðar, en þetta á helztu rót sína einkum í því, að þessir tveir verzlunarstaðir eru enn sem stendur þeir einu, hvar gufuskipsferðir eru tíðkaðar.

Hampur er, eins og áður hefir átt sèr stað, varla teljandi að fluttur hafi verið á þessu ári nema til Suður-umdæmisins, einkum til Reykjavíkur og Gullbríngu sýslu; því af þeim 21,593 pundum, sem af þessari vörutegund fluttust á þessu ári til alls landsins, koma 11,079 pund á fyrrnefndan eina kaupstað, og 9,440 pund á Gullbríngu sýslu, en til Vestur-umdæmisins voru ekki flutt nema 136 pund og 219 pund til Norður- og Austur-umdæmisins. Öðru máli er að gegna hvað aðflutníng á færum snertir, því þar er hlutfallið milli umdæmanna einnig ólíkt, en þó á annan hátt; á þessu ári fluttist nefnilega til alls landsins 10,177 færi, og voru af þeim til Suður-umdæmisins flutt 3262, til Vestur-umdæmisins 5060, en ekki nema 1855 til Norður- og Austur-umdæmisins.

Af járni fluttust árið 1867 til alls Íslands 91,848 pund, og er það töluvert minna en næst undanfarið ár (smbr. IV., bls. 373), en þaraf var flutt mest til Suður-umdæmisins, eða 44,202 pund, og svo til Norður- og Austur-umdæmisins 32,077 pund, en til Vestur-umdæmisins ekki nema 15,569 pund. Nokkuð líkt var

einnig hlutfallið milli umdæmanna hvað aðflutníng á stáli á þessu ári snertir, því af þeim 4386 pundum, sem af þessari vörutegund fluttust til alls landsins, koma 1658 pund á Suður-umdæmið, 1758 pund á Norður- og Austur-umdæmið, en ekki nema 970 pund á Vestur-umdæmið.

Af allskonar trjávið (stórviður, plánkar, borð og spírur) fluttust á þessu ári til alls Íslands 98,048 tals, og er það ekki svo lítið meira en næst undanfarið ár (smbr. IV., bls. 373), en hlutfallið milli umdæmanna er þó á þessu ári nokkuð ólíkt, því til Vestur-umdæmisins fluttist ekki nema 15,569 tals, og til Norður- og Austur-umdæmisins 32,077, en til Suður-umdæmisins þar á móti 44,202 tals, eða nær því eins mikið og til beggja hinna umdæmanna að samtöldu.

Þannig hefir í stuttu máli verið skýrt frá hinum helztu vörutegundum, sem taldar eru að fluttar hafi verið til Íslands árið 1867, og hefir þarhjá einnig verið sýnt hlutfallið milli umdæmanna og gjörður samanburður við næst undanfarið ár. En til þess samt að skýra þetta betur, þykir hèr rètt á einum stað að telja, hversu mikið af hverri vörutegund hafi verið flutt til alls Íslands á þeim tveim árum 1866 og 1867; en það var á þessa leið:

| | árið 1866. | árið 1867. |
|---|---|---|
| Rúgur, tunnur | 31869 | 24212 |
| Bygg, tunnur | 229 | 251 |
| Hafrar, tunnur | 310 | 209 |
| Bánkabygg, tunnur | 16479 | 12741 |
| Baunir, tunnur | 4481 | 3158 |
| Bygggrjón, tunnur | 103 | 115 |
| Rúgmjöl, tunnur | 6099 | 5214 |
| Hveitimjöl, pund | 36399 | 21822 |
| Byggmjöl, pund | » | 284 |
| Hveitibrauð, pund | 229556 | 222504 |
| Svartabrauð, pund | 19445 | 17131 |
| Jarðepli, tunnur | 323 | 334 |
| Brennivín, pottar | 529426 | 479285 |

| | árið 1866. | árið 1867. |
|---|---|---|
| Romm, pottar | 31457 | 24604 |
| Púnsextrakt, pottar | 15198 | 14426 |
| Vín, pottar | 33035 | 28515 |
| Kryddvín, pottar | 9441 | 8736 |
| Mjöður, pottar | 922 | 923 |
| Bjór, pottar | 34877 | 29058 |
| Edik, pottar | 6885 | 7735 |
| Kaffebaunir, pund | 439866 | 367128 |
| Kafferót, pund | 98867 | 92809 |
| Sjókolade, pund | 9225 | 6195 |
| Tegras, pund | 954 | 1209 |
| Kandis-sykur, pund | 350857 | 373235 |
| Hvíta-sykur, pund | 123046 | 107481 |
| Púður-sykur, pund | 40548 | 34960 |
| Síróp, pund | 12990 | 11000 |
| Gráfíkjur, pund | 18089 | 14115 |
| Steinfíkjur, pund | 6612 | 5968 |
| Rúsínur, pund | 25721 | 23050 |
| Hrísgrjón, pund | 228365 | 209399 |
| Blaðatóbak, pund | 7680 | 3332 |
| Neftóbak, pund | 76023 | 63093 |
| Munntóbak, pund | 33710 | 31570 |
| Kardustóbak, pund | 23514 | 9755 |
| Vindlar, tals | 262800 | 191900 |
| Salt, tunnur | 11243 | 23473 |
| Steinkol, tunnur | 17797 | 17928 |
| Tjara, tunnur | 568 | 453 |
| Járn, pund | 137452 | 91848 |
| Stál, pund | 5425 | 4386 |
| Stórviður, tals | 11366 | 6606 |
| Plánkar, tals | 6393 | 6428 |
| Borð, tals | 70326 | 82579 |
| Spírur, tals | 4198 | 2435 |

| | árið 1866. | árið 1867. |
|---|---|---|
| Hampur, pund | 18402 | 21593 |
| Hör, pund | 715 | 583 |
| Færi, tals | 13883 | 10177 |
| Seglgarn, pund | 4922 | 2950 |
| Kaðlar, pund | 31869 | 24762 |
| Skinn, sútuð, pund | 11909 | 8366 |
| Skinn, ósútuð, pund | 4409 | 6915 |
| Indigó, pund | 596 | 442 |
| Litunartrè, pund | 25175 | 8337 |
| Korkur, pund | 2570 | 8764 |
| Álún, pund | 546 | 598 |
| Sápa, pund | 31055 | 29753 |
| Pappír, bækur | 23189 | 19473 |
| Púður, pund | 2302 | 1485 |
| Blý og högl, pund | 12232 | 7056 |
| Látún, pund | 335 | 203 |
| Hverfusteinar, tals | 259 | 214 |
| Brýni, tals | 7229 | 6786 |
| Pottar, tals | 1509 | 1162 |
| Katlar, tals | 180 | 131 |
| Naglar, hundruð | 44262 | 33943 |
| Hnífar, tals | 12307 | 9376 |
| Skæri, tals | 2896 | 2408 |
| þjalir, tals | 4802 | 5104 |
| Hestajárn, gángur | 6250 | 6486 |
| Skóflur, tals | 341 | 241 |
| Sagarblöð, tals | 181 | 81 |
| Lásar, tals | 414 | 264 |
| Bandprjónar, tals | 7268 | » |
| Hnappar, tylftir | 5433 | 3516 |
| Leirker, tals | 35439 | 28563 |
| Rokkar, tals | 203 | 113 |
| Speiglar, tals | 162 | 148 |

| | árið 1866. | árið 1867. |
|---|---|---|
| Höfuðkambar, tals | 1538 | 1376 |
| Almanök, tals | 296 | 244 |
| Klæði, álnir | 5202 | 3452 |
| Lèrept, álnir | 248624 | 241974 |
| Dúkur, álnir | 101612 | 112009 |
| Boldáng, álnir | 19465 | 20076 |
| Herðaklútar, tals | 2386 | 1344 |
| Lèreptsklútar, tals | 23482 | 19855 |
| Silkiklútar, tals | 1834 | 1293 |
| Axlabönd, pör | » | 192 |
| Ullarkambar, pör | 4232 | 3214 |
| Aunglar, tals | 480300 | 315750 |
| Silkitvinni, pund | 355 | 267 |
| Hörtvinni, pund | 362 | 587 |
| Hattar, tals | 2500 | 3070 |
| Húfur, tals | 5470 | 4144 |
| Áles, pund | » | 40. |

Yfirlit þetta sýnir strax við fljóta yfirskoðan, að aðflutníngur til landsins hefir verið minni árið 1867 en árið 1866 á miklu fleiri vörutegundum en þar sem það gagnstæða hefir átt sèr stað, og á mörgum þeirra jafnvel svo, að miklu nemur að tölunni til. En til þess að skýra þetta betur og gjöra mönnum hægra fyrir, þá þykir rètt að sýna, hversu mikið aðflutníngurinn á hverri vörutegund að tiltölu eða af hundraði hverju hafi mínkað eða aukizt á þessu ári. Þegar maður nú sleppir þeim 4 vörutegundum, sem í skýrslunni ekki er talið að neitt hafi fluzt annaðhvort áranna 1866 eða 1867, þá kemur það fram, að aðflutníngur hefir verið minni árið 1867 en næst undanfarið ár á þeim 71 vörutegundum, sem nú skal telja, og á þenna hátt:

| | af 100. |
|---|---|
| Rúgur | 24.0 |
| Hafrar | 32.6 |
| Bánkabygg | 22.7 |

| | af 100. |
|---|---|
| Baunir | 29.5 |
| Rúgmjöl | 14.2 |
| Hveitimjöl | 40.0 |
| Hveitibrauð | 3.1 |
| Svartabrauð | 11.8 |
| Brennivín | 9.5 |
| Romm | 21.8 |
| Púnsextrakt | 5.1 |
| Vín | 13.7 |
| Kryddvín | 7.5 |
| Bjór | 13.8 |
| Kaffebaunir | 16.5 |
| Kafferót | 6.1 |
| Sjókolade | 32.8 |
| Hvítasykur | 12.6 |
| Púðursykur | 13.8 |
| Síróp | 15.3 |
| Gráfíkjur | 22.0 |
| Steinfíkjur | 9.7 |
| Rúsínur | 10.4 |
| Hrísgrjón | 8.3 |
| Blaðatóbak | 56.6 |
| Neftóbak | 17.0 |
| Munntóbak | 6.4 |
| Kardustóbak | 27.8 |
| Vindlar | 27.0 |
| Tjara | 20.2 |
| Járn | 33.2 |
| Stál | 19.1 |
| Stórviður | 41.9 |
| Spírur | 42.0 |
| Hör | 18.5 |
| Færi | 26.6 |
| Seglgarn | 40.1 |

| | af 100. |
|---|---|
| Kaðlar | 22.3 |
| Skinn, sútuð | 29.8 |
| Indigó | 26.0 |
| Litunartrè | 65.3 |
| Sápa | 4.2 |
| Pappír | 16.0 |
| Púður | 35.7 |
| Blý og högl | 42.3 |
| Látún | 39.4 |
| Hverfusteinar | 17.4 |
| Brýni | 6.1 |
| Pottar | 23.0 |
| Katlar | 27.2 |
| Naglar | 23.3 |
| Hnífar | 23.8 |
| Skæri | 16.8 |
| Skóflur | 29.3 |
| Sagarblöð | 55.1 |
| Lásar | 36.2 |
| Hnappar | 35.3 |
| Leirker | 19.4 |
| Rokkar | 44.3 |
| Speiglar | 8.6 |
| Höfuðkambar | 10.5 |
| Almanök | 17.6 |
| Klæði | 33.6 |
| Lèrept | 2.7 |
| Herðaklútar | 43.6 |
| Lèreptsklútar | 15.4 |
| Silkiklútar | 29.0 |
| Ullarkambar | 24.1 |
| Aunglar | 34.3 |
| Silkitvinni | 24.8 |
| Húfur | 24.2. |

Aptur á hinn bóginn hefir aðflutníngur árið 1867 verið meiri en næst undanfarið ár á þeim 21 vörutegundum, sem nú skal telja, og á þenna hátt:

| | af 100. |
|---|---|
| Bygg | 9.6 |
| Bygggrjón | 11.6 |
| Jarðepli | 3.4 |
| Mjöður | 0.1 |
| Edik | 12.3 |
| Tegras | 26.7 |
| Kandissykur | 6.4 |
| Salt | 108.8 |
| Steinkol | 0.8 |
| Plánkar | 0.5 |
| Borð | 17.4 |
| Hampur | 17.3 |
| Skinn, ósútuð | 56.8 |
| Korkur | 241.0 |
| Álún | 9.5 |
| Þjalir | 6.3 |
| Hestajárn | 3.8 |
| Dúkur | 10.2 |
| Boldáng | 3.1 |
| Hörtvinni | 62.2 |
| Hattar | 22.8. |

---

Vèr viljum þessu næst taka skýrsluna B yfir vörur fluttar frá Íslandi árið 1867 til yfirvegunar, og skulu við hana gjörðar þessar athugasemdir.

Af fiski (saltfiski og hörðum fiski) var árið 1867 flutt frá Íslandi alls 23,768 skippund, og er það meir en tvöfalt á við það sem fluttist út árið næst á undan, því þá var það ekki nema 11,179 skippund (smbr. IV., bls. 380). Eins og að undanförnu var

lángmest af þessari vörutegund flutt frá Suður-umdæminu, nefnilega 18,071 skippund (einkum frá Reykjavík og frá Gullbríngu sýslu; frá þeim nefnilega 16,358 skippund, eða rúmir tveir þriðju hlutar alls þess sem fluttist frá öllu landinu), og svo frá Vestur-umdæminu 5614 skippund (þaðan einkum frá Ísafjarðar sýslu, eða 3713 skippund); þar á móti er það lítið, sem af þessari vöru var flutt frá Norður- og Austur-umdæminu, nefnilega ekki nema 83 skippund (mest af því frá Eyjafjarðar sýslu, eða 67 skippund). Söltuð hrogn hafa að undanförnu eingaungu verið flutt frá Suður-umdæminu, en á þessu ári, sem hèr ræðir um, hefir þó lítið eitt verið flutt út af þessari vöru frá Vestur-umdæminu, nefnilega 30 tunnur frá Ísafjarðar sýslu, en frá Suður-umdæminu 1932 tunnur; alls var flutt út 1962 tunnur af þessari vörutegund, og er það meir en tvöfalt meira en næst undanfarið ár. Af saltaðri síld hefir á þessu ári ekki verið flutt svo lítið frá Íslandi, þar sem þessi vara þrjú næst undanfarin ár ekki hefir verið flutt út, og áður mjög svo lítið; útflutníngurinn af þessari vörutegund var eingaungu frá Norður- og Austur-umdæminu, og mestmegnis frá Norður-Múla sýslu. Sömuleiðis er á þessu ári töluvert meira flutt út af söltuðum laxi, en næst undanfarið ár, og af honum mest frá Norður- og Austur-umdæminu, nefnilega 574 lísipund af þeim 786 lísipundum, sem alls fluttust frá Íslandi á þessu ári af þeirri vöru.

Af lýsi (og er þar talið allskonar lýsi, bæði þorskalýsi, hvallýsi, hákarlslýsi og selslýsi), hefir einnig á þessu ári verið flutt töluvert meira frá Íslandi en næst undanfarið ár, nefnilega alls 13,083 tunnur. Lángmestur hefir útflutníngurinn einnig á þessu ári verið frá Norður- og Austur-umdæminu (einkum frá Eyjafjarðar og báðum Múla sýslunum), nefnilega 7964 tunnur, eða miklu meir en frá báðum hinum umdæmunum samtöldum; minnstur var útflutníngurinn frá Suður-umdæminu, nefnilega ekki nema 1886 tunnur, en frá Vestur-umdæminu fluttust 3233 tunnur.

Um saltað kjöt er líkt að segja og að undanförnu, að lángmest hefir af því á þessu ári verið flutt frá Norður- og Austur-umdæminu. Af þeim 2985 tunnum af þessari vörutegund, sem árið 1867 voru fluttar alls frá Íslandi, koma nefnilega 2449 tunnur

á Norður- og Austur-umdæmið, 352 tunnur á Suður-umdæmið, og 184 tunnur á Vestur-umdæmið.

Hvað útflutníng af tólg snertir árið 1867, þá skarar Norður- og Austur-umdæmið eins og hin fyrri árin lángt fram úr hinum umdæmunum að þessu. Frá öllu landinu fluttust nefnilega á þessu ári alls 506,686 pund af þessari vöru, og er það töluvert meira en næst undanfarið ár (smbr. IV., bls. 381), en af því var flutt frá Norður- og Austur-umdæminu einu 358,665 pund, eða milli tvöfalt og þrefalt meira en frá báðum hinum umdæmunum að samtöldu; því frá Suður-umdæminu fluttust 105,323 pund, en frá Vestur-umdæminu einúngis 42,698 pund. Einkum er það Norður-Múla sýsla, sem í Norður- og Austur-umdæminu tekur hinum fram hvað útflutníng á þessari vörutegund snertir, því frá henni einni fluttust 117,067 pund, eða töluvert meira en frá öllu Suður-umdæminu. Að öðru leyti er það merkilegt, að frá Ísafjarðar sýslu er ekki neitt talið að út hafi verið flutt af tólg, og frá Barðastrandar sýslu er einúngis talið það lítilræði 388 pund.

Af ullu (og er hèr talin bæði hvít ull, svört ull, og mislit), fluttust árið 1867 alls 1,207,969 pund frá öllu landinu, og er það töluvert minna en næst undanfarið ár (smbr. IV., bls. 381). Hèr kemur einnig að hinu sama og áður hefir átt sèr stað, nefnilega að lángmest hefir á þessu ári verið flutt út af þessari vörutegund frá Norður- og Austur-umdæminu. Þannig fluttust frá þessu umdæmi einu 630,140 pund ullar, eða rúmlega helmíngur þess, sem út hefir verið flutt frá öllu landinu; frá Suður-umdæminu voru flutt 351,959 pund, og þar af frá Reykjavíkur kaupstað einum 203,550 pund, eða nærri því eins mikið og frá öllu Vestur-umdæminu, því þaðan voru ekki flutt nema 225,870 pund.

Tóvara hefir á þessu ári, eins og að undanförnu, mest og að kalla má eingaungu verið flutt frá Norður-umdæminu, einkum frá Eyjafjarðar sýslu. Þannig hefir árið 1867 verið flutt frá Norður- og Austur-umdæminu: af peisum: 134 pör (en ekkert frá hinum umdæmunum); af sokkum 39,749 pör af 41,909 pörum alls (ekkert frá Suður-umdæminu); af háleistum 7576 pör af 7673 pörum alls (97 pör frá Vestur-umdæminu, en ekkert frá Suður-umdæminu); af

sjóvetlíngum 48,466 pör af 53,267 pörum alls (frá Suður-umdæminu ein 110 pör); af fíngravetlíngum 825 pör (en ekkert frá hinum umdæmunum), og af vaðmáli 1158 álnir (frá Vestur-umdæminu einar 50 álnir, en ekkert frá Suður-umdæminu).

Af æðardún fluttust á þessu ári alls 7753 pund frá öllu landinu, og er það töluvert meira en næst undanfarið ár (smbr. IV., bls. 382). Eins og að undanförnu var lángmest flutt af þessari vörutegund frá Vestur-umdæminu, það er að skilja 3689 pund, eða nær því eins mikið og frá báðum hinum umdæmunum samtöldum; frá Suður-umdæminu fluttust 1306 pund, en frá Norður- og Austur-umdæminu 2759 pund, og verður þá hlutfallið milli beggja þessara umdæma nokkuð á aðra leið en áður hefir verið (smbr. I., bls. 576, III., bls. 593 og IV., bls. 100). Af fiðri hefir einnig á þessu ári, eins og að undanförnu, lángmest verið flutt úr Vestmannaeyjum, nefnilega 12,412 pund af þeim 26,257 pundum sem fluttust frá öllu landinu; frá Vestur-umdæminu fluttust þó 9913 pund, en frá Norður- og Austur-umdæminu ekki nema 2859 pund. Álptafjaðrir fluttust á þessu ári að kalla má eingaungu frá Vestur-umdæminu, nefnilega 9,400 tals af 12,200 tals frá öllu landinu, og er það nokkuð ólíkt og næst undanfarið ár (smbr. IV., bls. 382).

Útflutníngur af skinnavöru hefir á þessu ári verið mjög ólíkur frá umdæmum landsins. Þannig hafa söltuð sauðskinn að kalla má eingaungu verið flutt frá Norður- og Austur-umdæminu, nefnilega 14,110 tals af þeim 14,592 sem flutt voru frá öllu landinu; af lambskinnum hefir einnig lángmest verið flutt út frá Norður- og Austur-umdæminu, nefnilega 16,153 tals, en frá Suður-umdæminu 7025, og frá Vestur-umdæminu einúngis 3708 tals; þar á móti hafa tóubelgir og álptarhamir að kalla má eingaungu verið fluttir frá Vestur-umdæminu, nefnilega af hinum fyrst nefndu 227 af 268 frá öllu landinu, og af hinum síðar nefndu 40 af 56 frá öllu landinu; það lítið sem út var flutt af hafurstökum, var eingaungu frá Eyjafjarðar sýslu.

Lifandi hestar hafa á þessu ári, eins og að undanförnu, að kalla má eingaungu verið fluttir frá Reykjavíkur kaupstað, nefnilega tals 339, en frá Norður- og Austur-umdæminu fluttust að eins 12,

en enginn frá Vestur-umdæminu. Um útflutníng af **lifandi sauðfè** hefir lítið verið á þessu ári, og eru það einar 8 **kindur** alls.

Að þessum athugasemdum gjörðum, er þá eptir að bera saman útfluttar vörur á þeim tveim árum 1866 og 1867, eins og gjört var hèr að framan um aðfluttar vörur, og verður þá útflutníngurinn frá öllu landinu á þessum tveim árum á þá leið, að út var flutt:

| | árið 1866. | árið 1867. |
|---|---|---|
| Saltfiskur, skippund . . . . . . | 10952 | 22803 |
| Harður fiskur, — . . . . . . . | 227 | 965 |
| Söltuð hrogn, tunnur . . . . . | 770 | 1962 |
| Söltuð síld, — . . . . . . | » | 121 |
| Saltaður lax, lísipund . . . . . | 672 | 786 |
| Lýsi, tunnur . . . . . . . | 8952 | 13083 |
| Saltað kjöt, — . . . . . . . | 2206 | 2985 |
| Tólg, pund . . . . . . . . . | 411147 | 506686 |
| Söltuð sauðskinn, tals . . . . . | 11552 | 14592 |
| Lambskinn, — . . . . . . | 30729 | 26886 |
| Tóubelgir, — . . . . . . | 186 | 268 |
| Álptarhamir, — . . . . . . | 164 | 56 |
| Álptarfjaðrir, — . . . . . . | 21600 | 12200 |
| Æðardún, pund . . . . . . . . | 5872 | 7753 |
| Fiður, — . . . . . . . . | 23600 | 26257 |
| Rjúpur, tals . . . . . . . . | 15600 | 13603 |
| Hvít ull, pund . . . . . . . . | 1406518 | 1112346 |
| Svört ull, — . . . . . . . . | 23533 | 7549 |
| Mislit ull, — . . . . . . . . | 120359 | 88074 |
| Peisur, tvíbands, tals . . . . . | 50 | 134 |
| Peisur, eingirnis, — . . . . . . | » | » |
| Sokkar, tvíbands, pör . . . . . | 37422 | 41025 |
| Sokkar, eingirnis, — . . . . . . | 412 | 884 |
| Háleistar, — . . . . . . | 10930 | 7673 |
| Sjóvetlíngar, — . . . . . . | 26904 | 53267 |
| Fíngravetlíngar, — . . . . . . | 744 | 825 |

| | árið 1866. | árið 1867. |
|---|---|---|
| Vaðmál, álnir . . . . . . . . | 374 | 1208 |
| Bein, lísipund . . . . . . . . | 1800 | 948 |
| Háfsroð, tals . . . . . . . . . | » | » |
| Hross, lifandi, tals . . . . . . | 628 | 351 |
| Sauðfè lifandi — . . . . . . . | 2185 | 8 |
| Hafurstökur, pund . . . . . . | 60 | 129. |

Hèr að framan sýndi það sig um aðflutníng til landsins á þessum tveim árum, að hann á velflestum vörutegundum hafði verið minni árið 1867 en árið 1866, en yfirlit þetta sýnir, að hið gagnstæða á sèr stað um vörur fluttar frá landinu á þessum hinum sömu árum. En til þess að skýra þetta betur, skal hèr sýna hversu mikið útflutníngurinn af hverri vörutegund hafi aukizt eða mínkað að tiltölu af hverju hundraði, og kemur það þá fram, að útflutníngurinn hefir verið meiri á þessum 18 vörutegundum sem nú skal nefna, nefnilega:

| | af 100. |
|---|---|
| Saltfiskur . . . . . . . . . . . . | 108.2 |
| Harður fiskur . . . . . . . . . . | 325.1 |
| Söltuð hrogn . . . . . . . . . . | 154.8 |
| Saltaður lax . . . . . . . . . . | 17.0 |
| Lýsi . . . . . . . . . . . . . . | 46.1 |
| Saltað kjöt . . . . . . . . . . . | 35.3 |
| Tólg . . . . . . . . . . . . . . | 23.2 |
| Söltuð sauðskinn . . . . . . . . | 26.3 |
| Tóubelgir . . . . . . . . . . . | 44.1 |
| Æðardún . . . . . . . . . . . | 32.0 |
| Fiður . . . . . . . . . . . . . | 11.3 |
| Peisur, tvíbands . . . . . . . . . | 168.0 |
| Sokkar, tvíbands . . . . . . . . . | 9.6 |
| Sokkar, eingirnis . . . . . . . . . | 114.0 |
| Sjóvetlíngar . . . . . . . . . . . | 98.0 |
| Fíngravetlíngar . . . . . . . . . | 10.9 |
| Vaðmál . . . . . . . . . . . . . | 223.0 |
| Hafurstökur . . . . . . . . . . . | 115.0. |

þar á móti hefir útflutníngurinn verið minni árið 1867 en árið 1866 á þeim 11 vörutegundum sem nú skal telja, nefnilega á þenna hátt:

| | af 100. |
|---|---|
| Lambskinn | 12.5 |
| Álptarhamir | 65.8 |
| Álptarfjaðrir | 43.5 |
| Rjúpur | 12.8 |
| Hvít ull | 20.9 |
| Svört ull | 67.9 |
| Mislit ull | 26.8 |
| Háleistar | 29.8 |
| Bein | 47.3 |
| Hross, lifandi | 44.1 |
| Sauðfè, lifandi | 99.6. |

---

Eptir að þannig hefir verið skýrt frá vörum þeim, sem á árunum 1866 og 1867 hafa verið fluttar bæði til Íslands og frá Íslandi, þykir ekki ótilhlýðilegt að sýna, að hve miklu leyti vöruflutníngar bæði til landsins og frá landinu hafi aukizt eða mínkað á því tímabili, sem liðið er frá því að verzlunarskýrslur fyrst voru prentaðar í ritum þessum, en það var fyrir árið 1849. Vèr viljum því hèr taka fyrir þau tvö árin 1849 og 1867, og fyrst sýna hversu mikið á hvoru þessara ára hafi verið bæði flutt til landsins og frá landinu af hinum helztu vörutegundum. Af útlendum varníngi var þannig flutt til landsins:

| | | árið 1849. | árið 1867. |
|---|---|---|---|
| Rúgur, | tunnur | 23128 | 24212 |
| Bygg, | — | 274 | 251 |
| Baunir, | — | 2028 | 3158 |
| Bánkabygg, | — | 7635 | 12741 |
| Rúgmjöl, | — | 3849 | 5214 |
| Brauð[1], | pund | 186800 | 239635 |

---

[1]) Hèr er talið hveitibrauð og svartabrauð.

| | árið 1849. | árið 1867. |
|---|---|---|
| Brennivín, pottar . . . . . | 257212 | 479285 |
| Önnur ölfaung,[1] — . . . . . | 39790 | 106262 |
| Kaffebaunir,[2] pund . . . . . . | 293833 | 459937 |
| Sykur,[3] pund . . . . . . . . | 272702 | 515676 |
| Síróp, — . . . . . . . . . | 16587 | 11000 |
| Tóbak[4], — . . . . . . . . . | 79967 | 107750 |
| Salt, tunnur . . . . . . . . | 17069 | 23473 |
| Tjara, — . . . . . . . . | 533 | 453 |
| Steinkol, — . . . . . . . . | 3479 | 17928 |
| Járn, pund . . . . . . . . . | 108137 | 91848 |
| Hampur, — . . . . . . . . . | 38100 | 21593 |
| Færi, tals . . . . . . . . . . | 10587 | 10177 |
| Viður, stærri, tals . . . . . . | 4101 | 6606 |
| Borð og plánkar, tals . . . . . | 84581 | 89007. |

Að vísu sýnir nú yfirlit þetta mismuninn á sèrhverri vörutegund á þessu tímabili að tölunni til, en til þess að skýra þetta atriði betur, þá skal hèr sýna hversu aðflutníngurinn á hverri einstakri af þeim hèr töldu vörutegundum hefir aukizt eða mínkað á hinu sama tímabili að tiltölu af hverju hundraði, og er til aðgreiníngar sett merkið (÷) fyrir framan töluna, þegar aðflutníngurinn hefir mínkað, en ekkert merki þegar aukizt hefir. Vöruflutníngar til landsins á tímabilinu frá 1849 til 1867 hefir þá aukizt eða mínkað á þenna hátt, sem nú skal segja, nefnilega:

| | af 100. |
|---|---|
| Rúgur . . . . . . . . . . . . | 4.7 |
| Bygg . . . . . . . . . . . . | ÷ 8.4 |
| Baunir . . . . . . . . . . . | 55.7 |

[1]) Hèr er talið: vín, romm, púnsextrakt, kryddvín, mjöður og bjór.
[2]) Árið 1867 er hèr einnig talin kafferót með.
[3]) Allskonar sykur er hèr talið, nefnilega hvítasykur, kandíssykur og púðursykur.
[4]) Hèr er einnig talið allskonar tóbak, það er að skilja: blaðatóbak, neftóbak, munntóbak og kardustóbak.

| | af 100. |
|---|---|
| Bánkabygg | 66.9 |
| Rúgmjöl | 35.8 |
| Brauð | 28.3 |
| Brennivín | 86.3 |
| Önnur ölfaung | 167.1 |
| Kaffebaunir | 56.5 |
| Sykur | 89.1 |
| Síróp | ÷ 33.7 |
| Tóbak | 34.7 |
| Salt | 37.0 |
| Tjara | ÷ 15.0 |
| Steinkol | 415.2 |
| Járn | ÷ 15.1 |
| Hampur | ÷ 43.3 |
| Færi | ÷ 3.9 |
| Viður, stærri | 61.1 |
| Borð og plánkar | 5.2. |

Yfirlit þetta sýnir það glögglega, að aðflutníngurinn hefir farið vaxandi á nær því öllum hinum helztu vörum á tímabili því, sem hèr ræðir um. Í yfirlitinu eru nefnilega taldar 20 vörutegundir, og hefir aðflutníngurinn á tímabilinu frá 1849 til 1867 einúngis mínkað á 6 þeirra, það er að skilja á byggi, sírópi, tjöru, járni, hampi og færum. Þar á móti hefir aðflutníngurinn á sama tímabili farið vaxandi á öllum hinum vörutegundunum, og á sumum þeirra mjög svo mikið, t. a. m. á öðrum ölfaungum og á steinkolum. Að jafnaði hefir aðflutníngurinn á þessu tímabili aukizt meir á óþarfavörum, það er að skilja allskonar ölfaung, kaffe, sykur og tóbak, en minna á matvöru (rúgi, byggi, baunum, bánkabyggi og rúgmjöli), og lætur þetta sig einnig í ljósi, þegar menn bera aðflutnínginn á árunum 1849 og 1867 saman við fólksfjöldann í landinu á hinum sömu árunum, því þá kemur það fram, að á hvern mann í landinu komu:

| | | árið 1849. | árið 1867. |
|---|---|---|---|
| af brennivíni . . . | pottar | 4.35 | 7.02 |
| - öðrum ölfaungum | — | 0.67 | 1.56 |
| - kaffebaunum . . | pund | 4.96 | 6.73 |
| - sykri . . . . | — | 4.61 | 7.55 |
| - tóbaki . . . . | — | 1.35 | 1.58 |
| - kornvöru . . . | tunnur | 0.63 | 0.67. |

Taki maður þessu næst útfluttar vörur á þessu tímabili til yfirvegunar, þá hafa á árunum 1849 og 1867 þessar vörur verið fluttar frá Íslandi, nefnilega:

| | árið 1849. | árið 1867. |
|---|---|---|
| Saltfiskur, skippund . . . . . | 16400 | 22803 |
| Harður fiskur, — . . . . . | 3244 | 965 |
| Söltuð hrogn, tunnur . . . . . | 308 | 1962 |
| Saltaður lax, lísipund . . . . . | 330 | 786 |
| Lýsi, tunnur . . . . . . . . . | 3259 | 13083 |
| Saltað kjöt, tunnur . . . . . . | 1235 | 2985 |
| Tólg, pund . . . . . . . . . | 646874 | 506686 |
| Ull[1], — . . . . . . . . . | 1397148 | 1207969 |
| Peisur,[2] tals . . . . . . . . | 8405 | 134 |
| Sokkar,[2] pör . . . . . . . . | 91145 | 49582 |
| Sjóvetlíngar, pör . . . . . . | 78962 | 53267 |
| Vaðmál, álnir . . . . . . . . | 5802 | 1208 |
| Sauðskinn, söltuð, tals . . . . | 3745 | 14592 |
| Lambskinn, tals . . . . . . | 13405 | 26886 |
| Tónbelgir, — . . . . . . | 396 | 268 |
| Álptarhamir, — . . . . . . | 94 | 56 |
| Álptarfjaðrir, — . . . . . . | 21875 | 12200 |
| Æðardún, pund . . . . . . . | 3991 | 7753 |
| Fiður, pund . . . . . . . . | 19268 | 26257. |

Af þessu sèst að vísu mismunurinn á sèrhverri vörutegund á

[1]) Hèr er talin hvít, svört og mislit ull.

[2]) Af þessu prjónlesi er bæði talið eingirnis- og tvinnabandsles, og eru með sokkum einnig taldir háleistar.

þessum árum að tölunni til, en eins og gjört var við aðfluttar vörur, skal hèr einnig sýna hversu mikið útflutníngurinn hefir aukizt eða mínkað á tímabilinu frá 1849 til 1867 að tiltölu eða af hverju hundraði, og er þá hèr einnig brúkað merkið (÷) þegar hann hefir mínkað, en ekkert merki þegar aukizt hefir. Vöruflutníngar frá landinu hafa þá á þessu tímabili aukizt eða mínkað á þenna hátt, nefnilega:

| | af 100. |
|---|---|
| Saltfiskur | 39.0 |
| Harður fiskur | ÷ 70.1 |
| Söltuð hrogn | 537.0 |
| Saltaður lax | 138.2 |
| Lýsi | 301.4 |
| Saltað kjöt | 141.7 |
| Tólg | ÷ 21.7 |
| Ull | ÷ 13.5 |
| Peisur | ÷ 98.4 |
| Sokkar | ÷ 45.6 |
| Sjóvetlíngar | ÷ 32.5 |
| Vaðmál | ÷ 79.2 |
| Sauðskinn, söltuð | 289.6 |
| Lambskinn | 100.6 |
| Tóubelgir | ÷ 32.5 |
| Álptarhamir | ÷ 40.4 |
| Álptarfjaðrir | ÷ 44.2 |
| Æðardún | 94.3 |
| Fiður | 36.3. |

Yfirlit þetta sýnir, að af þeim 19 vörutegundum, sem hèr eru taldar, þá hefir útflutníngurinn á þessu tímabili farið vaxandi á 9 þeirra, en mínkandi á 10. Lángmest hefir útflutníngurinn aukizt á söltuðum hrognum, nefnilega að tiltölu 537.0 af hundraði, eða með öðrum orðum, að árið 1867 hefir af þeim verið flutt út rúmlega sexfalt við það, sem út var flutt árið 1849; þessu næst hefir útflutníngur af lýsi einnig aukizt mikið á tímabilinu, nefnilega að

tiltölu 301.4 af hundraði, eða útflutníngurinn hefir árið 1867 verið ferfalt meiri en árið 1849. Aptur á hinn bóginn hefir útflutníngurinn á sama tímabili mínkað mest á peisum, nefnilega 98.4 af hundraði, eða með öðrum orðum, að árið 1867 hafi nær því ekkert verið flutt af þeim í samanburði við það, sem út var flutt árið 1849.

---

Í skýrslunum A og B hèr að framan er talið sèr, bæði hversu mikið af hverri vörutegund hafi verið flutt til Íslands frá Danmörku eða frá öðrum löndum en Danmörku, og svo eins hversu mikið hafi verið flutt frá Íslandi til Danmerkur eða þá til annara landa. það lýsir sèr nú að vísu af skýrslunum sjálfum, að vöruflutníngar bæði til Íslands og frá Íslandi ennþá að mestu leyti er frá Danmörku eða til Danmerkur, en til þess að gefa glöggvari hugmynd um þetta atriði, þá skal hèr sýna hlutfall það, sem á þessu ári var milli vöruflutníngs bæði til Íslands frá Danmörku og öðrum löndum, og svo frá Íslandi til Danmerkur og annara landa.

Taki maður þá fyrst aðflutnínginn, þá kemur það fram, að árið 1867 fluttist af sèrhverri vörutegund, sem talin er í skýrslunni A, að tiltölu af hundraði:

| | frá Danmörku. | frá öðrum löndum. |
|---|---|---|
| Rúgur | 85.4 | 14.6 |
| Bygg | 99.6 | 0.4 |
| Hafrar | 93.8 | 6.2 |
| Bánkabygg | 96.5 | 3.5 |
| Baunir | 95.4 | 4.6 |
| Bygggrjón | 96.5 | 3.5 |
| Rúgmjöl | 99.8 | 0.2 |
| Hveitimjöl | 90.0 | 10.0 |
| Byggmjöl | 100.0 | » |
| Hveitibrauð | 88.0 | 12.0 |
| Svartabrauð | 98.8 | 1.2 |
| Jarðepli | 79.6 | 20.4 |

| | frá Danmörku. | frá öðrum löndum. |
|---|---|---|
| Brennivín . . . . . . . | 97.0 | 3.0 |
| Romm . . . . . . . . | 79.4 | 20.6 |
| Púnsextrakt . . . . . . | 96.8 | 3.2 |
| Vín . . . . . . . . . | 80.8 | 19.2 |
| Kryddvín . . . . . . . | 81.7 | 18.3 |
| Mjöður . . . . . . . | 82.7 | 17.3 |
| Bjór . . . . . . . . . | 93.7 | 6.3 |
| Edik . . . . . . . . . | 93.7 | 6.3 |
| Kaffebaunir . . . . . . | 85.8 | 14.2 |
| Kafferót . . . . . . . | 65.9 | 34.1 |
| Sjókolade . . . . . . | 94.5 | 5.5 |
| Tegras . . . . . . . . | 64.4 | 35.6 |
| Kandis-sykur . . . . . | 87.6 | 12.4 |
| Hvítt sykur . . . . . . | 86.0 | 14.0 |
| Púður-sykur . . . . . | 68.8 | 31.2 |
| Síróp . . . . . . . . . | 88.9 | 11.1 |
| Gráfíkjur . . . . . . . | 91.0 | 9.0 |
| Steinfíkjur . . . . . . | 73.0 | 27.0 |
| Rúsínur . . . . . . . . | 82.3 | 17.7 |
| Hrísgrjón . . . . . . | 92.4 | 7.6 |
| Blaðatóbak . . . . . . | 100.0 | » |
| Neftóbak . . . . . . | 98.2 | 1.8 |
| Munntóbak . . . . . . | 98.2 | 1.8 |
| Kardustóbak . . . . . | 87.2 | 12.8 |
| Vindlar . . . . . . . | 93.5 | 6.5 |
| Salt . . . . . . . . . | 15.1 | 84.9 |
| Steinkol . . . . . . . | 19.8 | 80.2 |
| Tjara . . . . . . . . . | 92.7 | 7.3 |
| Járn . . . . . . . . . | 82.1 | 17.9 |
| Stál . . . . . . . . . | 82.1 | 17.9 |
| Stórviður . . . . . . | 38.4 | 61.6 |
| Plánkar . . . . . . . | 47.8 | 52.2 |
| Borð . . . . . . . . . | 40.5 | 59.5 |

| | frá Danmörku. | frá öðrum löndum. |
|---|---|---|
| Spírur . . . . . . . . | 100.0 | ». |
| Hampur . . . . . . . . | 67.2 | 32.8 |
| Hör . . . . . . . . . | 94.5 | 5.5 |
| Færi . . . . . . . . . | 83.0 | 17.0 |
| Seglgarn . . . . . . . . | 79.9 | 20.1 |
| Kaðlar . . . . . . . . | 85.0 | 15.0 |
| Skinn, sútuð . . . . . . | 87.6 | 12.4 |
| Skinn, ósútuð . . . . . | 95.8 | 4.2 |
| Korkur . . . . . . . . | 23.0 | 77.0 |
| Indigó . . . . . . . . | 87.3 | 12.7 |
| Litunartrè . . . . . . . | 75.7 | 24.3 |
| Álún . . . . . . . . . | 98.0 | 2.0 |
| Sápa . . . . . . . . . | 84.9 | 15.1 |
| Pappír . . . . . . . . | 87.1 | 12.9 |
| Púður . . . . . . . . | 100.0 | » |
| Blý og högl . . . . . . | 87.2 | 12.8 |
| Látún . . . . . . . . | 84.2 | 15.8 |
| Hverfusteinar . . . . . . | 100.0 | » |
| Brýni . . . . . . . . . | 98.5 | 1.5 |
| Pottar . . . . . . . . | 93.3 | 6.7 |
| Katlar . . . . . . . . | 90.8 | 9.2 |
| Naglar . . . . . . . . | 84.5 | 15.5 |
| Hnífar . . . . . . . . | 92.0 | 8.0 |
| Skæri . . . . . . . . . | 87.0 | 13.0 |
| Þjalir . . . . . . . . . | 83.8 | 16.2 |
| Hestajárn . . . . . . . | 66.9 | 33.1 |
| Skóflur . . . . . . . . | 90.0 | 10.0 |
| Sagarblöð . . . . . . . | 40.7 | 59.3 |
| Lásar . . . . . . . . . | 63.7 | 36.3 |
| Hnappar . . . . . . . . | 79.5 | 20.5 |
| Leirker . . . . . . . . | 75.2 | 24.8 |
| Rokkar . . . . . . . . | 100.0 | » |
| Speiglar . . . . . . . . | 83.8 | 16.2 |

| | frá Danmörku. | frá öðrum löndum. |
|---|---|---|
| Höfuðkambar . . . . . | 59.0 | 41.0 |
| Almanök . . . . . . . | 100.0 | » |
| Klæði . . . . . . . . | 90.4 | 9.6 |
| Lèrept . . . . . . . | 80.8 | 19.2 |
| Dúkur . . . . . . . | 87.2 | 12.8 |
| Boldáng . . . . . . . | 86.9 | 13.1 |
| Herðaklútar . . . . . . | 75.0 | 25.0 |
| Lèreptsklútar . . . . . | 92.1 | 7.9 |
| Silkiklútar . . . . . . | 88.6 | 11.4 |
| Axlabönd . . . . . . | » | 100.0 |
| Ullarkambar . . . . . | 81.2 | 18.8 |
| Aunglar . . . . . . . | 59.1 | 40.9 |
| Silkitvinni . . . . . . | 82.4 | 17.6 |
| Hörtvinni . . . . . . | 52.5 | 47.5 |
| Hattar . . . . . . . | 79.9 | 20.1 |
| Húfur . . . . . . . | 88.0 | 12.0 |
| Áles . . . . . . . . . | 85.0 | 15.0. |

Yfirlit þetta sýnir hið sama og áður hefir verið sagt, nefnilega að vöruflutníngar til Íslands beinlínis frá öðrum löndum en Danmörku ennþá eru litlir, því af þeim 95 vörutegundum, sem taldar eru í þessum samjöfnuði, eru 7, sem eingaungu hafa verið fluttar frá Danmörku, nefnilega byggmjöl, blaðatóbak, spírur, púður, hverfusteinar, rokkar og almanök, en einúngis ein, sem eingaungu hefir verið flutt frá öðrum löndum, nefnilega axlabönd. Þarámóti hefir af hinum vörutegundunum af einum 7 tegundum meira að tiltölu verið flutt frá öðrum löndum en Danmörku, en það eru: salt, steinkol, stórviður, plánkar, borð, korkur og sagarblöð; en af velflestum öðrum vörum er það, sem flutt hefir verið beinlínis frá öðrum löndum, svo lítið, að það varla er teljandi.

Skoði maður þessu næst útflutnínginn, þá kemur það fram, að árið 1867 fluttist af sèrhverri vörutegund, sem talin er í skýrslunni B, að tiltölu af hundraði:

| | til Danmerkur. | til annara landa. |
|---|---|---|
| Saltfiskur . . . . . . | 22.9 | 77.1 |
| Harður fiskur . . . . . | 90.1 | 9.9 |
| Söltuð hrogn . . . . . | 1.5 | 98.5 |
| Saltaður lax . . . . . | 91.1 | 8.9 |
| Söltuð síld . . . . . . | 5.8 | 94.2 |
| Lýsi . . . . . . . . | 67.9 | 32.1 |
| Saltað kjöt . . . . . . | 81.7 | 18.3 |
| Tólg . . . . . . . . | 89.6 | 10.4 |
| Söltuð sauðskinn . . . . | 66.6 | 33.4 |
| Lambskinn . . , . . . | 88.4 | 11.6 |
| Tóubelgir . . . . . . | 85.8 | 14.2 |
| Álptarhamir . . . . . | 39.3 | 60.7 |
| Álptarfjaðrir . . . . . | 67.2 | 32.8 |
| Æðardún . . . . . . | 92.5 | 7.5 |
| Fiður . . . . . . . | 98.7 | 1.3 |
| Rjúpur . . . . . . . | 100.0 | » |
| Hvít ull . . . . . . . | 55.5 | 44.5 |
| Svört ull. . . . . . . | 67.7 | 32.3 |
| Mislit ull . . . . . . | 64.3 | 35.7 |
| Peisur, tvíbands . . . . | 100.0 | » |
| Sokkar, tvíbands . . . . | 98.9 | 1.1 |
| Sokkar, eingirnis . . . . | 100.0 | » |
| Háleistar . . . . . . | 100.0 | » |
| Sjóvetlíngar . . . . . | 99.8 | 0.2 |
| Fíngravetlíngar . . . . | 100.0 | » |
| Vaðmál . . . . . . . | 100.0 | » |
| Bein . . . . . . . . | 100.0 | » |
| Hross, lifandi . . . . . | 11.1 | 88.9 |
| Sauðfè, lifandi . . . . | 100.0 | » |
| Hafurstökur . . . . . | 100.0 | » |

Samjöfnuður þessi sýnir, að af þeim 30 vörutegundum, sem hèr eru taldar, eru það einúngis 5 tegundir, að meir hefir að tiltölu á þessu ári verið flutt af til annara landa en Danmerkur, en

þær eru: saltfiskur, söltuð hrogn, söltuð síld, álptarhamir og lifandi hross. Þar á móti er af öllum hinum vörutegundunum meira flutt til Danmerkur, og þar á meðal 9 vörutegundir eingaungu þángað, nefnilega: rjúpur, tvíbands peisur, eingirnis sokkar, háleistar, fíngravetlíngar, vaðmál, bein, lifandi sauðfè og hafurstökur.

---

Eins og þegar í upphafi var sagt, þá getum vèr ekki skýrt svo nægilega, sem vèr vildum, hið mikilvæga atriði um verðlag bæði á innlendum og útlendum kaupeyri á Íslandi árið 1867, því skýrslur um það efni fyrir það ár hafa einúngis komið frá Reykjavíkur kaupstað og svo frá Vestmannaeyja og Snæfellsness sýslum. En til þess það samt ekki verði sagt, að með öllu hafi verið gengið fram hjá þessu atriði, og þar sem þó mun mega álíta það sem óyggjandi, að verðlagið ekki hafi verið svo fjarska ólíkt í hinum öðrum hèruðum landsins, sem skýrslur ekki eru komnar frá, þá skal hèr taka meðaltöluna af verðlaginu í þessum þrem hèruðum árið 1867, og skal þarhjá til samanburðar setja meðalverðið um allt land á sömu vörutegundum árið 1849.

Á hinum helztu útlendum vörum, sem fluttust til Íslands, var meðalverðlagið á þessum tveim árum þá þannig:

| | árið 1849. | | árið 1867. | |
|---|---|---|---|---|
| | rd. | sk. | rd. | sk. |
| Rúgur, tunna . . . | 7. | » | 10. | 8 |
| Rúgmjöl, — . . . | 7. | » | 10. | 16 |
| Bánkabygg, tunna . . | 9. | 48 | 13. | » |
| Baunir, — . . | 7. | 10 | 11. | 48 |
| Salt, — . . | 3. | 80 | 2. | 24 |
| Steinkol, — . . | 2. | 64 | 2. | 24 |
| Tjara, — . . | 11. | 16 | 11. | 24 |
| Hveitibrauð, pund . . | » | 10 | » | 12 |
| Svartabrauð, — . . | » | 7 | » | 10 |
| Járn, — . . | » | 9 | » | 10 |
| Hampur, — . . | » | 24 | » | 26 |
| Munntóbak, — . . | » | 48 | » | 84 |

| | árið 1849. | | árið 1867. | |
|---|---|---|---|---|
| | rd. | sk. | rd. | sk. |
| Kaffebaunir, pund . . | » | 23 | » | 34 |
| Kandissykur, — . . | » | 23 | » | 24 |
| Púðursykur, — . . . | » | 19 | » | 19 |
| Brennivín, pottar . . | » | 18 | » | 19. |

þar á móti var meðalverðið á innlendum vörum, sem fluttar voru frá Íslandi, á þessa leið:

| | árið 1849. | | árið 1867. | |
|---|---|---|---|---|
| | rd. | sk. | rd. | sk. |
| Saltfiskur, skippund . . . . . | 14. | 42 | 21. | 78 |
| Harður fiskur, — . . . . . | 12. | 48 | 30. | » |
| Lýsi, tunna . . . . . . . . . | 17. | 48 | 23. | 48 |
| Saltað kjöt, lísipund . . . . . | » | 70 | 1. | 24 |
| Söltuð sauðskinn, hvert . . . . | » | 52 | 1. | 8 |
| Lambskinn, hvert . . . . . . . | » | 7 | » | 7 |
| Tóubelgir, hver . . . . . . . | 1. | 68 | 3. | 33 |
| Álptarhamir, — . . . . . . . | » | 36 | » | 56 |
| Tólg, pund . . . . . . . . | » | 16 | » | 20 |
| Æðardún, — . . . . . . . . | 2. | 86 | 5. | 48 |
| Fiður, — . . . . . . . . . | » | 24 | » | 34 |
| Hvít ull, — . . . . . . . . . | » | 17 | » | 31 |
| Mislit ull, — . . . . . . . . | » | 14 | » | 24 |
| Peisur eingirnis, hver . . . . | » | 60 | » | » |
| — tvíbands, — . . . . | » | 80 | » | » |
| Sokkar eingirnis, par . . . . | » | 18 | » | » |
| — tvíbands, — . . . . . . . | » | 28 | » | » |
| Sjóvetlíngar, — . . . . . . | » | 7 | » | 7 |
| Vaðmál, alin . . . . . . . . | » | 31 | » | » |
| Söltuð hrogn, tunna . . . . . | 5. | » | 8. | ». |

þess ber fyrst að geta, að í verðlaginu yfir útfluttar vörur er ekki fyrir árið 1867 talið tóvinna af ullu, og kemur það af því, að þessi kaupeyrir að kalla má eingaungu er fluttur frá Norður- og Austur-umdæmi landsins, en þaðan höfum vèr, eins og áður er á

vikið, engar skýrslur um verðlag fyrir nefnt ár. Að öðru leyti sýna yfirlit þessi strax við fyrstu skoðun, að þó verðlagið árið 1867 hafi verið töluvert hærra en árið 1849 á nær því öllum útlendum varníngi, þeim sem hèr er talinn, þá hefir þó á hinn bóginn verðlagið á innlendri vöru hækkað töluvert meir að tiltölu um hið sama tímabil, en þó hvergi nærri eins mikið og á tímabilinu frá 1849 til 1866 (smbr. IV., bls. 397 og 398). Af þessu má ráða, að þó verðlagið árið 1867 ekki sè með öllu óyggjandi fyrir allt land, eins og áður hefir verið þegar á drepið, þá mun þó mega fullyrða, að verzlunin á Íslandi hafi þetta ár verið töluvert ábatameiri fyrir landsmenn en hún var árið 1849. þessu til frekari skýríngar skal hèr sýna, hversu mikið verðlagið á sèrhverri vörutegund hafi hækkað eða lækkað að tiltölu eða af hundraði á tímabilinu frá 1849 til 1866, þegar það að öðru leyti er talið á báðum þessum árum, og er merkið (÷) sett þar sem lækkað hefir, en ekkert merki þar sem hækkað hefir.

Verðlagið á útlendum vörum hefir þá hækkað eða lækkað á þenna hátt:

| | af 100. |
|---|---|
| Rúgur | 44.0 |
| Rúgmjöl | 45.2 |
| Bánkabygg | 36.8 |
| Baunir | 61.9 |
| Salt | ÷ 41.3 |
| Steinkol | ÷ 15.6 |
| Tjara | 0.7 |
| Hveitibrauð | 20.0 |
| Svartabrauð | 42.9 |
| Járn | 11.1 |
| Hampur | 8.3 |
| Munntóbak | 75.0 |
| Kaffebaunir | 47.8 |
| Kandissykur | 4.3 |
| Púðursykur | 0.0 |
| Brennivín | 5.6. |

En aptur á hinn bóginn hefir verðlagið á innlendum vörum hækkað á þessa leið:

| | af 100. |
|---|---|
| Saltfiskur | 51. 1 |
| Harður fiskur | 140. 3 |
| Lýsi | 34. 2 |
| Saltað kjöt | 71. 4 |
| Söltuð sauðskinn | 100. 0 |
| Lambskinn | 0. 0 |
| Tóubelgir | 95. 7 |
| Álptarhamir | 55. 5 |
| Tólg | 25. 0 |
| Æðardún | 89. 9 |
| Fiður | 41. 7 |
| Hvít ull | 82. 4 |
| Mislit ull | 71. 4 |
| Sjóvetlíngar | 0. 0 |
| Söltuð hrogn | 60. 0. |

Bæði þessi yfirlit sýna hið sama og nú þegar hefir verið sagt, nefnilega að verzlunin hefir verið töluvert ábatameiri fyrir landsmenn árið 1867 en hún var árið 1849; því þar sem hækkunin á verðlaginu á útlendum varníngi, þar sem hún hefir verið mest, nefnilega á munntóbaki, einúngis hefir verið 75. 0 af hundraði, þá hefir verðlagshækkunin aptur á móti á innlendri vöru verið miklu meiri á velflestum vörutegundum, einkum á hörðum fiski, sem hefir hækkað um 140. 3 af hundraði, eða nær því tvöfalt meira en hitt. Ennþá betur lætur þetta sig samt í ljósi, ef maður ber verðlagið saman á þessum tveim árum á þann hátt, að maður skoðar hve mikið af hinum helztu útlendu vörutegundum hafi fengizt fyrir hinar helztu útlendu vörur, nefnilega saltfisk, lýsi, tólg og hvíta ull; gjöri maður nú þetta, þá telst svo til, að fengizt hafi móti:

en á tímabilinu 1856—1860 eru eptir þessu að meðaltali árlega fæddir tals 2660 eða 399 af 10,000 landsmanna, og á tímabilinu 1861—1867 tals 2688 eða 397 af 10,000.

það gefur samt að skilja, að í þessu hlýtur að sýna sig býsna mikill munur í hèruðum landsins, og skal því hèr segja frá fæddum á síðustu tveim árunum 1866 og 1867 í hverri sýslu og í hverju umdæmi á landinu, og svo bera það saman við fólkstöluna í árslokin 1865 og 1866. Skýrsla þessi verður þá þannig:

| | Fólkstala | | Fæddir | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | við árslokin 1865. | við árslokin 1866. | 1866. | | 1867. | |
| | | | tals. | af 100. | tals. | af 100. |
| Skaptafells sýsla | 3701 | 3690 | 132 | 3.6 | 131 | 3.6 |
| Vestmannaeyja | 509 | 489 | 14 | 2.8 | 16 | 3.3 |
| Rángárvalla | 5383 | 5382 | 204 | 3.8 | 214 | 4.0 |
| Árness | 5778 | 5721 | 207 | 3.6 | 247 | 4.4 |
| Gullbríngu- og Kjósar | 5075 | 4995 | 197 | 3.9 | 199 | 4.0 |
| Reykjavíkur bær | 1478 | 1461 | 55 | 3.7 | 60 | 4.1 |
| Borgarfjarðar sýsla | 2403 | 2380 | 103 | 4.3 | 115 | 4.8 |
| Mýra- og Hnappadals | 2802 | 2763 | 115 | 4.1 | 107 | 3.9 |
| Snæfellsness | 2813 | 2729 | 102 | 3.6 | 105 | 3.8 |
| Dala | 2278 | 2258 | 103 | 4.5 | 85 | 3.8 |
| Barðastrandar | 2705 | 2716 | 92 | 3.4 | 95 | 3.5 |
| Ísafjarðar | 4797 | 4749 | 181 | 3.8 | 179 | 3.8 |
| Stranda | 1659 | 1630 | 74 | 4.5 | 76 | 4.7 |
| Húnavatns | 4867 | 4916 | 234 | 4.8 | 216 | 4.4 |
| Skagafjarðar | 4419 | 4426 | 217 | 4.9 | 209 | 4.7 |
| Eyjafjarðar | 4714 | 4738 | 171 | 3.6 | 192 | 4.1 |
| Þingeyjar | 5749 | 5713 | 170 | 3.0 | 210 | 3.7 |
| Norður-Múla | 4118 | 4065 | 160 | 3.9 | 159 | 3.9 |
| Suður-Múla | 3493 | 3487 | 131 | 3.7 | 128 | 3.7 |
| Suður-umdæmið | 24327 | 24118 | 912 | 3.7 | 982 | 4.1 |
| Vestur-umdæmið | 17054 | 16845 | 667 | 3 9 | 647 | 3.8 |
| Norður- og Austur-umdæmið | 27366 | 27345 | 1083 | 4.0 | 1114 | 4.1 |
| á öllu Íslandi | 68741 | 68308 | 2662 | 3.9 | 2743 | 4.0 |

Skýrsla þessi sýnir þá í fyrsta lagi, að árið 1866 hafa að tiltölu við fólkstöluna flestir verið fæddir í Skagafjarðar sýslu og þá í Húnavatns sýslu, en fæstir í Vestmannaeyja sýslu og þá í þíngeyjar sýslu. En aptur á hinn bóginn hafa árið 1867 flestir að tiltölu verið fæddir í Borgarfjarðar sýslu og þá í Stranda og Skagafjarðar sýslum, en fæstir í Vestmannaeyja sýslu og þá í Barðastrandar sýslu. þessu næst kemur það einnig fram, þegar menn bera saman sín á milli þau tvö ár, sem um er getið í þessari skýrslu, að árið 1867 hafa að tiltölu verið fleiri fæddir en árið 1866 í 11 sýslum, færri í 4 sýslum, og jafnmargir einnig í 4 sýslum. Mestur munurinn í þessu tilliti á þessum tveim árum, þar sem hann að öðru leyti er nokkur, er í Árness sýslu og þá í Dala og þíngeyjar sýslum, en minnstur er hann í Gullbríngu- og Kjósar og Barðastrandar sýslum, og þá í Rángárvalla og fleiri sýslum.

2. Getnaðarháttur fæddra. Árið 1867 eru á Íslandi fædd 2286 skilgetin og 457 óskilgetin börn. Á þessu ári er því 1 barn óskilgetið fædt af 6.0 fæddum börnum, eða 10 börn óskilgetin af 60 fæddum. þetta er að tiltölu að vísu nokkuð minna en næst undanfarið ár, en þó töluvert meira en þau 5 árin 1861—1865, (smbr. II., bls. 584, III., bls. 210, 380, 630 og 738, og IV., bls. 148 og 426). Hið sama lætur sig einnig í ljósi, þó öðruvísi sé talið, því af 100 fæddum börnum voru:

| | skilgetin. | óskilgetin. |
|---|---|---|
| árið 1856 . . . . . . . . | 86.6 | 13.4 |
| — 1857 . . . . . . . . | 85.3 | 14.7 |
| — 1858 . . . . . . . . | 84.7 | 15.3 |
| — 1859 . . . . . . . . | 85.6 | 14.4 |
| — 1860 . . . . . . . . | 86.7 | 13.3 |
| — 1861 . . . . . . . . | 86.9 | 13.1 |
| — 1862 . . . . . . . . | 86.3 | 13.7 |
| — 1863 . . . . . . . . | 85.8 | 14.2 |
| — 1864 . . . . . . . . | 84.6 | 15.4 |
| — 1865 . . . . . . . . | 84.9 | 15.1 |
| — 1866 . . . . . . . . | 82.3 | 17.7 |
| — 1867 . . . . . . . . | 83.3 | 16.7; |

og eru þá eptir þessu á tímabilinu 1856—1860 að meðaltali af 100 fæddum börnum árlega fædd 85.8 skilgetin og 14.2 óskilgetin, en á tímabilinu 1861—1867 er meðaltalan á ári 84.9 skilgetin og 15.1 óskilgetin; á tímabilinu 1850—1855 var hlutfall þetta að meðaltali á ári 85.6 skilgetin og 14.4 óskilgetin (smbr. I., bls. 371).

Að öðru leyti gefur það að skilja, eins og einnig skýrslan A. 1. hèr að framan ber með sèr, að hlutfallið milli tölu skilgetinna barna og óskilgetinna hlýtur að vera býsna misjafnt í hinum sèrstöku hèruðum landsins, og sýnir það sig þá nefnilega, að af hverju 100 fæddra barna voru árið 1867 í:

| | skilgetin. | óskilgetin. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . | 90.8 | 9.2 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 81.2 | 18.8 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 76.2 | 23.8 |
| Árness s. . . . . . . . | 78.9 | 21.1 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . | 85.0 | 15.0 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . | 75.0 | 25.0 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . | 86.1 | 13.9 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 85.0 | 15.0 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 83.8 | 16.2 |
| Dala s. . . . . . . . | 84.7 | 15.3 |
| Barðastrandar s. . . . . | 86.3 | 13.7 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 86.0 | 14.0 |
| Stranda s. . . . . . . | 71.1 | 28.9 |
| Húnavatns s. . . . . . | 75.5 | 24.5 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 81.3 | 18.7 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . | 88.5 | 11.5 |
| þíngeyjar s. . . . . . . | 91.4 | 8.6 |
| Norður-Múla s. . . . . . | 87.4 | 12.6 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 84.4 | 15.6 |
| Suður-umdæminu . . . . | 81.8 | 18.2 |
| Vestur-umdæminu . . . . | 83.6 | 16.4 |
| Norður- og Austur-umd. . | 84.6 | 15.4. |

Af þessu yfirliti geta menn glögglega sèð, hvílíkur munur er á þessu í hèruðum landsins, og lætur það sig þá í ljósi, að árið 1867 hafa flest óskilgetin börn að tiltölu fæðzt í Stranda sýslu (nær því þriði hluti allra fæddra) og þá í Reykjavíkur bæ (rèttur fjórði hluti); en fæst hafa þau aptur á móti að tiltölu verið í Þíngeyjar sýslu (rúmur tólfti hluti) og þá í Skaptafells sýslu (hèrumbil ellefti hluti þar fæddra).

3. Kyn fæddra. Á Íslandi fæddust árið 1867 alls 1407 sveinbörn og 1336 meybörn, og er því af hverju 100 nýfæddra barna á Íslandi á þessu ári 51.3 sveinbörn og 48.7 meybörn, eður tiltala fæddra meyja við sveina er sem 1000 : 1053. Munurinn á þessu er því næsta líkur því, sem hann hefir verið næst undanfarin 11 ár, að árinu 1865 þó fráskildu, eins og nú skal sýnt. Hlutfallið hefir nefnilega á þessum árum verið þannig:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| árið | 1856 . . . | 1000 | meyjar, | 1035 | sveinbörn |
| — | 1857 . . . | 1000 | — , | 1029 | — |
| — | 1858 . . . | 1000 | — , | 1007 | — |
| — | 1859 . . . | 1000 | — , | 1013 | — |
| — | 1860 . . . | 1000 | — , | 1040 | — |
| — | 1861 . . . | 1000 | — , | 1025 | — |
| — | 1862 . . . | 1000 | — , | 1028 | — |
| — | 1863 . . . | 1000 | — , | 1066 | — |
| — | 1864 . . . | 1000 | — , | 1028 | — |
| — | 1865 . . . | 1000 | — , | 1154 | — |
| — | 1866 . . . | 1000 | — , | 1052 | — |
| — | 1867 . . . | 1000 | — , | 1053 | —. |

Hlutfall þetta hlýtur þó að vera töluvert ólíkt í hèruðum landsins, og það sýnir sig einnig að það hafi átt sèr stað árið 1867, því á þessu ári sýnir það sig, að tiltals við 1000 meyjar fæddust í:

| | | |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . . . | 1183 | sveinar |
| Vestmannaeyja s. . . . . . . . | 778 | — |
| Rángárvalla s. . . . . . . . . | 1058 | — |
| Árness s. . . . . . . . . . . | 1129 | — |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . . | 951 | — |
| Reykjavíkur bæ . . . . . . . | 1308 | — |

| | | |
|---|---|---|
| Borgarfjarðar sýslu . . . . . . | 1212 | sveinar |
| Mýra og Hnappadals s. . . . . | 877 | — |
| Snæfellsness s. . . . . . . . . | 1100 | — |
| Dala s. . . . . . . . . . . . | 889 | — |
| Barðastrandar s. . . . . . . . | 1159 | — |
| Ísafjarðar s. . . . . . . . . . | 1011 | — |
| Stranda s. . . . . . . . . . . | 1000 | — |
| Húnavatns s. . . . . . . . . | 1182 | — |
| Skagafjarðar s. . . . . . . . | 935 | — |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . . . | 979 | — |
| þíngeyjar s. . . . . . . . . . | 1283 | — |
| Norður-Múla s. . . . . . . . | 656 | — |
| Suður-Múla s. . . . . . . . . | 1462 | — |
| Suður-umdæminu . . . . . . . | 1094 | — |
| Vestur-umdæminu . . . . . . . | 1003 | — |
| Norður- og Austur-umd. . . . | 1048 | —. |

Yfirlit þetta sýnir, að þar sem á þessu ári í einni sýslu hafa fæðzt jafnmargir sveinar og meyjar, nefnilega í Stranda sýslu, þá hafa fæðzt fleiri sveinar en meyjar í 11 sýslum, og er munurinn á þessu hlutfalli mestur í Suður-Múla sýslu, en minnstur í Ísafjarðar sýslu. Aptur á móti hafa á sama ári fæðzt fleiri meyjar en sveinar í 7 sýslum, og er mestur munur á þessu hlutfalli í Norður-Múla sýslu, en minnstur í Eyjafjarðar sýslu.

Nokkuð á annan veg, en nú hefir verið sýnt, er þar á móti kynferði fæddra barna eptir getnaðarhætti, því árið 1867 fæddust börn:

| | skilgetin | | óskilgetin | |
|---|---|---|---|---|
| | sveinar | meyjar | sveinar | meyjar |
| samtals . . . | 1160 | 1126 | 247 | 210 |
| tiltals . . . . | 1030 | 1000 | 1176 | 1000. |

Eptir þessu eru árið 1867 af óskilgetnum börnum fædd miklu fleiri sveinbörn að tiltölu við meybörn en af skilgetnum, og er það öldúngis eins og næst undanfarið ár (smbr. IV., bls. 429).

4. Líf barna. Árið 1867 fæddust á Íslandi 2668 börn með lífi, en 75 andvana, og eru þá 2.76 andvana borin af hverju 100 nýfæddra barna. Hlutfall þetta sýnir, að nokkuð færri börn hafa andvana fæðzt að tiltölu á þessu ári en næst undanfarin tvö ár 1865 og 1866 (smbr. IV., bls. 151 og 430).

það gefur samt að skilja, að hlutfall þetta hlýtur að vera æði ólíkt í hèruðum landsins, og það kemur þá einnig fram, að árið 1867 voru af hverju 100 nýfæddra barna andvana borin í:

| | |
|---|---|
| Skaptafells sýslu | 0.8 |
| Vestmannaeyja s. | 6.2 |
| Rángárvalla s. | 3.3 |
| Árness s. | 4.1 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. | 4.5 |
| Reykjavíkur bæ | 1.7 |
| Borgarfjarðar s. | 1.7 |
| Mýra- og Hnappadals s. | 1.9 |
| Snæfellsness s. | 3.8 |
| Dala s. | 2.4 |
| Barðastrandar s. | 4.2 |
| Ísafjarðar s. | 2.8 |
| Stranda s. | 1.3 |
| Húnavatns s. | 1.9 |
| Skagafjarðar s. | 2.9 |
| Eyjafjarðar s. | 2.6 |
| þíngeyjar | 0.0 |
| Norður-Múla s. | 4.4 |
| Suður-Múla s. | 3.1 |
| Suður-umdæminu | 3.2 |
| Vestur-umdæminu | 2.8 |
| Norður- og Austur-umd. | 2.3. |

þegar þíngeyjar sýsla er fráskilin, hvar árið 1867 ekkert barn hefir fæðzt andvana, þá sýnir yfirlit þetta, að á sama ári hafa að tiltölu flest andvana börn verið fædd í Vestmannaeyja sýslu (eins og árið 1866) og þá í Gullbríngu- og Kjósar sýslu (árið 1866 í

Borgarfjarðar sýslu); en fæst eru þau á sama ári í Skaptafells sýslu (árið 1866 í Húnavatns sýslu) og þá í Stranda sýslu.

Aptur á hinn bóginn eru af hverju 1000 nýfæddra skilgetinna barna árið 1867 borin 21.7 andvana, og af hverju 1000 nýfæddra barna óskilgetinna eru á sama ári borin 32.8 andvana. Sýnir þetta meðal annars hið sama, sem optar hefir verið sagt, nefnilega að fleiri óskilgetin börn að tiltölu fæðast andvana hèr á landi en skilgetin, og er munurinn á þessu mjög líkur og hann hefir verið undanfarin ár, að árinu 1866 fráskildu (smbr. III., bls. 740 og IV., bls. 152 og 431). Þetta sama lætur sig einnig í ljósi, þegar maður skoðar lifandi og andvana fædd börn á þessu ári eptir getnaðarhætti þeirra. Árið 1867 eru nefnilega fædd börn:

| | skilgetin | | óskilgetin | |
|---|---|---|---|---|
| | með lífi | andvana | með lífi | andvana |
| samtals . . . | 2226 | 60 | 442 | 15 |
| tiltals . . . | 1000 | 22.5 | 1000 | 33.9; |

eptir getnaðarhætti og kyni eru á sama ári fædd börn:

| | skilgetin | | | | óskilgetin | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | sveinar | | meyjar | | sveinar | | meyjar | |
| | með lífi | andv. | með lífi | andv. | með lífi | andv. | með lífi | andv. |
| samtals . | 1136 | 24 | 1090 | 36 | 241 | 6 | 201 | 9 |
| tiltals . | 1000 | 21.1 | 1000 | 33.0 | 1000 | 24.9 | 1000 | 44.8. |

Hlutföll þessi eru nokkuð ólík því, sem var næst undanfarið ár, og er það einkum athugavert, að þá voru fleiri sveinbörn en meybörn að tiltölu fædd andvana, bæði skilgetin og óskilgetin (smbr. IV., bls. 431), en árið 1867 á það gagnstæða sèr stað.

5. Fæðíngartíð barna. Um þetta atriði kemur hið sama fram á þessu ári, með fáeinum undantekníngum, sem um það hefir verið sagt að undanförnu. Vèr látum oss því hèr nægja að setja fæðíngartíðaskrá skilgetinna barna og brullaupstíðaskrá hjóna árið 1867, og er því að öllu leyti hagað á sama hátt og áður hefir verið gjört; en skýrslurnar eru þessar:

## Fæðíngartíðaskrá skilgetinna barna árið 1867.

| mánuðir. | samtals | leiðrétt samtala | af 1000 skilgetinna barna |
|---|---|---|---|
| janúar | 126 | 126 | 54 |
| febrúar | 87 | 93 | 40 |
| marz | 68 | 68 | 29 |
| apríl | 140 | 145 | 63 |
| maí | 191 | 191 | 82 |
| júní | 252 | 260 | 112 |
| júlí | 261 | 261 | 112 |
| ágúst | 283 | 283 | 122 |
| september | 269 | 279 | 120 |
| október | 242 | 242 | 105 |
| nóvember | 194 | 200 | 86 |
| desember | 173 | 173 | 75 |
| samtals . . . | 2286 | 2321 | 1000 |

## Brullaupstíðaskrá hjóna árið 1867.

| mánuðir. | samtals | leiðrétt samtala | getnaðartíð skilgetinna barna |
|---|---|---|---|
| janúar | 1 | 1 | 105 |
| febrúar | 4 | 4 | 86 |
| marz | » | » | 75 |
| apríl | 1 | 1 | 54 |
| maí | 13 | 13 | 40 |
| júní | 35 | 36 | 29 |
| júlí | 50 | 50 | 63 |
| ágúst | 11 | 11 | 82 |
| september | 37 | 38 | 112 |
| október | 159 | 159 | 112 |
| nóvember | 81 | 84 | 122 |
| desember | 20 | 20 | 120 |
| samtals . . . | 412 | 417 | 1000 |

6. **Fæðíngarstaður barna.** Í skýrslunni B. 3 er skýrt frá, hversu mörg börn skilgetin og óskilgetin sè fædd í hverjum mánuði og í hverju prófastsdæmi og umdæmi í landinu árið 1867. Þetta atriði er þó hvergi nærri skýrt svo nægilega sem ákjósanlegt væri,

því ekki hefir verið skýrt frá frjósemi giptra kvenna eða ógiptra; en eins og áður hefir verið sagt, þá er ekki hægt að skýra þetta atriði að fullu nema á árum þeim, þegar almenn fólkstala er tekin í landinu, því til þessa útheimtist, að menn þekki tölu giptra og ógiptra kvenna á frjóum aldri, og höfum vèr því hèr orðið að gánga frambjá þessu.

7. Burður barna. Árið 1867 eru fæddir 46 tvíburar og 2 þríburar á Íslandi, og eru það alls 48 fleirburar. Á þessu sama ári fæddust alls 2743 börn, og er því 57. hver barnsburður fleirburi, eða 17 fleirburar koma á 1000 fæðínga. Á þessu ári hafa því að tiltölu nokkuð fleiri fleirburar fæðzt undangengið ár, og jafnvel fleiri en þeir hafa verið að meðaltali um 6 ára bilið 1850—1855 (smbr. I., bls. 376, III.; bls. 633 og 743, og IV., bls. 155 og 433).

8. Aldur mæðranna. Atriði þetta snertir einnig fæðíngar, og er sagt frá því í skýrslunni A. 2 hèr að framan og þar talin hver aldursfimt. Til þess samt að skýra þetta atriði betur, skal hèr sýna hlutfall það, sem í þessu tilliti er milli aldursflokkanna, og kemur það þá fram, að af hverju 100 mæðra, sem ólu börn á Íslandi árið 1867, voru á aldrinum:

| | |
|---|---|
| milli 15 og 20 ára . . . . . . . . . | 1.3 |
| — 20 - 25 — . . . . . . . . . | 10.1 |
| — 25 - 30 — . . . . . . . . . | 24.6 |
| — 30 - 35 — . . . . . . . . . | 28.6 |
| — 35 - 40 — . . . . . . . . . | 24.7 |
| — 40 - 45 — . . . . . . . . . | 9.7 |
| — 45 - 50 — . . . . . . . . . | 1.0 |
| yfir 50 ára . . . . . . . . . . . . | ». |

Hlutföll þessi eru næsta lík því, sem þau voru næst undanfarin þrjú ár (smbr. III., bls. 743; IV., bls. 156 og 433) og lætur það sig í ljósi, að flestar hafa mæður barna á ári því, sem hèr ræðir um, verið á aldursfimtinni milli 30 og 35 ára, nefnilega nær því þrír tíundu hlutar þeirra, og svo þar næst á aldursfimtunum milli 25 og 30 og milli 35 og 40 ára. Eptir hlutarins eðli hljóta

hlutföll þessi samt að verða nokkuð á annan veg eptir getnaðarhætti barna, því á þessu sama ári voru af hverju 100:

| | mæðra skilgetinna barna. | mæðra óskilgetinna barna. |
|---|---|---|
| milli 15 og 20 ára . . . | 0.6 | 4.4 |
| — 20 - 25 — . . . | 8.1 | 20.2 |
| — 25 - 30 — . . . | 23.3 | 30.7 |
| — 30 - 35 — . . . | 29.3 | 24.8 |
| — 35 - 40 — . . . | 27.1 | 13.3 |
| — 40 - 45 — . . . | 10.5 | 5.9 |
| — 45 - 50 — . . . | 1.1 | 0.7 |
| yfir 50 ára . . . . . . . | » | ». |

Eptir þessu lætur það sig þá í ljósi, að mæður óskilgetinna barna á þessu ári, eins og næst undanfarin þrjú ár, hafa að tiltölu verið fleiri á ýngra aldri en mæður skilgetinna barna; því þar sem giptar konur, sem alið hafa börn, á þessu ári einúngis hafa verið tiltals 8.7 af hundraði á aldrinum fyrir innan 25 ára, þá hefir tiltala ógiptra kvenna, sem á sama aldri hafa alið börn, verið 24.6 af hundraði, eða nær því þrefalt fleiri að tiltölu. Flestar hafa mæður skilgetinna barna á þessu ári að tiltölu verið á aldrinum milli 30 og 35 ára, en mæður óskilgetinna barna hafa á sama ári verið flestar að tiltölu á aldrinum milli 25 og 30 ára.

## II. UM KVONFÖNG.

1. Fjöldi brúðhjóna. Árið 1867 var gefin saman alls 412 hjón á öllu Íslandi, og hafa því kvonföng á þessu ári að tölunni til verið nokkru færri en næst undanfarið ár 1866, og jafnvel færri en eptir meðaltali um 6 ára bilið 1850—1855 (smbr. I., bls. 379 og IV., bls. 434). Sama kemur einnig fram, þegar þetta er skoðað að tiltölu við fólksfjöldann, því sè tala hjóna á árinu 1867 borin saman við fólkstölu þá, sem taldist að vera í landinu við árslokin 1866, þá koma á þessu ári ein hjón á 166 landsmanna. Til þess samt að hafa hægra yfirlit yfir það sem hèr hefir verið sagt, skal

nú sýna hlutfall það, sem verið hefir milli kvonfánga og fólkstölunnar á þeim 12 árum 1856—1867, og koma þá:

| | ein hjón á landsmenn. |
|---|---|
| árið 1856 | 119 |
| — 1857 | 124 |
| — 1858 | 137 |
| — 1859 | 167 |
| — 1860 | 162 |
| — 1861 | 144 |
| — 1862 | 159 |
| — 1863 | 152 |
| — 1864 | 133 |
| — 1865 | 162 |
| — 1866 | 159 |
| — 1867 | 166. |

Eptir eðli sínu gefur það samt að skilja, að æði mikill munur hlýtur að sýna sig í þessu atriði í hinum sèrstöku hèruðum landsins, því beri maður tölu kvonfánga árið 1867 í hverri sýslu og í hverju umdæmi saman við fólkstöluna í þeim um árslokin 1866, þá kemur það fram, að af giptíngum árið 1867 voru í:

| | ein hjón á landsmenn. |
|---|---|
| Skaptafells sýslu | 185 |
| Vestmannaeyja s. | 98 |
| Rángárvalla s. | 192 |
| Árness s. | 136 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. | 167 |
| Reykjavíkur bæ | 122 |
| Borgarfjarðar s. | 149 |
| Mýra- og Hnappadals s. | 102 |
| Snæfellsness s. | 171 |
| Dala s. | 125 |
| Barðastrandar s. | 226 |
| Ísafjarðar s. | 170 |

| | ein hjón á landsmenn. |
|---|---|
| Stranda sýslu | 148 |
| Húnavatns s. | 182 |
| Skagafjarðar s. | 246 |
| Eyjafjarðar s. | 197 |
| þíngeyjar s. | 179 |
| Norður-Múla s. | 120 |
| Suður-Múla s. | 291 |
| Suður-umdæminu | 158 |
| Vestur-umdæminu | 150 |
| Norður- og Austur-umd. | 186. |

Samkvæmt yfirliti þessu hafa þá giptíngar árið 1867 að tiltölu við fólkstöluna verið flestar í Vestmannaeyja sýslu og þá í Mýra- og Hnappadals sýslu (árið 1866 í Reykjavíkur bæ og í Stranda sýslu), en fæstar hafa þær verið í Suður-Múla sýslu og þá í Skagafjarðar sýslu (árið 1866 í Rángárvalla sýslu og í Snæfellsness sýslu).

2. Kyn brúðhjóna. það liggur að vísu í eðli hlutarins, að á ári hverju giptast alls eins margar konur og karlar kvongast, en tiltals, eða í samanburði við tölu kvenna og karla á giptínga aldri, hlýtur þetta þar á móti að verða töluvert á annan veg. En þar ekki verður komizt að rèttri niðurstöðu í þessu efni nema á þeim árum, þegar almenn fólkstala er tekin í landinu, þá verðum vèr að sleppa því hèr, að útlista þetta atriði nákvæmar.

3. Hjúskaparstètt brúðhjóna. Skýrslan B. 2 hèr að framan skýrir nákvæmlega frá, hversu margir ýngissveinar, ekklar og fráskildir kvonguðust árið 1867, og sömuleiðis hversu margir úr hverjum flokki um sig áttu ýngisstúlkur, ekkjur eða fráskildar konur.

Fyrst ætti hèr að taka það atriði til íhugunar, hversu margir karlar á þessu ári kvonguðust og hversu margar konur giptust úr hverjum flokki um sig, eptir rèttri tiltölu við tölu fólks á giptínga aldri; en af ástæðum þeim, sem þegar hefir veri skýrt frá, verðum vèr í þetta skipti að sleppa þessu atriði.

Þá er þessu næst að skoða, hvort árið 1867 hafi í samanburði við næst undanfarin 11 ár kvongazt fleiri ýngismenn að sínu leyti en ekklar, og slíkt hið sama um ýngismeyjar og ekkjur. Þegar nú í þessum samanburði fráskildir menn eru taldir með ekklum, og fráskildar konur sömuleiðis taldar með ekkjum, þá kemur það fram, að af hjónum þeim, sem gefin hafa verið saman á Íslandi á þessum 12 árum, voru:

| | af brúðgumum. | | af brúðum. | |
|---|---|---|---|---|
| | piltar. | ekklar. | stúlkur. | ekkjur. |
| árið 1856 . . . . . | 481 | 63 | 504 | 40 |
| — 1857 . . . . . | 478 | 53 | 486 | 45 |
| — 1858 . . . . . | 440 | 47 | 447 | 40 |
| — 1859 . . . . . | 366 | 40 | 363 | 43 |
| — 1860 . . . . . | 375 | 43 | 377 | 44 |
| — 1861 . . . . . | 400 | 64 | 395 | 69 |
| — 1862 . . . . . | 368 | 52 | 379 | 41 |
| — 1863 . . . . . | 370 | 69 | 373 | 66 |
| — 1864 . . . . . | 440 | 67 | 426 | 81 |
| — 1865 . . . . . | 371 | 50 | 367 | 54 |
| — 1866 . . . . . | 373 | 58 | 382 | 49 |
| — 1867 . . . . . | 359 | 53 | 354 | 58; |

og hafa því verið:

| | af 100 brúðguma. | | af 100 brúða. | |
|---|---|---|---|---|
| | piltar. | ekklar. | stúlkur. | ekkjur. |
| árið 1856 . . . . | 88.4 | 11.6 | 92.6 | 7.4 |
| — 1857 . . . . | 90.0 | 10.0 | 91.5 | 8.5 |
| — 1858 . . . . | 90.3 | 9.7 | 91.8 | 8.2 |
| — 1859 . . . . | 90.0 | 10.0 | 91.5 | 8.5 |
| — 1860 . . . . | 89.7 | 10.3 | 89.5 | 10.5 |
| — 1861 . . . . | 86.2 | 13.8 | 85.1 | 14.9 |
| — 1862 . . . . | 87.6 | 12.4 | 90.2 | 9.8 |
| — 1863 . . . . | 84.3 | 15.7 | 85.0 | 15.0 |
| — 1864 . . . . | 86.8 | 13.2 | 84.0 | 16.0 |
| — 1865 . . . . | 88.1 | 11.9 | 87.2 | 12.8 |
| — 1866 . . . . | 86.5 | 13.5 | 88.6 | 11.4 |
| — 1867 . . . . | 87.1 | 12.9 | 85.9 | 14.1. |

Af þessu má sjá, að hlutfall þetta, hvað karlmenn snertir, er nokkuð líkt á þessum árum, að fráskildu þó einkum árinu 1863, því þá eru flestir ekklar giptir að tiltölu, en fæstir 1858. Aptur á hinn bóginn er meiri munur á þessu hvað konur snertir, og hafa ekkjur giptzt lángflestar árið 1864, og jafnvel rúmum helmíngi fleiri að tiltölu en árið 1856; þá giptust þær fæstar.

Skoði maður loks hvernig fólk hefir giptzt saman á þessum hinum sömu árum, sem að ofan eru talin, þá verður einnig líkt ofaná, því það kemur þá fram, að af 100 brúðhjóna á þessu ári áttu:

| | ýngissveinar | | ekklar | |
|---|---|---|---|---|
| | ýngismeyjar. | ekkjur. | ýngismeyjar. | ekkjur. |
| árið 1856 . . . . | 84.4 | 4.0 | 8.3 | 3.3 |
| — 1857 . . . . | 82.9 | 7.2 | 8.6 | 1.3 |
| — 1858 . . . . | 84.6 | 5.7 | 7.2 | 2.5 |
| — 1859 . . . . | 81.8 | 8.4 | 7.4 | 2.4 |
| — 1860 . . . . | 81.8 | 7.9 | 7.7 | 2.6 |
| — 1861 . . . . | 75.2 | 11.0 | 9.9 | 3.9 |
| — 1862 . . . . | 79.3 | 8.3 | 11.0 | 1.4 |
| — 1863 . . . . | 73.1 | 11.2 | 11.8 | 3.9 |
| — 1864 . . . . | 75.7 | 11.1 | 8.3 | 4.9 |
| — 1865 . . . . | 78.9 | 8.3 | 8.3 | 3.5 |
| — 1866 . . . . | 78.2 | 8.4 | 10.4 | 3.0 |
| — 1867 . . . . | 76.9 | 10.2 | 9.0 | 3.9. |

4. Aldur brúðhjóna. Frá þessu atriði er sagt í skýrslunni B. 1 hèr að framan, og segir þar hversu mörg hjón hafi verið gefin saman árið 1867 í landinu á hverri aldursfimt. Af skýrslu þessari má fyrst finna aldursmun brúðhjóna, það er að skilja: hversu margir brúðgumar á þessu ári hafi verið ýngri, jafngamlir eður eldri en brúðurin, og á hinn bóginn: hversu margar brúðir hafa verið ýngri, jafngamlar eður eldri en brúðgumarnir. Þá má af henni einnig finna aldurstiltölu brúðhjóna á fjórum aldursbilum, og loks geta menn einnig af henni fundið hið rètta miseldri hjóna. Þessar þrjár skýrslur, sem nú hafa verið nefndar, verða fyrir árið 1867 á þessa leið:

## Aldursmunur brúðhjóna.

| | brúðgumar. | brúðir. | brúðgumar. yngri | brúðgumar. jafngamlir | brúðgumar. eldri | brúðir. yngri | brúðir. jafngamlar | brúðir. eldri |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| fyrir innan 20 ára. | 55 | 11 | 39 | 14 | 2 | 11 | | » |
| milli 20 og 25. . . | | 85 | | | | 71 | 14 | |
| — 25 - 30. . . | 152 | 129 | 54 | 56 | 42 | 48 | 56 | 25 |
| — 30 - 35. . . | 104 | 96 | 25 | 30 | 49 | 23 | 30 | 43 |
| — 35 - 40. . . | 60 | 49 | 9 | 12 | 39 | 7 | 12 | 30 |
| — 40 - 45. . . | 16 | 20 | 1 | 1 | 14 | 4 | 1 | 15 |
| — 45 - 50. . . | 10 | 12 | 2 | 1 | 7 | 1 | 1 | 10 |
| — 50 - 55. . . | 5 | 6 | » | » | 5 | 1 | » | 5 |
| — 55 - 60. . . | 2 | 3 | » | » | 2 | 1 | » | 2 |
| — 60 - 65. . . | 5 | 1 | » | 1 | 4 | » | 1 | » |
| — 65 - 70. . . | 3 | » | » | » | 3 | » | » | » |
| yfir 70 ára . . . . | » | » | » | » | » | » | » | » |
| | 412 | 412 | 130 | 115 | 167 | 167 | 115 | 130 |
| | | | | 412 | | | 412 | |

## Aldurstiltala brúðhjóna.

| | samtals. brúðgumar | samtals. brúðir | samtals. brúðhjón. | tiltals af 100. brúðgumar | tiltals af 100. brúðir | tiltals af 100. brúðhjón. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| fyrir innan 25 ára . . . | 55 | 96 | 75.5 | 13.4 | 23.3 | 18.3 |
| milli 25 og 35 . . . . . | 256 | 225 | 240.5 | 62.1 | 54.6 | 58.4 |
| — 35 - 45 . . . . . | 76 | 69 | 72.5 | 18.4 | 16.8 | 17.6 |
| yfir 45 ára . . . . . . | 25 | 22 | 23.5 | 6.1 | 5.3 | 5.7 |

## Rètt miseldri brúðguma og brúða.

| | aldur brúðguma. snemma, yngri en 25. | aldur brúðguma. mátulega, 25 til 35. | aldur brúðguma. síðla, 35 til 50. | aldur brúðguma. of seint, yfir 50. | aldur brúða. snemma, yngri en 20. | aldur brúða. mátulega, 20 til 30. | aldur brúða. síðla, 30 til 40. | aldur brúða. of seint, yfir 40. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| alls . . . . . . | 55 | 256 | 86 | 15 | 11 | 214 | 145 | 42 |
| af 100. . . . . | 13.4 | 62.1 | 20.9 | 3.6 | 2.7 | 51.9 | 35.2 | 10.2 |

Sýnir skýrsla þessi, sem hèr er prentuð um rètt miseldri brúðguma og brúða, hið sama og áður hefir átt sèr stað á Íslandi, nefnilega að konur að sínu leyti giptast seinna en karlmenn, því þar sem 24.5 að tiltölu af 100 karlmanna árið 1867 kvonguðust síðla eður ofseint, þá voru á sama ári að tiltölu 45.4 af 100 kvenna, sem giptust síðla eða ofseint, eða nær því helmíngi fleiri, og er þetta hlutfall mjög líkt og það var næst undanfarin þrjú ár (smbr. III., bls. 748, og IV., bls. 162 og 440).

5. **Brullaupstíð hjóna.** Í skýrslunni B. 3. er sagt frá, hversu mörg hjón árið 1867 hafi verið gefin saman í hverjum mánuði. Skipti maður nú árinu í 4 fjórðúnga: vetur, vor, sumar og haust, þannig að 3 mánuðir sè taldir í hverjum fjórðúngi árs, og ef svo er talið til vetrarins, einsog áður hefir verið gjört, mánuðirnir desember, janúar og febrúar, og svo framvegis, þá kemur það fram, að árið 1867 hafa hjón á Íslandi verið gefin saman á þessa leið:

| | | |
|---|---|---|
| vetur . . . . . . . . . | 25 tals, | 61 af þúsundi |
| vor . . . . . . . . . . | 14 —, | 34 - — |
| sumar . . . . . . . . | 96 —, | 233 - — |
| haust . . . . . . . . | 277 —, | 672 - —. |

Þetta sýnir, að lángflest hjón, eður miklu meir en helmíngur allra hjóna á þessu ári að tiltölu, eru gefin saman á haustin, og eru hlutföll þessi mjög lík og þau híngað til hafa verið á Íslandi, því á árunum 1856—1867 voru af 1000 hjónum gefin saman:

| | vetur | vor | sumar | haust |
|---|---|---|---|---|
| árið 1856 . . . . . | 48 | 125 | 254 | 573 |
| — 1857 . . . . . | 7 | 199 | 292 | 502 |
| — 1858 . . . . . | 25 | 144 | 314 | 517 |
| — 1859 . . . . . | 15 | 170 | 327 | 488 |
| — 1860 . . . . . | 24 | 43 | 261 | 672 |
| — 1861 . . . . . | 47 | 69 | 272 | 612 |
| — 1862 . . . . . | 50 | 38 | 267 | 645 |
| — 1863 . . . . . | 41 | 50 | 246 | 663 |
| — 1864 . . . . . | 39 | 75 | 294 | 592 |

| | vetur | vor | sumar | haust |
|---|---|---|---|---|
| árið 1865 . . . . . | 67 | 31 | 280 | 622 |
| — 1866 . . . . . | 64 | 25 | 206 | 705 |
| — 1867 . . . . . | 61 | 34 | 233 | 672. |

## III. UM FERMÍNGAR.

Frá þessu atriði er sagt í skýrslunni A. 1 hèr að framan, og hafa eptir henni árið 1867 verið fermd 1619 börn á Íslandi, nefnilega 806 drengir og 813 stúlkur, eða að tiltölu af hverju hundraði 49.8 drengir og 50.2 stúlkur. Mismunur þessi er nú að vísu ekki mjög mikill á þessu ári um allt landið, en það gefur samt að skilja, að hann hljóti að vera tölnvert meiri í hinum sèrstöku hèruðum í landinu, og sýnir það sig einnig, þegar maður skoðar hvert þeirra sèr; því þá kemur það fram, að árið 1867 voru af hverju 100 fermdra í:

| | drengir. | stúlkur. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . | 57.0 | 43.0 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 46.2 | 53.8 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 44.1 | 55.9 |
| Árness s. . . . . . . . | 54.2 | 45.8 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . | 44.4 | 55.6 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . | 44.7 | 55.3 |
| Borgarfjarðar s. . . . . | 56.9 | 43.1 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . | 54.4 | 45.6 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 39.1 | 60.9 |
| Dala s. . . . . . . . | 36.7 | 63.3 |
| Barðastrandar s. . . . . | 45.6 | 54.4 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 42.5 | 57.5 |
| Stranda s. . . . . . . . | 47.4 | 52.6 |
| Húnavatns s. . . . . . . | 51.0 | 49.0 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 49.1 | 50.9 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . | 52.8 | 47.2 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . | 62.6 | 37.4 |

| | drengir. | stúlkur. |
|---|---|---|
| Norður-Múla sýslu . . . . | 48.8 | 51.2 |
| Suður-Múla s. . . . . . . | 55.4 | 44.6 |
| Suður-umdæminu . . . . | 49.8 | 50.2 |
| Vestur-umdæminu . . . . | 44.1 | 55.9 |
| Norður- og Austur-umd. . | 53.4 | 46.6. |

Eptir þessu hafa að vísu á þessu ári í velflestum sýslum landsins verið fermdir fleiri stúlkur en drengir, en þó hefir hið gagnstæða átt sèr stað í 8 þeirra, nefnilega í Skaptafells, Árness, Borgarfjarðar, Mýra- og Hnappadals, Húnavatns, Eyjafjarðar, þíngeyjar og Suður-Múla sýslum.

## IV. UM MANNDAUÐA.

1. Fjöldi andaðra. Manndauði hefir árið 1867 ekki verið mikill á Íslandi, því þetta ár dóu alls 1770 manns í landinu, og er það að upphæðinni til miklu minna en á nokkru hinna síðast undanförnu 9 árum, en lítið meira en árin 1856 og 1857 (smbr. II., bls. 29, 226 og 590, III., bls. 222, 387, 637 og 749, og IV., bls. 163 og 442). Sama kemur einnig fram, sè þetta skoðað eptir tiltölu við fólkstöluna á hverju þessara ára, og sýnir það sig þá, að árið 1867 dóu ekki nema 2.6 af hverju hundraði af allri fólkstölunni í landinu (árið næst á undan voru það 4.5 af 100). Til þess nú að hafa hægra yfirlit yfir það, sem hèr hefir verið sagt, skal hèr á einum stað skýra frá tölu andaðra og svo frá hlutfallinu milli þeirra og allrar fólkstölu í landinu á hverju af hinum síðustu 12 árum. Manndauðinn hefir þá á þessu tímabili verið á þessa leið:

| | tals. | af hverjum 10000 landsmanna. |
|---|---|---|
| árið 1856 . . . . . . . | 1485 | 229 |
| — 1857 . . . . . . . | 1655 | 282 |
| — 1858 . . . . . . . | 2019 | 302 |
| — 1859 . . . . . . . | 2573 | 379 |

| | tals. | af hverjum 10000 landsmanna. |
|---|---|---|
| árið 1860 . . . . . . | 3326 | 489 |
| — 1861 . . . . . . | 2391 | 358 |
| — 1862 . . . . . . | 2874 | 429 |
| — 1863 . . . . . . | 2115 | 317 |
| — 1864 . . . . . . | 2001 | 297 |
| — 1865 . . . . . . | 2100 | 308 |
| — 1866 . . . . . . | 3095 | 450 |
| — 1867 . . . . . . | 1770 | 259. |

það gefur þó að skilja, eins og það einnig liggur í hlutarins eðli, að býsna mikill munur er á manndauðanum í hinum sèrstöku hèruðum landsins, eins árið 1867 og að undanförnu, og skal því hèr segja frá önduðum á árunum 1866 og 1867 í hverri sýslu og í hverju umdæmi á landinu, og svo frá fólkstölunni í árslokin 1865 og 1866, og síðan bera hvorttveggja saman. Skýrsla þessi verður þá þannig:

| | Fólkstala. | | Dánir. | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | | | 1866. | | 1867. | |
| | við árslokin 1865. | við árslokin 1866. | tals. | af 100. | tals. | af 100. |
| Skaptafells sýsla . . . . . | 3701 | 3690 | 143 | 3.9 | 73 | 2.0 |
| Vestmannaeyja . . . . . . | 509 | 489 | 34 | 6.7 | 16 | 3.3 |
| Rángárvalla . . . . . . . | 5383 | 5382 | 205 | 3.8 | 132 | 2.4 |
| Árness. . . . . . . . . . | 5778 | 5721 | 264 | 4.6 | 194 | 3.4 |
| Gullbríngu- og Kjósar . . . | 5075 | 4995 | 277 | 5.5 | 152 | 3.0 |
| Reykjavíkur bær . . . . . | 1478 | 1461 | 72 | 4.9 | 67 | 4.6 |
| Borgarfjarðar sýsla . . . . | 2403 | 2380 | 126 | 5.2 | 68 | 2.9 |
| Mýra- og Hnappadals . . . | 2802 | 2763 | 154 | 5.8 | 60 | 2.9 |
| Snæfellsness . . . . . . . | 2813 | 2729 | 186 | 6.6 | 75 | 2.7 |
| Dala . . . . . . . . . . | 2278 | 2258 | 123 | 5.4 | 56 | 2.5 |
| Barðastrandar . . . . . . | 2705 | 2716 | 81 | 3.0 | 55 | 2.0 |
| Ísafjarðar . . . . . . . . | 4797 | 4749 | 229 | 4.8 | 130 | 2.7 |
| Stranda. . . . . . . . . | 1659 | 1630 | 103 | 6.2 | 30 | 1.8 |

| | Fólkstala. | | Dánir. | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| | við árslokin 1865. | við árslokin 1866. | 1866. | | 1867. | |
| | | | tals. | af 100. | tals. | af 100. |
| Húnavatns sýsla | 4867 | 4916 | 185 | 3.8 | 111 | 2.2 |
| Skagafjarðar | 4419 | 4426 | 210 | 4.8 | 142 | 3.2 |
| Eyjafjarðar | 4714 | 4738 | 147 | 3.1 | 102 | 2.2 |
| Þingeyjar | 5749 | 5713 | 206 | 3.6 | 83 | 1.5 |
| Norður-Múla | 4118 | 4065 | 213 | 5.2 | 107 | 2.6 |
| Suður-Múla | 3493 | 3487 | 137 | 3.9 | 117 | 3.4 |
| Suður-umdæmið | 24327 | 24118 | 1121 | 4.6 | 702 | 2.9 |
| Vestur-umdæmið | 17054 | 16845 | 876 | 5.1 | 406 | 2.4 |
| Norður- og Austur-umdæmið | 27360 | 27345 | 1098 | 4.0 | 662 | 2.4 |
| á öllu Íslandi | 68741 | 68308 | 3095 | 4.5 | 1770 | 2.6 |

Samkvæmt yfirliti þessu hefir manndauðinn árið 1866 verið að tiltölu mestur í Vestmannaeyja sýslu og þá í Snæfellsness sýslu, en minnstur í Barðastrandar sýslu og þá í Eyjafjarðar sýslu. Aptur á hinn bóginn hefir hann árið 1867 að tiltölu verið mestur í Reykjavíkur bæ og þá í Árness og Suður-Múla sýslum, en minnstur í Þingeyjar sýslu og þá í Stranda sýslu. Beri maður þessi tvö ár saman sín á milli, þá hefir manndauðinn árið 1867 verið minni að tiltölu en árið 1866 í öllum sýslum landsins, og er mestur munurinn á manndauðanum á þessum tveim árum í Stranda sýslu, en minnstur í Reykjavíkur bæ.

2. Kyn andaðra. Árið 1867 dóu alls á Íslandi 975 karlar og 795 konur, og hafa þá á þessu ári af hverju 1000 dáinna andazt 551 karlar en 449 konur, og er þetta nokkuð líkt því, sem áður hefir átt sèr stað, að frá skildu þó árinu 1862, því þá önduðust fleiri konur en karlar (smbr. III., bls. 389, 639, 751, og IV., bls. 165 og 444).

Að hlutfall þetta að öðru leyti hljóti að vera býsna ólíkt í hèruðum landsins liggur í hlutarins eðli, og skal það nú sýnt. Árið 1867 voru nefnilega af hverju 100 dáinna í:

| | karlar. | konur. |
|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . . . . | 47 | 53 |
| Vestmannaeyja s. . . . . . | 75 | 25 |
| Rángárvalla s. . . . . . . | 52 | 48 |
| Árness s. . . . . . . . . | 57 | 43 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . . . | 51 | 49 |
| Reykjavíkur bæ . . . . . . | 58 | 42 |
| Borgarfjarðar s. . . . . . . | 59 | 41 |
| Mýra- og Hnappadals s. . . . | 60 | 40 |
| Snæfellsness s. . . . . . . | 56 | 44 |
| Dala s. . . . . . . . . . | 45 | 55 |
| Barðastrandar s. . . . . . . | 55 | 45 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . . | 57 | 43 |
| Stranda s. . . . . . . . . | 60 | 40 |
| Húnavatns s. . . . . . . . | 55 | 45 |
| Skagafjarðar s. . . . . . . | 57 | 43 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . . . | 58 | 42 |
| Þíngeyjar s. . . . . . . . | 48 | 52 |
| Norður-Múla s. . . . . . . | 51 | 49 |
| Suður-Múla s. . . . . . . | 62 | 38 |
| Suður-umdæminu . . . . . | 54 | 46 |
| Vestur-umdæminu . . . . . | 55 | 45 |
| Norður- og Austur-umd. . . . | 56 | 44. |

Eptir þessu hefir nú að vísu árið 1867 að tiltölu andazt fleiri karlmenn en konur í flestöllum sýslum á Íslandi, en þó hefir hið gagnstæða átt sèr stað í þeim þremur sýslum landsins, nefnilega í Skaptafells, Dala og Þíngeyjar sýslum. Í þeim sýslum, þar sem að öðru leyti á þessu ári hafa andazt fleiri karlar en konur, þá hefir munurinn á því hlutfalli verið mestur í Vestmannaeyja sýslu og þá í Suður-Múla sýslu, en minnstur hefir hann verið í Gullbríngu- og Kjósar og í Norður-Múla sýslum, og þá í Rángárvalla sýslu.

3. **Hjúskaparstètt andaðra.** Árið 1867 hafa andazt sam-

tals á öllu Íslandi 188 karlar kvæntir og 122 konur giptar, og eru því á þessu ári 310 hjónabönd slitin. Á þessu sama ári voru þar á móti gefin saman alls 412 hjón, og á því að vera 102 hjón fleiri eptir en áður. Þetta er nokkuð líkt því, sem hefir verið næst undanfarin 12 ár, þó á sumum þeirra, og einkum árið 1866, hafi verið færri hjón eptir en áður (smbr. III., bls. 224, 389, 639, 751, og IV., bls. 166 og 445). Þessu til frekari skýríngar skal hèr geta þess, að á 12 ára bilinu 1856—67 hafa af hverju 1000 dáinna karlmanna andazt:

| | kvæntir. | ókvæntir. | ekklar. |
|---|---|---|---|
| árið 1856 . . . | 206 | 704 | 90 |
| — 1857 . . . | 193 | 744 | 63 |
| — 1858 . . . | 209 | 722 | 69 |
| — 1859 . . . | 262 | 655 | 83 |
| — 1860 . . . | 226 | 713 | 61 |
| — 1861 . . . | 207 | 730 | 63 |
| — 1862 . . . | 280 | 629 | 91 |
| — 1863 . . . | 310 | 580 | 110 |
| — 1864 . . . | 240 | 690 | 70 |
| — 1865 . . . | 209 | 697 | 94 |
| — 1866 . . . | 295 | 601 | 104 |
| — 1867 . . . | 193 | 713 | 94; |

en af hverju 1000 dáinna kvenna voru á sama tímabili:

| | giptar. | ógiptar. | ekkjur. |
|---|---|---|---|
| árið 1856 . . . | 151 | 687 | 162 |
| — 1857 . . . | 133 | 751 | 116 |
| — 1858 . . . | 152 | 714 | 134 |
| — 1859 . . . | 159 | 690 | 151 |
| — 1860 . . . | 152 | 720 | 128 |
| — 1861 . . . | 135 | 752 | 113 |
| — 1862 . . . | 226 | 585 | 189 |
| — 1863 . . . | 192 | 624 | 184 |
| — 1864 . . . | 158 | 673 | 169 |

| | giptar. | ógiptar. | ekkjur. |
|---|---|---|---|
| árið 1865 . . . | 186 | 660 | 154 |
| — 1866 . . . | 207 | 573 | 220 |
| — 1867 . . . | 153 | 703 | 144. |

Beri maður nú þessi 12 ár saman, þá sýnir það sig fyrst hvað karlmenn snertir, að meðal þeirra hafa að tiltölu flestir kvæntir andazt árið 1863 (nær því þriðjúngur allra á því ári dáinna karlmanna); ókvæntir flestir árið 1857 (nær því þrír fjórðu hlutar þá dáinna karlmanna), en ekklar flestir einnig árið 1863. Hvað þar á móti konur snertir, þá hafa flestar giptar konur að tiltölu andazt árið 1862 (nær því fjórði hluti á því ári dáinna kvenna); ógiptar flestar árið 1861 (þrír fjórðu hlutar), en ekkjur lángflestar árið 1866.

Sè þar á móti þetta sama atriði skoðað í hverju einstöku hèraði í landinu, þá verða hlutföll þau, sem vèr hèr höfum tekið til yfirvegunnar, töluvert á aðra leið; því teli maður ekkla með ókvæntum karlmönnum, og ekkjur með ógiptum konum, þá sýnir það sig, að árið 1867 voru af hverju 100 andaðra, bæði karla og kvenna í:

| | af körlum. | | af konum. | |
|---|---|---|---|---|
| | kvæntir. | ókvæntir. | giptar. | ógiptar. |
| Skaptafells sýslu . . . . | 18 | 82 | 13 | 87 |
| Vestmannaeyja s. . . . . | 25 | 75 | 75 | 25 |
| Rángárvalla s. . . . . . | 22 | 78 | 14 | 86 |
| Árness s. . . . . . . | 14 | 86 | 7 | 93 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. . | 17 | 83 | 9 | 91 |
| Reykjavíkur bæ . . . . | 26 | 74 | 25 | 75 |
| Borgarfjarðar s. . . . . | 13 | 87 | 11 | 89 |
| Mýra- og Hnappadals s.. . | 14 | 86 | 4 | 96 |
| Snæfellsness s. . . . . . | 17 | 83 | 15 | 85 |
| Dala s. . . . . . . . . | 24 | 76 | 10 | 90 |
| Barðastrandar s. . . . . | 13 | 87 | 12 | 88 |
| Ísafjarðar s. . . . . . . | 20 | 80 | 5 | 95 |
| Stranda s. . . . . . . . | 11 | 89 | 33 | 67 |

| | af körlum. | | af konum. | |
|---|---|---|---|---|
| | kvæntir. | ókvæntir. | giptar. | ógiptar. |
| Húnavatns sýslu . . . . | 23 | 77 | 26 | 74 |
| Skagafjarðar s. . . . . . | 19 | 81 | 10 | 90 |
| Eyjafjarðar s. . . . . . | 25 | 75 | 23 | 77 |
| þíngeyjar s. . . . . . . | 20 | 80 | 23 | 77 |
| Norður-Múla s. . . . . | 25 | 75 | 29 | 71 |
| Suður-Múla s. . . . . . | 22 | 78 | 20 | 80 |
| Suður-umdæminu . . . . | 18 | 82 | 13 | 87 |
| Vestur-umdæminu . . . . | 17 | 83 | 10 | 90 |
| Norður- og Austur-umd. . | 22 | 78 | 21 | 79. |

Yfirlit þetta sýnir, að árið 1867 hafa að tiltölu flestir kvæntir karlmenn og fæstir ókvæntir andazt í Reykjavíkur bæ og þá í Vestmannaeyja, Eyjafjarðar og Norður-Múla sýslum, en fæstir kvæntir og flestir ókvæntir í Stranda sýslu og þá í Barðastrandar sýslu; aptur á hinn bóginn hafa á þessu sama ári flestar giptar konur og fæstar ógiptar andazt í Vestmannaeyja sýslu og þá í Stranda sýslu, en fæstar giptar og flestar ógiptar í Mýra- og Hnappadals sýslu og þá í Ísafjarðar sýslu. Af yfirliti þessu lætur sig einnig hið sama í ljósi, sem opt hefir verið drepið á, nefnilega að það mun mega álíta sem almenna reglu, að í flestum hèruðum á Íslandi andist af giptu fólki að tiltölu miklu fleiri karlar en konur, og af ógiptu fólki aptur á móti fleiri konur en karlar, því á ári því, sem hèr ræðir um, hefir hið gagnstæða átt sèr stað í þessum 7 sýslum: Skaptafells, Vestmannaeyja, Dala, Stranda, Húnavatns, þíngeyjar og Norður-Múla sýslum.

4. Aldur andaðra. Frá þessu atriði er greinilega sagt í skýrslunum C. 4 og C. 5 hèr að framan. það þykir samt rètt til hægra yfirlits að skipta önduðum niður í flokka, og svo sýna hversu margir úr hverjum flokki um sig hafi andazt á Íslandi þrjú hin síðustu árin. það kemur þá fram, að af hverju 100 af öllum dánum voru:

| | árið 1865. | árið 1866. | árið 1867. |
|---|---|---|---|
| 1 árs og ýngri . . . . | 33.1 | 25.7 | 39.2 |
| milli 1 og 3 ára . . . . | 8.3 | 6.7 | 8.2 |
| — 3 - 5 — . . . . | 3.7 | 2.8 | 3.6 |
| — 5 - 10 — . . . . | 4.4 | 3.0 | 3.2 |
| — 10 - 15 — . . . . | 2.5 | 1.8 | 2.0 |
| — 15 - 20 — . . . . | 2.0 | 2.1 | 1.9 |
| — 20 - 40 — . . . . | 12.8 | 12.6 | 12.4 |
| — 40 - 60 — . . . . | 12.9 | 15.2 | 12.6 |
| — 60 - 80 — . . . . | 17.3 | 26.5 | 14.5 |
| yfir 80 ára . . . . . . | 3.0 | 3.6 | 2.4. |

Skoði maður þetta yfirlit, þá sýnir það sig, að úngbarna dauðinn, það er að skilja á fyrsta árs aldrinum, hefir árið 1867 verið töluvert meiri en tvö næst undanfarin ár, en hèrumbil eins mikill og hann var að meðaltölu um 6 ára bilið 1850—55, því þá var hann 39.0 af hundraði. Af börnum þar á móti milli 1 og 10 ára hefir að vísu árið 1867 dáið lítið eitt færri að tiltölu en árið 1865, en nokkru fleiri en árið 1866 og jafnvel fleiri en að meðaltali um 6 ára bilið 1850—1855; því á þessum aldri dóu árið 1865 : 16.4, árið 1866 : 12.5 og 1867 : 15.0 af hverju hundraði, en meðaltalan á þessum aldri um 6 ára bilið 1850—1855 var 14.4 af hverju 100 dáinna (smbr. I., bls. 386 og 640). Á aldrinum frá 10—40 ára hafa árið 1867 dáið lítið eitt færri að tiltölu en á hverju hinna tveggja áranna, sem hèr ræðir um, en nokkru fleiri en að meðaltölu um 6 ára bilið 1850—1855, því árið 1865 dóu á þessum aldri 17.3, árið 1866 : 16.5 og árið 1867 : 16.3 af hundraði, en árin 1850—1855 að meðaltölu einúngis 13.6 af hundraði. Aptur á móti hafa árið 1867 dáið á rosknum aldri, eða frá 40—80 ára, töluvert færri að tiltölu en næst undanfarin tvö ár, einkum þó árið 1866, því árið 1865 önduðust á þessum aldri 30.2 af hundraði, árið 1866 : 47.1 af 100, en árið 1867 einúngis 27.1 af hundraði, og er það mjög líkt og að meðaltölu um 6 ára bilið 1850—1855, því þá dóu 27.6 af hverju 100 dáinna. Loks hefir einnig af

gamalmennum, eða af fólki yfir 80 ára, andazt nokkuð lítið færri árið 1867 en næst undanfarin tvö ár.

Hlutföll þessi milli andaðra verða þó töluvert á annan veg, þegar maður skoðar þetta atriði eptir kynferði andaðra, því þá telst svo til, að á hinum síðustu þrem árum 1865—1867 hafi af hverju 100 dáinna karlmanna andazt:

| | árið 1865. | árið 1866. | árið 1867. |
|---|---|---|---|
| 1 árs og yngri . . . . | 35.0 | 28.3 | 38.8 |
| milli 1 og 3 ára . . . . | 8.1 | 6.1 | 8.6 |
| — 3 - 5 — . . . . | 2.8 | 2.7 | 3.6 |
| — 5 - 10 — . . . . | 4.9 | 3.2 | 3.6 |
| — 10 - 15 — . . . . | 2.1 | 2.0 | 2.9 |
| — 15 - 20 — . . . . | 2.4 | 1.9 | 1.8 |
| — 20 - 40 — . . . . | 14.3 | 13.4 | 12.9 |
| — 40 - 60 — . . . . | 13.3 | 16.6 | 14.3 |
| — 60 - 80 — . . . . | 15.5 | 23.2 | 11.9 |
| yfir 80 ára . . . . . . . | 1.6 | 2.6 | 1.6; |

en af hverju 100 dáinna kvennmanna önduðust:

| | árið 1865. | árið 1866. | árið 1867. |
|---|---|---|---|
| 1 árs og yngri . . . . | 30.9 | 23.0 | 39.7 |
| milli 1 og 3 ára . . . . | 8.6 | 7.4 | 7.7 |
| — 3 - 5 — . . . . | 4.8 | 2.9 | 3.7 |
| — 5 - 10 — . . . . | 3.9 | 2.7 | 2.7 |
| — 10 - 15 — . . . . | 2.9 | 1.5 | 1.0 |
| — 15 - 20 — . . . . | 1.5 | 2.2 | 1.9 |
| — 20 - 40 — . . . . | 11.2 | 11.8 | 11.8 |
| — 40 - 60 — . . . . | 12.5 | 13.9 | 10.4 |
| — 60 - 80 — . . . . | 19.3 | 29.9 | 17.7 |
| yfir 80 ára . . . . . . | 4.4 | 4.7 | 3.4. |

Yfirlit þessi sýna meðal annars, að af úngbörnum, það er að skilja 1 árs og yngri, hafa að tiltölu á öllum þessum árum andazt að tiltölu fleiri sveinbörn en meybörn; en af börnum á aldrinum frá 1—10 ára eru hlutföllin mjög svo lík. Sömuleiðis hafa, á aldrinum frá 10—40 ára, eins og líka að undanförnu, að tiltölu

dáið fleiri karlar en konur. En aptur á móti á hið gagnstæða sèr stað um fólk á rosknum aldri frá 40—80 ára, því á öllum þessum árum hafa að tiltölu andazt fleiri konur en karlar, og þetta sama á sèr einnig stað um gamalmenni yfir 80 ára. Er þetta allt meðal annars eitt til sönnunar fyrir því, að konur á Íslandi, eins og í öðrum löndum, verða eldri eða lifa lengur en karlar almennt.

Að öðru leyti gefur það að skilja, að hlutföll þessi, milli andaðra eptir aldri þeirra, hljóta að vera býsna ólík í hinum sèrstöku hèruðum í landinu. Í skýrslunni C. 5 hèr að framan er nú að vísu sagt frá tölu dáinna árið 1867 eptir aldri í hverju prófastsdæmi, en til þess að skýra betur það sem þar er sagt, þá skal hèr sýna hversu margir að tiltölu hafi andazt á þessu ári á 5 aldursbilum, og kemur það þá fram, að árið 1867 voru af hverju 100 dáinna:

| | 1 árs og yngri. | frá 1—15 ára. | frá 15—40 ára. | frá 40—70 ára. | yfir 70 ára. |
|---|---|---|---|---|---|
| Skaptafells sýslu . . . | 46.6 | 8.2 | 15.1 | 21.9 | 8.2 |
| Vestmannaeyja s. . . . | 6.3 | 6.3 | 43.7 | 43.7 | » |
| Rángárvalla s. . . . . | 50.0 | 16.7 | 6.1 | 15.1 | 12.1 |
| Árness s. . . . . . | 40.7 | 27.8 | 5.7 | 19.1 | 6.7 |
| Gullbríngu- og Kjósar s. | 42.8 | 19.7 | 10.5 | 23.0 | 4.0 |
| Reykjavíkur bæ . . . | 19.4 | 10.5 | 38.8 | 20.8 | 10.5 |
| Borgarfjarðar s. . . . | 35.3 | 23.5 | 19.1 | 14.7 | 7.4 |
| Mýra- og Hnappadals s. | 43.3 | 15.0 | 11.7 | 20.0 | 10.0 |
| Snæfellsness s. . . . | 41.3 | 4.0 | 24.0 | 18.7 | 12.0 |
| Dala s. . . . . . . | 46.4 | 10.7 | 12.5 | 19.7 | 10.7 |
| Barðastrandar s. . . . | 50.9 | 10.9 | 9.1 | 23.6 | 5.5 |
| Ísafjarðar s. . . . . | 42.3 | 12.3 | 13.8 | 23.9 | 7.7 |
| Stranda s. . . . . . | 63.3 | 10.0 | 6.7 | 10.0 | 10.0 |
| Húnavatns s. . . . . | 34.2 | 21.6 | 9.0 | 27.1 | 8.1 |
| Skagafjarðar s. . . . | 38.7 | 28.2 | 12.0 | 14.1 | 7.0 |
| Eyjafjarðar s. . . . . | 41.2 | 13.7 | 15.7 | 22.6 | 6.8 |
| Þíngeyjar s. . . . . | 27.7 | 10.8 | 21.7 | 19.3 | 20.5 |

| | 1 árs og ýngri. | frá 1—15 ára. | frá 15—40 ára. | frá 40—70 ára. | yfir 70 ára. |
|---|---|---|---|---|---|
| Norður-Múla sýslu . . | 28.0 | 18.7 | 19.6 | 27.1 | 6.6 |
| Suður-Múla s.. . . . | 33.3 | 12.9 | 18.8 | 27.3 | 7.7 |
| Suður-umdæminu . . . | 40.2 | 19.4 | 13.1 | 19.8 | 7.5 |
| Vestur-umdæminu . . | 45.6 | 10.6 | 14.0 | 20.7 | 9.1 |
| Norður- og Austur-umd. | 34.3 | 18.4 | 15.7 | 22.7 | 8.9. |

Yfirlit þetta sýnir, að býsna mikill munur er í þessu efni í hèruðum landsins. Árið 1867 hafa þannig af úngbörnum á fyrsta ári að tiltölu andazt lángflest í Stranda sýslu (63.3 af hundraði, eða töluvert meira en helmíngur allra þar dáinna) og þá í Barðastrandar sýslu (50.9 af 100 eða rúmur helmíngur), en fæst í Vestmannaeyja sýslu (ekki nema sextándi hluti þar dáinna) og þá í Reykjavíkur bæ (hèrumbil fimti hluti allra þar dáinna). Börn á aldrinum frá 1—15 ára önduðust að tiltölu flest í Skagafjarðar sýslu (nefnilega 28.2 af 100, eða tæpir þrír tíundu hlutar þar dáinna) og þá í Árness sýslu, en lángfæst í Snæfellsness sýslu (ekki nema 4.0 af 100 eða rèttur tuttugasti og fimti hluti) og þá í Vestmannaeyja sýslu (6.3 af hundraði). Af fólki á bezta aldri, eður á aldrinum frá 15—40 ára, hafa á þessu ári lángflestir að tiltölu andazt í Vestmannaeyja sýslu (nefnilega 43.7 af 100 eða rúmir tveir fimtu hlutar allra þar dáinna) og þá í Reykjavíkur bæ, en fæstir í Árness sýslu (ekki nema 5.7 af 100 eða rúmur tuttugasti hluti) og þá í Rángárvalla sýslu. Á rosknum aldri aptur á móti, eða frá 40—70 ára, hefir fólk árið 1867 að tiltölu andazt flest í Vestmannaeyja sýslu (nefnilega 43.7 af 100) og þá í Suður-Múla sýslu (27.3 af 100), en fæst í Stranda sýslu (10.0 af 100 eða rèttur tíundi hluti) og þá í Skagafjarðar sýslu. Loks hafa gamalmenni yfir 70 ára andazt flest að tiltölu í Þíngeyjar sýslu (20.5 af 100 eða hèrumbil fimti hluti) og þá í Rángárvalla sýslu, en lángfæst (að Vestmannaeyja sýslu frá skildri, hvar enginn hefir andazt á þessum aldri) í Gullbríngu- og Kjósar sýslu (ekki nema

4.0 af 100, eða rèttur tuttugasti og fimti hluti) og þá í Barðastrandar sýslu. Skoði maður hlutföllin í hverjum aldursflokki sín á milli, þá er mestur munurinn á þeim í flokkinum 1 árs og ýngri, nefnilega frá 63.3 til 6.3 af 100 (árið 1866 átti þetta sèr stað í flokkinum frá 15—40 ára, smbr. IV. bls. 452), en minnstur er munurinn í flokkinum yfir 70 ára, nefnilega frá 20.5 til 4.0 af 100.

5. Ártíð andaðra. Frá þessu atriði er sagt í skýrslunni C. 4. hèr að framan; en þareð ekki er svo lítill munur í þessu efni, eins og af sjálfu sèr gefur að skilja, getur verið á þessu á hverju ári, þá skal hèr sýna hversu margt fólk að tiltölu hafi andazt í hverjum mánuði á hinum síðustu fjórum árum 1864—1867; og kemur það þá fram, að af hverju 100 dáinna önduðust:

| | árið 1864. | árið 1865. | árið 1866. | árið 1867. |
|---|---|---|---|---|
| janúar . . . | 5.1 | 7.2 | 7.1 | 7.4 |
| febrúar . . | 5.4 | 6.9 | 5.7 | 6.2 |
| marz . . . | 8.2 | 7.3 | 6.2 | 7.1 |
| apríl. . . . | 8.4 | 8.8 | 4.4 | 8.1 |
| maí . . . . | 7.6 | 8.9 | 21.2 | 8.9 |
| júní . . . . | 7.9 | 8.6 | 18.6 | 10.4 |
| júlí . . . . | 17.4 | 9.2 | 11.5 | 9.6 |
| ágúst . . . | 11.6 | 7.5 | 6.1 | 8.4 |
| september. . | 8.1 | 7.4 | 4.7 | 7.2 |
| október. . . | 6.5 | 10.7 | 5.5 | 8.0 |
| nóvember . . | 6.1 | 9.4 | 4.6 | 9.1 |
| desember . . | 7.7 | 8.1 | 4.4 | 9.6. |

Þetta sýnir, að á þessum fjórum árum hefir manndauði á Íslandi að tiltölu verið lángjafnastur í hverjum mánuði árið 1865, nefnilega mestur í október mánuði, og minnstur í febrúar mánuði. En aptur á hinn bóginn hefir manndauðinn í landinu verið mest ójafn í tilliti til mánaðanna að tiltölu árið 1866, nefnilega á því ári mestur í maí mánuði og minnstur í apríl og desember mánuðum.

6. Dauðdagi andaðra. Árið 1867 dóu á Íslandi 1687 á sóttarsæng, og eru þar með einnig talin andvana fædd börn, en af slysförum bæði á sjó og landi dóu á sama ári einúngis 83, og eru

